# Biblíu-Lestrar
á
# Sunnu- og Helgi-døgum,
innihaldandi
Nýja Testamentisins bækur
og
nockur stycki úr Gamla Testamentinu.

Þetta allt safnad í útleggíngu og vída útskírt, eptir samanhángandi efni en ei Bóka nje Kapitula rød, og skipt í gudlega lestra á Sunnu- og Helgi-døgum árid um kríng

af

**Dr. Nicolai Edinger Balle,**
Biskupi í Sjálands-Stipti.

## Fyrsti Partur

sem tekur frá Adventu til Føstu-inngángs,

med

Formála

Geheime-ráds og Stiptamtmanns
**Ove Høegh Guldbergs,**

á Íslendsku útlagdur af

**Arnóri Jónssyni,**
Sóknar-presti til Hvanneyrar og Bæjar í Borgarfjardar-sýslu.



Selst almennt innbundinn 80 skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1799.
Prentadur á kostnad Íslands almennu Uppfrædingar Stiptunar,
af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Bibliu-Lestrar
## frá Adventu til Føstu-inngángs.



Fyrsta

## Fyrsta Dag Jóla.



Fyrsta

Sjøtta Sunnudag eptir Þrettánda.



Fyrſta Sunnudag í Níuviknaföſtu.



Annann Sunnudag í Níuviknaföſtu.





# Formáli.

Eg rita formála, eptir tilmælum Herra Biskups Dr. Nicolai Edinger Balles, þess manns, hvers skynsemd, hjartalag, framqvæmd og athafnir vor tíd gétur skodad, og eptirtídin skal virda, og eilífdin mun króna. Eg skrifa inngáng til einnar bókar, sem helgud er alþýdu manna, hvar og til sannrar virdíngar þjód vorri, er af alþýdunni gjord almenn. Og þessi bók, sem mér er jafn-skyldt og virdíngar-fullt, ad setja mínum Lesurum fyrir sjónir, er engu minna verd, enn Guds egid ord; því, ad fráteknum útgéfarans fáu skíríngar-greinum, er øll bókin Guds ord, sjálf heiløg Ritníng; Spámanna, Postula, Krists eginn vitnisburdir, einúngis svo nidur-radadir, ad sérhverr kristinn gétur sjálfur og audveldlega prófad, hvort lærdómur sá, í hvorjum hann uppalinn er, og sem hann játar med vorri kirkju, er lærdómur heilagrar Ritníngar. Um þetta ætti þó hvorr einn kristinn ad vilja sannfærast, og vegurinn þar til er honum hér greiddur, svo, þegar hann samanber þær framsettu ritníngar-greinir vid þær hugleidingar eda lærdóm, eptir hvor-

jum þær nærst á eptir fylgia, og neytir svo adgætins eptirþánka, sem hann er Gudi og sjálfum sér um skyldugur, getur hann ánægjanlega komist ad raun um, hvort lærdómurinn sé grundvalladur á heilagri Ritníngu, edur ei. Þanninn heldur hann þá áfram, frá hugleidíngu til hugleidíngar, og sé hann trúr sjálfum sér medan þetta mikilvæga framhald yfirstendur, veit hann ad lokum, med fullri vissu, hvort trú vor í öllum hennar hofud-lærdómum, er Ritníngarinnar trúar-lærdómur, sjálfs Jesú Krists lærdómur. Eg segi: ad þá viti hann þetta, og vita megi; því sjálfur hefir hann sjed, sjálfur prófad; og sjed hefir hann getad, því sama mannvit hefir hann, sem manneskjur þær höfdu, hverjum sérhverr einstakur Ritníngarinnar partur var í hendur fenginn, og af hverjum hann lésinn var. Hér hefir hann einnínn fyrir sér haft, ecki einstaka grein eda vers; því þad hefdi máské verid sundrad frá því, sem þad vid átti, og þár merkt þess vegna eitthvad fráleitt; en hér hefir hann lesid og hér ígrundad samvalda stadi, eins og þeir standa og ega fullkomlega saman í vorri heilögu Ritníngu. Þad, sem hann hefir þá fundid skilmerkilega bodad og kennt um Gud, um sjálfa oss, um vort ásigkomulag, vorar skyldur, gódra von og vondra qvída, þetta verdur lærdómur Ritníngarinnar, og svo framarlega, sem hún er Guds ord, ætti þetta ad vera hans trú og hans leidarvísir.

Svo

Svo stendur þad skrifad, svo á hann ad trúa, og þannveg ad vitá, ad hugsa og breyta.

Ad vísu er heilög Ritníng, svo ásigkomin, sem hún er oss í hendur fengin, fullkomlega megnug ad leida oss til sómu þeckíngar, og sama stödugleika; en þá hlýtur hún öll ad lesast, lesast opt og med stödugri adgætni. Adal augnamid bædi gamla- og nýja-Testamentisins verdur sifeldt ad upplýsa og betra og hólpna ad gjöra manneskjuna. En þad margvíslega augnamid, sem Spámenn og Postular þaradauk hlutu ad hafa, áhrærandi þær tídir og manneskjur, fyrir hvörjar þeir fyrst skrifudu, gjördi naudsynlegt, ad tímanna vidburdir og þessara manna ásigkomulag hlytu bædi ad tilgreinast, og líka gaumgæfast, til ad uppfræda þá med hæfilegasta móti, og finna ásamt tilefni, já! skyldu ad auglýsa, ítreka, ányja, eda brúka þær ástædur, lærdóma og reglur, sem ecki gyldtu einúngis á þeim tímum, heldur fyrir allar komandi ættqvíslir.

Jafnvel oss, svo fjærlægum þeim öldum og því fólki; jafnvel oss, segi eg, sem erum undir ödru lopti, hofum adra sidi, adra þeckíngu, er allur þessi auka-tilgángur og frásögn hans í Ritníngunni mikilvægur; ecki einúngis þess vegna, ad manneskjan (hvar sem hún lifad hefir, eda hvönær) er manneskja, og lík oss, heldur og sokum þess, ad þad allt er í margskonar tilliti nytilegt, lærdómsríkt, opt ómissandi, en ætíd íhugaverdt. Á somu slódum, sem korn-

id, grasid og jurtirnar vaxa, sem oss og fénadi vorum er ómissandi, vaxa líka þær jurtir, sem Læknirinn, og þær, sem Náttúru-spekíngurinn smásmuglega leita upp. En svo sem haustyrkju-mennirnir bjarga ad lokum því fullvaxna korni fyrir oss inn í vorar kornhlödur, svo er hér og bók samansöfnud handa alþýdu, sem inniheldur alla þá lærdóma, hvörjum Ritníngin vill, ad vér skulum trúa og fylgja. Því þad, sem finnst í gamla- og nýja-Testamentinu adskilid og útdreift, er hér sameinad og fylgir hvört ödru í þeirri röd, sem þessa lærdóma ecki einúngis er hægast ad grípa, heldur eins og þeir ega best saman, hvörr vid annann, svo ad þeir sameginlega fái kristilegri trú og kristilegu hugar-fari til vegar komid. Vor Frædaqver, Lærdóms-bækur, Kénnenda útleggíngar eru mentir barn-æsku vorrar; vér trúum því, sem oss er þanninn kénnt.

Svo er ollu varid fyrir þeim aldrí, og sökum litils skilníngs gétur þad ecki ödruvísi verid: hann sær skilid, komist ad og munad, en ecki prófad né ransakad; því hlýtur ad trúa og finna, þángad til þeckíngin fæst, reynslan og æfing skynseminnar, til ad grenslast eptir, samanbera og meta. En þar eptir kémur hid fyrsta stóra skref áfram! og þad má gjora med bók þessari og ransókn eptir þessari bók, og seinna meir eptir allri heilagri Ritníngu. Adur höfdu menn og urdu ad hafa foreldra trú, Kénnenda trú, lærdóms-bóka trú; nú trúa

menn

menn því, sem Ritníngin kénnir oss, og þad vegna þess hún svo kénnir oss.

Rauninn skal sanna fyrir sérhvørjum kristnum, ad hann med þessari bók ødlast fái þá fullvissu. Þær vøldu Ritníngar-greinir eru svo skiljanlegar, ad hvørr, sem finnur hvad árídur og les med gaumgæfni, gétur sjálfur skilid, og þarf ecki ad leita sér ad útleggjurum; því hann metur sjálfur, og sjálfur reynir hann ad hann med ótrubludu sinni og skyldugum eptirþánka, skilur sjálfur Ritníngarinnar meiníngu, og sjálfur sjer hann, ad hinn fyrifram tilteknu lærdómur er augljós í þeirri framfærdu ritníngar-grein, og ecki einúngis sá lærdómur, heldur honum samvaldir og þeir allir mikilvægir, allir samgeislandi til ad tendra ljós og yl og frjóssemd í hinu myrka hugskoti og því kalda og harda hjarta.

Og, þegar ransókninni er þanninn bókina á enda frá lærdómi til lærdóms framhaldid og lokid, sjer hvørr kristinn yfir øll sín trúarbrøgd, alla lærdóma, allar reglur, og þad allt í þeirra sambandi, og þad allt grundvallad á Ritníngunni. Sjálfur hefir hann nú prófad, sjálfur sjed þad, sjálfur komist ad raun um þad. Hans trú er grundvølllud á Ritníngunni, stendur ásamt henni, fellur ei nema hún falli um leid.

En Ritníngin fellur ecki, því hún er af Gudi: hennar lærdómur er því sjálfur sannleikurinn, og oss kristnum svo viss og byggjandi, sem þad óhvikult er, ad hinn mikli Stiptari vorrar trúar, kom frá Gudi, útgéck frá

foður sínum, til að kunngjöra Foðursins á-qvarðanir um oss, og oss veginn til eilífs lífs. Hvorki útheimtist lærdómur né skarpleiki til að sannfærast um þetta; þá eginlegleika gêta einúngis mjög fáir menn útvegað sér eða haft. Sannlega hefir Guð betur alið önn fyrir mannkyninu enn svo, að fullvissan í þessu mikilvægasta efni, að eins verða skyldi hlutfall nockurra fáeinna manna, og hinn ósegjanlega mikli fjöldi manna trúa á þessa og fylgja þeim í blindni. Þess vegna setti hann þau einkénni á Jesú lærdóm, og auglýsti Jesúm með þvílíkum rokseindum um hans guddómlega embætti, að heilbrygð skynsemi og egin reynsla fær leidt sérhvorja fúsa sálu til stöðugrar og fridandi fullvissu. Almennilegt mannvit segir oss: að ef Jesús Kristur, sem sagdist vera ljós heimsins, og Foðursins túlkur hjá mönnunum, hafdi rétt til að krefjast þess að honum trúað væri, hlaut allt hans framferdi að vera visdómur, dygð, heilagleiki og sjálf mannelskan. Lesum nú Guðspjalla-mennina, og tökum einúngis eptir þessum eginlegleikum; vér finnum þá bædi einstaka, og í óslitinni keðju sameinaða, allt frá byrjun hans embættis til hans himin-farar.

Allir gêtum vér ordið þessa varir, allir komist að raun um það. Og þó ecki væru nema þessir eginlegleikar, koma þeir oss til að álíta hans persónu eins elskulega og heidursverða. En þessi fullkomnasta manneskja, gjördi

og

og á því hálfu fjórda ári, sem hann kénndi hér á jordu, hin augljósustu furdu=verk, og sagdi sjálfur: ad svo gjørdi hann til ad sanna, ad hann væri af Gudi sendur, og ad øllum bæri því ad trúa, sem hann bodadi og baud. Sjálfur hann var sá, sem berlega sagdist vera sá mikli Spámadur, ljós heimsins, sá Messias, sem hjá Spámønnunum fyrirheitinn var, Fødursins eingétni, Frelsari mannanna med því ad lída qvala=fullann dauda og gèfa sig út til offurs þeirra vegna.

Þessa vitnisburdi sjálfs hans um sjálfann sig gètur hvørr einn sjálfur lesid, hvørr einn sjálfur skynjad; og til ítrustu stádfestíngar um sannsøgli sitt, uppreis hann þaradauki frá daudum og stè upp til himna.

Nú vottar heilbrygd skynsemi hvorjum af oss, ad annadhvørt hlýtur hann ad vera sá, sem hann sagdi, eda hinn mesti spottari, lygari og svikari. En vèr finnum, ad þetta seinna er ómøgulegt; því í øllu sinu líferni er hann ó=neitanlega hin edlasta, í sínum tilgángi hin hreinskilnasta manneskja, í furdu=verkum sínum almættisins egid verkfæri. Því hlýtur hann sá ad vera, og er oss sá, sem hann sagdist vera. Þargdauk hefir hinn sami Jesús út=þryckilega sagt og sannad, skýlaust sagt og fyrifram bodad, ad á tímum þess Gydinga=kyns, sem hann átti ætta=stad vid, skyldi stjórn=ar=stand þeirra og musteri umturnast, og þessi þjód tvístrast medal annara þjóda. Þetta sást,

og sjest uppfyllt. Já! hinn sami Jesús, sagdi optar enn einusinni fyrir víst, ad eins og þjónustu-gjørdin í Jerúsalems musteri skyldi undir lok lída, soo hlyti hin tvø þúsund ára gamla afguda-dýrkan í heiminum hraparlega ad kollkastast, og hin sanna Guds og Jesú þeckíng jafnódum útbreidast um jordina medal margra þjóda, og hvad sem hørdustu áráfum lídi, haldast vid undir hans vernd til tímans enda. Enninn sást og sjest enn á átjándu øld sídan hann var, ad þetta uppfylltist.

En framar valdi sá sami Jesús til ad boda og útbreida lærdóm sinn hina tólf ólærdu Postula og þar eptir Pál, alla metorda- og valda-lausa; lofadi þeim og gaf þann vísdóm og þann krapt, sem einn mátti, og einn gjørdi þad møgulegt, ad myrkrid veik undan ljósinu, og ad sannleikur og farsælandi þecking fengu rudt sér til rúms á jordunni og búa enn þá á henni. Þetta vard ord og ad sønnu, og sjest þann dag í dag er.

Þessi kénnimerki vors mikla trúar-høfunds, þessa óneitanlegu votta hans, med soo einstøkum hætti verkandi skýlausu fyrisagna, sær viti-borinn bóndi, og eptirþánka-samur handverksmadur, allt eins kannast vid og sjed, og hinn lærdi, sem margskonar mentum er útbúinn, og þad all-opt betur og vissar, þared hinir fyrri sjá med einberum augum, en hinn vill þará-móti opt einúngis sjá med stæckunar-glerum, og láng-sikirum sínum. En á allt þetta, sem

allt

allt yfirtalar og fullvissar svo mjøg, bætist þar á ofan sjálfs Jesú lærdómur, af sjálfum honum framsettur, kunngjordur og uppteiknadur oss til handa af Postulum hans, af hvorjum jafnvel geislum skaut, sem morgun-roda til þeirra, sem vóru á gamla Testamentisins tíma, fyrir hvorju hann og sagdi ad Gud hefdi enn alid. Med þessum Jesú lærdómi, gafst þad, ad manneskjurnar þecktu og þeckja Gud, Skapara þeirra, Herra og Fødur; þeckja sig sjálfar eins og þær eru, skynsamar, en skilníngar-vitunum ánaudugar, eins syndugar og sakfallnar, sem Gudi um hlýdni skyldugar; þeckja Guds medaumkun, hvorsu hún hefir látid sig í ljósi, med hvorjum skilmálum hún megi þeim ad gódu verda; þeckja ad lyktum eilífdina, og í henni eins yndæla von fyrir þá gódu, og ofbodslegann qvída fyrir þá vondu.

Þessi mikilvægasta þecking, hvorja sjálfur Gud framleiddi, og, sem Fødursins eingétni opinberadi mønnunum er sá, sem allrafyrst sýndi, ad dygd og rádvendni væri skylda vid Gud; sýndi ad lestir og vanart væru synd á móti Gudi, gjørdi ad mannleg samvitska vard loks myndug og sann til Guds. Nú fyrst urdu þad ecki lengur skynseminnar álygtanir, sem vér gétum ei allir gjørt, ecki heldur allir skilid; enn sidur forfedra sagnir, eins óvissar og þeirra uppsprettur; heldur Guds ord, Jesú ord, sem skilmerkilega og ýtarlega upplýstu, leiddu, styrktu, upporfudu og fráfældu eins þann lærda og

hinn ólærda; eins fátæklinginn í kofanum, og þann volduga í slotinu. Gud, allra Herra og Fadir, gaf öllum hentugleika til jafnrar þeckíngar og jafns adgángs til sín; öllum hinn sama, öllum jafn-hægann. Og þó vér gætum imindad oss nockra fyritaks spekínga (því hvad gétum vér ecki imindad oss?) sem verid hefdu heppnir nóg ad uppgötva sannleikann um Gud og manneskjuna og eilífdina; og skarpskignir nóg til ad sjá inn í Gud, og uppgötva ályktanirnar um þvílíka, sem vér erum í raun og veru. Sjá! þá hlutu þessir vísu, annadhvort ad leida brædur sína gégnum sömu smásmuglegu og náqvæmu yfirveganir, sem þeir sjálfir farid höfdu, en mjög svo fáir gátu fylgt þeim og ratad veginn; eda þeir urdu ad setja mönnum einberann sannleikann fyrir sjónir, en sleppa hans grundvelli; en þá hefdu flestir, allur fjöldi manna, í blindni ordid ad trúa þessum spekíngum, og þó vóru þeir menn ecki óyggjandi, ecki oss fullvissir. En Fodursins Eingétni, sem svo er sannadur ad vera, er oss óyggjandi, og Postularnir, sem hann svo útbjó, sem hann sjálfur vardveitti í sínum lærdómi, þeir eru þad.

Ohult er oss honum ad trúa, og á hann ad trúa. Hinar gyldustu orsakir bjóda oss þad, og þær ástædur, sem heilbrygd skynsemi skilur, og óstolt mannvit vidurkénnir.

Hér vid bætist enn þá egin-reynsla, sem allir sann-kristnir hafa um ágæti Jesú lær-

lærdóms og hvorrar sérhvør manneskja, sem vill það af alvöru, gétur ásamt þeim hluttakandi orðið. Þessir hafa viljað gjöra Guðs vilja, þess vegna kannast þeir við af reynslunni, að Jesú lærdómur er af Gudi.

En — Guð fær ei annars enn viljað, að manneskjur viðurkénni að hann sé sá, sem hann er; sig sjálfar, það þær eru, og verði það, sem þær orðið géta, og þess vegna ega að vera; Sannleika hlýtur Guð að vilja, á lygi og ílaðri að hafa andstygð; vaxandi ráðvendni og henni sameinuð farsæld hans skynsemdarfullu, hlýtur að vera hans velþóknan; vanart þeirra og þar af fljótandi ógjæfa hans mis-þóknan. Þegar nú Jesú lærdómur miðar til, að Guð egi að vera vor kjærleiki og dýrkan, og hans velþóknan vor staðfost laungun, vor upporfandi von, og hinn fúsi kristni hugsar eldúngis svo og vill og breytir, þá finnur hann sig í ásigkomulagi í tilliti til Guðs, sem hans vakandi samvitska æskir og fellst á.

Kénni Jesús oss að manneskjan sé fávís, syndug, sakfallin og géti ecki bjargað sjálfri sér, þá þeckir hinn sami kristni af egin, af annara, af allra tíma reynslu, að hann sé manneskja og þurfi því nauðsynlega það ljós, sem Guðs orð gefur; þá mildi, hvørri það heitir og þá miskun, sem Guð fyrir Kristo sakir hefir oss lofað. En af þessum Guðs kjærleika, og þessari Jesú dýrmætu endurlausn, um hvørja hinir hreinskilnu kristnu eru svo fullvissaðir í

Ritn-

Ritníngunni, og, sem þeim daglega ríður svo mjøg á, ødlast þeir øruggann adgáng til Guds í bæninni, og lífgandi fullvissu um nád Guds, og Jesú sífelldu umønnun, hvør vissa ei er grundvøllud á sinjadrandi tilgátu, eda svikulum manna meiníngum, heldur á Guds egin fastmælum og síns Eingétna bodun í Guds ordi, sem svo kroptuglega er sannad.

Hinn sann-kristni hefir af Jesú lært, ad án innilegustu sinna-skipta, án Gud-trausts, audmýktar, árvekni, bænar, yfirvegunar Guds orda, fastheldni vid Krist, og audsveypni vid hans lærdóm, géti menn ecki ødlast eda vardveitt sanna dygd, né stødugann vidbjód á vanartinni; reynslan gjørir hann og svo, og þad sífelldlega, fullvissann um þennann sannleika. Þetta þá, ad trúa Fødurnum og trúa Syninum, jafnvel þegar menn fá ei skilid, og í þeim lærdómum, sem menn fá ei ransakad, þetta verdur og er alhægt þeim rétt-kristna, sem veit, ad honum er óhætt Kristi ad trúa, veit, hvørs vegna hann trúir honum, og reynir daglega fulla verkun af, ad hafa trúad honum í øllu. Þad í náttúrunni, sem dagslega er kríngum mig, segir hann, brúka eg, án þess ad fá þad útgrundad; og eg skyldi hugsa ad mæla djúp Guds! mér er nóg ad trúa, og sáluhjálplegt ad hlýda.

Ef þá trúarbrøgdin, komin frá sjálfum Gudi handa þesskonar manneskjum, sem vér erum í raun réttri, gjøra oss Gudi og hvørn

ødr-

ödrum áhángandi, gjöra oss fulltrúa um náð, og synda fyrirgéfningu, laga oss, ef vér sjálfir viljum, til að verda edla og eilíflega farsælir, skynsamir; og þess vegna uppvekja og vakandi halda samvitsku í oss, glada von, og óþraudá vidleitni að, ödlast það góða og vegsamlega, sem sjálfur Gud hefir vísað á, þá hefir hinn sann-kristni í sér sjálfum og af sjálfum sér fullvissu um, að svo, einúngis svo, eru þau trúarbrögd; sem Jesús kenndi, sem vér í þessari bók getum lesið med sjálfs hans og Ritníngarinnar ordum. Þá eru trúarbrogdin ordin honum það, sem sönn trúarbrögd ega að vera; sannlega hin markverdasta og edlasta þecking, en ecki hún, lángt frá ecki hún ein; nei! heldur vitsmunir, vilji, samvitska, lífs-kraptur og lífs farsæld í sjálfum honum.

Þessi egin reynsla er hinum kristna þá hid sama, sem öll sannarleg reynsla og dagleg reynsla er sérhvörjum athugasömum manni; ástædur géta talid trú; en þvílík reynsla ofaná þvílíkar ástædur, sannfærir, dregur af allann efa, gjörir óbifanlegann og hefir leidt sálina til að áqvarda sjálf hvad satt sé. Þá trúa menn ecki einúngis heldur vita. Þá finnur þvílíkur kristinn fullkomlega sannleika þessara Jesú orda:

**Eg prísa þig, Fadir! himins og jardar Drottinn! að þú huldir þetta fyrir þeim vísu og spöku, en opinberadir það einföldum; já, Fadir! svo þócknadist þér**

að

ad haga því! Allir hlutir eru mér á hendur faldir af Föður mínum. Og enginn þeckir Soninn, nema Fadirinn, ecki heldur þeckir nockurr Födurinn, nema Sonurinn, og hvörr, sem Sonurinn vill þad opinbera. Komid hingad til mín allir, sem örmagnadir erud undir ydvarri byrdi, og skal eg veita ydur léttir. Takid mitt ok á ydur, og mig fyrir frædara; því eg er ljúfur og lítilátur, og þér skulud hugsvölun finna sálum ydar; því hægt er mitt ok og létt er mín byrdi.

Arhúsum,
þann 25ta Octóbr. 1796.

Ove Hoegh Guldberg.

Ugéf-



# Utgéfarans Eptirmáli.

Eg hefi ecki rétt til ad gánga fram hjá nockurri bók hins nyja Testamentis, sem er vorrar kristilegu kirkju adgreindur helgidómur, og eptir minni egin sannfæringu, hefi eg ecki heldur nockra orsök til þess; þar fyrir innfærist hér og Opinberan Jóhannesar; en hálfpartur hennar er ætladur sjötta sunnudegi eptir Þrettánda, en hinum partinum er stadur fenginn tuttugasta og sjounda sunnudag eptir Trinitatis, vegna þess bádir þessir sunnudagar sjaldan adkoma, svo ecki verdi med sanni sagt, ad kristilegri andakt sé opt tálmad, med myrkum hugleidíngum.

Þegar fleiri enn einn Gudspjalla madur segja med sama hætti frá sama tilburdi, er venjulegast ecki tilfærd nema eins Gudspjallamanns frásögn, en nedanundir vísad til hinna. Þar, sem vikid er frá þessari reglu, er þad gjört annadhvört sökum einstakra kríngumstædna, sem einhvörr Gudspjallamadurinn vidbætt hafdi, hvörjar hjá hinum ei var ad finna, edur og til ad leida Lesarann til ad samanbera frásagnir þeirra. Þó koma þær ecki beint hvör á fætur annari, heldur eru ad lesa á frábrugdnum tíma og stad.

Hvörjum sunnu- og helgi-degi heyrir útaf fyrir sig adal-hugleidíng, sem skipt er í þrjá höfud-lærdóma, til þriggja ára-hríngs; og aptur innibindur sérhvörr höfud-lærdómur viss höfud-atridi, hvörra fyrisögn auglýsir hina merkilegustu hugleidíngu, sem draga má af tilsettri ritníngar-klausu. Eptir skyldu hefi eg mestu stund á lagt ad útþrycka textans meiníngu

svo skilmerkilega, sem vor danska túnga leyfir og komid þeim skíringar-greinum, sem til upplýsíngar heyra, þannveg fyrir, ad þær lesa mætti í sambandi vid textañ, svo meiníngin liggur strax í augum uppi, en þó án þess, ad texti og skíringar-greinir blandist þar fyrir saman. Þad, sem hér er prentad med stóra stýlnum, er sjálfur textinn, hitt, sem innsirklad er, og prentad med smærra stýl, heyrir til skíringargreina. Þar, sem skilmerkilegri upplýsíngar vidþurfti hér og þar, er hún sett fyrir nedan, og prentud med smærsta stýl, sem þó er vel læsilegur.

Þessi fyrsti partur iñiheldur sérílagi frásogn um Jesú hegdun í kéñingu og lifnadi. Añar á ad hondla um hans hegdun í písl, dauda, upprisu og himnaför hans. Í þridja partinum er ad lesa Jesú stjórn síñar kirkju, og í hinum 4da er hagsæld gudhræddra fyrir hans verdskuldun sérdeiles hofd fyrir augum. Þañiñ fá meñ allt nýja Testamentid, og í sambandi vid þad, hvad oss hentugast vera kyñi úr gamla Testamentinu, samansafnad, nidurradad og skipt eptir efninu, árid um kring. Til verks míns notadi eg mér einkum Geheimeráð Guldbergs, *Dr.* Bastholms og Revistóns-Commissiónarinnar donsku útleggíngar; líka svo sérlega Riddarans Michaelis og Hofráds Hezels útskíringar, án þess ad binda mig þar fyrir einúngis vid þá. Oll blessan kémur frá Gudi fyrir Jesúm Krist; og honum einum ber lof og dýrd, bædi ná og ætíd, Amen.

Skrifad á Carise Prests-setri í Faxeyjar Hjeradi á Visitatsíu-ferd, þann 8da Júní 1797.

Nicolai Edinger Balle.

# I^ta Sunnudag i Adventu.

## Adal-hugleiding.

Manneskjan, sem í öndverdu var saklaus sköpud, er fyrir egin yfirsjón ordin undirokud ofurebli líkamlegra girnda, og hefir steypt sjálfri sér í margskonar afbrot, sem raska badi sálar og líkama heillum.

## Fyrsti Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Manneskjan misti medskapad sakleysi, vegna þess hún lét tæla sig, til ad leita ædstu gæda í skilníngar-vitanna lystíngum, í stad þess hún brúka átti skynsemina til ígrundunar.

1.) Gud skapadi vora fyrstu foreldra, ad þeir skyldu líkjast honum sjálfum, þar ed þeir

vóru skynjandi verur, lyta- og ávirdínga-laus, og gjordi þeirra kjor nærsta farsælleg.

1. Mós. b. 2 Kap. v. 4 - 25.

4. Þanninn eru þá himin og jørd (eptir því sem ádur er útmálad) med skøpunninni til ordin, því Drottinn Gud skóp
5. í øndverdu himin og jørd. Þó var enn þá enginn runnur á mørkinni, né nockur jurt varin, því Drottinn Gud
hafdi eñ þá ecki látid rigna á jørdina,
og engin manneskja var til ad yrkja
6. þurrlendid. Þá lét hann þycka þoku stíga upp af jørdunni, og vokvadi svo
7. allt ofanverdt þurrlendid. Þar eptir tilbjó Drottinn Gud manneskjuna, af dupti jardar, og gaf henni lífsanda ad draga um vitin, og þá vard
8. manneskjan lifandi vera. En Drottinn Gud plantadi líka aldingard, í því landsplátsi, sem kalladist Eden, og liggur mót austri; í þennann stad setti hann manninn, sem hann skapad
9. hafdi. Drottinn Gud hafdi og látid vaxa upp af jørdunni allskonar tré, sem bædi vóru lystileg sjónum og góð til nautnar, lífsins tré midt í gardinum og skilnings-tréd á gódu og
illu.

sílu. *) Og úr landsplátsinu Eden 10.
rann fljót, til ad vøkva aldingardinn,
sem þar eptir skiptist í fjórar qvíslir.
Af hvørjum sú fyrsta nefnist Píson, 11.
sú sem rennur um Chavíla-land,
hvar gull er ad finna. Og gullid í því 12.
landi er kostulegt; þar finast og Perl-
ur og Onyx-steinar. Onnur qvísl 13.
vatnsfallsins er Gihon kolllud; hún
renur um allt lands-plátsid Chusch.
Hin þridja qvísl fljótsins heitir Hi- 14.
dekel, sem rennur austan fyrir As-
syria, og fjórda qvíslin er Evphrat.
Drottinn Gud tók þess vegna mann- 15.
eskjuna og setti hana í Edens-gard,



*) Lífsins-trje var svo kallad þeirra orsaka vegna, ad þess ávøxtur eda lauf-blød, høfdu læknis-krapt og gátu þjenad til heilsunnar vidurhalds. Skilníngs-trjed dró nafn sitt þár af, ad manneskjan, med því, ad ígrunda Guds forbod, ad neyta af þess áverti, skyldi uppvekjast til lifandi ad íminda sjer hvørsu allt, sem Guds vilja væri gagnstædt, hlyti ad vera íllt og skad-legt, og þvertámóti, ad eckert nema þad, sem hans vilja væri samqvæmt, gæti í nockru verid gott eda nytsamlegt; af þessu feck Adam leid-arvísir ad neyta skynsemi sinnar og stjórna frí-viljanum.

16. til ad yrkja og vakta hann. En
Drottinn Gud baud líka manneskjunni og sagdi: vel máttú neyta af
17. øllum trjám í gardinum. Nema
einúngis af Skilníngs-trénu á gódu
og íllu máttú ecki eta, því ef þú etur
18. af því, skalt þú vissulega deyja. Þar
eptir sagdi Drottinn Gud: þad fer
ei vel ad Adam sé einsamall, eg vil
veita honum medhjálp, sem hjá hon-
19. um géti verid. En Drottinn Gud
hafdi tilbúid øll dýr merkurinnar, og
alla fugla loptsins af jørdu, og lét
þau koma fyrir Adam, til ad vita
hvad hann vildi þau nefna (svo hann
med þessum hætti gjæti uppvakist til í-
hugunarsemi, og hans þecking mætti aukast)
og þad nafn, sem Adam gaf sér-
hvørri lifandi sképnu, vard nafn þess.
20. En þegar Adam nefndi øll tamin
dýr, fugla himins og villudýrin, fann
hann þó enga medhjálp medal þeirra,
sem hentug væri sjálfum honum.
21. Þá lét Drottinn Gud Adam falla í
fastann svefn, og medan hann svaf, tók
Gud eitt af hans rifjum út og fyllti
22. þad bil aptur med holdi. Sídan
skóp Gud qvennmann af rifinu, sem
hann

hann nam frá Adam, og leiddi hana
þar eptir fram fyrir hann. Þá 23.
mælti Adam: þetta sinn er það hold
af mínu holdi og bein af mínum bein-
um, þess vegna (segir Móses) nefnist
hún karlinna, því hún er tekin af karl-
manni; Yfirgéfi því madurinn føð- 24.
ur sinn og módur sína, en sé stadfast-
ur hjá konu sinni, og þau bædi séu svo
sem eitt. En nakin vóru þau bædi 25.
Adam og kona hans, og fundu þó ei
til neinnar blygdunar þess vegna.

2.) Vorir fyrstu foreldrar brúkudu ecki skyn-semina svo sem bar, heldur létu táldræga áminndun um ædri luckn leida sig afvega, til ad brjóta Guds bodord, og urdu þanninn dauda sek.

I Mós. b. 3 Kap. v. 1-24.

En høggormurinn var slægari enn 1.
øll ønnur dýr á mørkinni, sem Drott-
inn Gud skapad hafdi, hann sagdi vid
qvinnuna: er þad svo, ad Gud hafi
bannad ydur ad neyta af øllum trjám
í gardinum? Qvinnan sagdi vid 2.
høggorminn: vid neytum af áverti
trjánna í gardinum; En í tilliti til 3.
ávartar þessa trés, sem er hér í mid-
jum gardinum, sagdi Gud: neytid ei

þar áf og snertid ei þará, svo ad þid
4. deyjid ecki! Þá sagdi høggormurinn
5. vid qvinnuna: Vissulega munud þid
ecki deyja, en Gudi er kunnugt, ad
ydar augu munu uppljúkast, þegar
þid neytid þar af, og þid munud fá
sømu þeckingu og Gud, um illt og gott
6. (verda jafnvís Gudi.) Þá sá qvinnan
ad tréd var gott til nautnar, gédfellt
sýnum og æskilegt tré til ad ødlast
skilníng af, og hún tók af þess ávexti
og át og gaf líka manni sínum, sem
7. stód hjá henni, og hann át. En þá
upplukust beggja augu, og tóku þau
nú eptir ad þau nakin vóru, og flétt-
udu saman fíkju-blød og gjørdu sér áf
8. þeim nær-kyrtla. Eptir þad, þá gusta
tók um qvøldid, fengu þau ad heyra
rødd Drottins í gardinum, þá leit-
adi Adam og kona hans sér fylsnis í
gardinum milli trjáña, fyrir Drottni
9. Gudi þeirra. En Drottinn Gud
kalladi á Adam, og sagdi vid hann:
10. hvar ert þú? Hann ansadi: eg heyrdi
þína rødd í gardinum, en vard hrædd-
ur, vegna þess eg er nakinn og því
10. faldi eg mig. Hann sagdi þá: hvør
hefir birt þér ad þú nakinn værir,
máské

máské þúhafir neytt af tréinu af hvörju
eg bannadi þér ad eta? Adam svar- 12.
adi: konan, sem þú gafst mér til sam-
búdar, gaf mér af þessu tré og eg át.
Þá sagdi Drottinn Gud til qvinn- 13.
unnar: því gjördir þú þad? högg-
ormurinn tældi mig til ad eta þar
af. Þá sagdi Drottinn Gud vid 14.
höggorminn: fyrst þú gjördir þetta,
skalt þú bölvun (hatri og andstygd) und-
irorpinn vera, framar enn öll önnur
tamin- og villu-dýr! þú skalt skrída
á qvidi þínum, og eta dupt alla æfi,
(í þeim heitu löndum skrídur höggormurinn
um sendin pláts, svo hann ásamt fædu sinni
hlýtur ad sleikja mikinn sand í sig.) Hat- 15.
ur vil eg stipta milli þín og qvinnunn-
ar og milli þíns og hennar afqvæmis;
þetta skal sundurmerja höfud þitt.
En þú skalt ad eins særa þad á hæln- 16.
um *) (þar sem eitur-bitid veldur minnst-

 um

*) Bædi eptir þeirri upplýsíngu, sem Jesús hefir oss gjefid, Jóh. 8, 44, og leidarvísir Jóhannis, 1 Jóh. 3, 8. má ráda, ad djöfullinn máske hafi birtst Evu í höggorms líki, á trjenu, og ad hann hafi talid henni trú um, ad eta af þeim forbodna ávexti; því fyrir hans tilstilli, er syndin, sem gjördi manneskjuna daudlega, innleidd í heim-

um skada.) Sídan sagdi hann vid
qvinnuna; mjøg svo vil eg auka
mædu þína, þegar þú þúngud verdur;
med sárri tilfinníngu skalt þú fæda
þín børn, þó skalt þú samt gèfin vera
fyrir mann þinn, og hann skal vera
17. þinn yfirbodari. En vid manninn
sagdi hann: vegna þess þú gafst
gaum ad ordum konu þinnar, og átst
af trénu, um hvørt eg gaf þér bodord,
og sagdi: ad þú ei skyldir af því eta,
þá veri nú jørdin þér bølvud (gjørd
mædusom), med þúngri mædu skaltú
abla þér af henni uppeldis alla þína
18. æfi! Þyrna og þistla skal hún þér
bera, og þitt fædi séu ávextir af mørk-
19. inni. Í sveita þíns andlitis skaltú
neyta þíns brauds, þángad til þú
hverfur til jardarinnar aptur, af
hvørri þú tekinn ert, því þared þú ert
dupt,

heiminn. En einúngis af því, hann birtist í høggorms líki, taladi Gud vid hann svo sem høggorm; þad straff, sem á hann var lagt, afmálar hans smánarlega ástand, ad hann verda skyldi øllum andstyggilegur, og enganveginn halda þeirri makt yfir mannkyninu, sem hann tók sjer, heldur skyldi verda ad lúta einum sér máttugri af kyni þeirrar gobbudu qvinnu.

dupt, skaltú aptur ad dupti verda. En 20.
Adam nefndi konu sína **Evu**, vegna
þess hún skyldi vera módir allra lif-
andi manna. Þá lét Drottinn Gud 21.
Adam og konu hans **Evu** fá skinn-
kyrtla (med því hann leysdi þeim ad slátra
dýrum til fædis og máske lika til offurs)
til klædnadar. En Drottinn Gud 22.
sagdi enn framar, sjá! hvørsu mann-
eskjan er svo sem einn af oss í tilliti til
þekkíngar góds og ills (aumkunarverda
manneskja, sem lét gabba sig, med svikfam-
legu lofordi!) en svo hún ei útrétti sína
hønd, og hér á ofan tæki af lífsins
tré til ad lifa eilíflega, rak Drottinn 23.
Gud hana útúr **Edens** gardi, til ad
yrkja jørdina, af hvørri hún var tekin.
Og er hann þanninn hafdi útrekid 24.
manneskjuna, setti hann **Kérúbím**
med glampanda sverdid vid austan-
verdann **Edens** gard til ad vard-
veita veginn ad lífsins tré.*)



*) Adam og Eva fældust frá af eldíngu, sem hjer útmálast eins og hún skyni í skýjunum, svo þeirra syndúga líf á jørdunni, skyldi ei lengjast med lífs-trjesins ávexti.

## Annar Argángur.

### Hofud-lærdómur.

Vegna þess lyst og laungun til hins góda var deyfd, med því ad géfa líkamlegum girndum ofmikinn taum, hafa vondar tilhneigíngar fengid yfir-hønd, svo manneskjan leyfir sér opt þad, sem er syndsamlegt og skadvænt, þó hún viti betur.

1.) Vér megum kénna sjálfum oss um vora syndsamlegu vanart, án þess Gud sé nockur orsok þar til.

Jac. Pist. 1 Kap. v. 9-21.

9. Sá kristilegi medbródir, sem vid bágann kost á ad búa, má þó gledjast af upphefd sinni (þeim mikla verdugleika, sem hans kristinndómur veitir honum.)
10. Og sá ríki má þarámóti gledjast vid audvirdilegleika sinn (ad hans verdugleiki ecki er innifalinn í hvortis ástakomulagi) því hann forgengur þó álíkt og
11. blómstur grassins! Sólin rennur upp, skrælandi austan vindur kémur, grasid visnar, blómstrid fellur af, og þess fagra útlit er horfid; svo følnar og hinn ríki vid margskonar sýslanir sínar.

sínar. Sæll er sá madur, sem vel 12.
fær stadist freistínguna! því þegar
hann full-reyndur er, skal hann ødl-
ast þá lífsins kórónu, sem Drottinn
hefir heitid elskendunum sínum. Segi 13.
enginn þá hann freistast: Gud er sá
mín freistar! því svo sem Gud ecki
freistast af hinu vonda, svo freistar
hann ecki heldur nockurs þar til. En 14.
sérhvörr freistast þegar hans egin
girndir leida hann og locka; Sídan 15.
þegar girndin hefir nád þroska, veld-
ur hún afbrotum, en fullframin af-
brot, leida daudann eptir sig (sem
innibindur alla ólucku). Villist þess 16.
vegna ecki, kjærir brædur! Hér of- 17.
anad kémur einúngis gód gjøf, og
einúngis þvílíkur skenkur, sem leid-
ir til vorrar fullkomnúnar, nefni-
lega: frá honum, sem er ljósanna
Fadir, (sá allra fullkomnasti) hjá hvör-
jum ecki eru nockur umskipti, og jafn-
vel ecki skuggi af umbreytíngu. Ept- 18.
ir sinni frjálsu áqvørdun, hefir hann
med sannleikans kénníngu, gjørt oss
ad nýjum og ødrum manneskjum, svo
vér verda skyldum, sem nockurskonar
frumgródi af þeim, sem hann þann-

19. inn vildi endurskapa. Verid þá
einnig, mínir kjæru brædur! (svo
sem segir í ordshættinum) hvørr madur
strax fús til ad heyra, en seinn til ad
20. tala, og tregur til reidi. Því reidi
mannsins fremur ei þad, sem rétt er
fyrir Gudi, (menn ega ecki ad hlaupa á
sig í dómum um freistingar, sem mønnum
21. mæta). En leggid og af allann
saurugleika, og allar vondskunnar
eptirstødvar, og medtakid med hóg-
værd (lastmælgislaust), þann lærdóm,
sem medal ydar er útbreiddur, hvørr
ed megnar ad farsæla sálir ydar.

2.) Vér hljótum allir, med því vér erum synd-
arar, ad vera undirorpnir Guds réttvísu
hegningu.

Páls Sendi-brjef til Rómverja 3 kap. v. 1-20.

1. Í hvørju er þá Gydínguriinn fremri?
(enn Heidínginn, fyrst hann ecki er fri-
kénndur fyrir straffi, þá hann brýtur?)
eda til hvørs gagnar umskurnin? í øll-
2. um máta til nærsta mikils! Þó eink-
um í því tilliti, ad þeir eru fullviss-
3. adir um Guds fyrirheiti. Því hvad
um þad? þó nockrir hafi ótrúir ver-
id, hvørt munu þeirra óhaldinyrdi
4. gjøra Guds trúfesti ad engu? Lángt
er

er frá því! Gud hlýtur trúfastur ad
vera, þó allir menn tilsamans ótrú-
ir væru; svo sem skrifad er: svo ad þú
(Drottinn) sannordur finnast megir,
og réttvís, þegar dæmt er um þínar
adgjørdir, (Ps. 51, 6.) En þegar vor 5.
ótrú gefur tilefni til ad Guds trú-
festi vegsamist því meir: hvad má
þar af ráda? munn nockud hér af fljóta,
ad Gud sé ránglátur, þegar hann læt-
ur straff yfir oss koma? Eg tala nú 6.
ad plagsid margra hvørra; en lángt
er frá því! því hvørsu mætti Gud
þá nockurntíma verøldina straffa?
Og eg má vel spyrja: fyrst Guds 7.
sannsøgli sjest ljóslegar, honum til
dírdar, fyrir lýgigirni mína; hvørsu
má eg þá framar ásakast sem sekur
syndari? og mundum vér þá ecki...
svo sem nockrir skulda oss fyrir... og
eins og nockrir segja: ad vér kénn-
um... réttilega mega gjøra þad 8.
vonda, svo ad nockud gott megi af
því leida? en yfir þeim, sem svo kénna
vofir þó verdskuldud fordæming! Sé 9.
nú svo! munum vér (Gydíngar) þá
vera í nockru fremri? (svo vér vinn-
um sídur til heginngar enn Heidíngjarnir)

Eld-

øldúngis ecki! vér høfum ádur fyrr
sannad, ad bædi Gydíngar og Grískir
séu yfir høfud straffs sekir syndarar!
10. svo stendur og skrifad: Enginn mad-
ur er til, sem réttlátur er, ecki einn
11. einasti. Enginn forsjáll, enginn sá
12. ad Gudi leitar. Allir hafa þeir af-
vega gengid, allir yfir høfud eru þeir
ódugleger ordnir, einginn er sá gott
gjøri og ecki einn einasti; (Ps. 14, 2. 3.)
13. Þeirra barki er sem opnud grøf:
þeir smjadra svikſamlega med túngu
sinni, nødru eitur rennur um þeirra
14. varir (Ps. 5, 10. 140, 4.) Munnur
þeirra er fullur formælínga og sár-
15. yrda (Ps 10, 7.) Fljótfættir eru þeir
16. til ad géta útheilt blódi. Af þeirra
vøldum verdur vart vid kúgun og
17. volædi á vegum þeirra. Og frid-
arins veg hafa þeir ei þeckjast viljad,
18. (Es. 59, 7. 8) Guds ótta hafa þeir
19. ecki fyrir augum, (Ps. 10, 7.) En
vér vitum þo ad hvad løgmálid seg-
ir, þad segir þad þeim, hvørjum þad
er géfid; svo hvørr munnur má þess
vegna apturlykjast, og øll verøldin
(ecki einúngis Heidíngjarnir heldur einnin
Gydíngarnir) hlýtur sakfallin ad verda
fyr-

fyrir Gudi. Þess vegna gétur ecki 20.
heldur nockur manneskja réttvís verid
fyrir hans augliti, af þeim athøfn-
um, sem þetta løgmál fyrirleggur;
því þvert á mót komast menn til synd-
anna vidurkénningar, vegna løgmálsins.

3.) Hjá øllum mønnum hreifir sér sterk laungun til syndarinnar, sem ósjaldan knýr þá til ad sækjast eptir óleyfilegri og skadlegri gledi, þvert á móti Guds bodi.

Páls Sendibrjef til Rómverja, 7 Kap. v. 7-25.

Hvad þá? munu menn spyrja: er 7.
þá løgmálid orsøk til syndarinnar?
(fyrst laungun til syndarinnar uppvacist
vegna løgmálsins) lángt er frá því! en
væri eckért løgmál, vissi eg ecki hvad
synd væri. Því eg hefdi ecki vitad ad
óregluleg girnd synd væri, segdi løg-
málid ecki: þú skalt ecki girnast. En 8.
vid þetta bodord, gafst laungunni
til syndarinnar tækifæri, og hún vakti
hjá mér allskonar girndir, en medan
løgmálid var ecki, lá lyst til syndar-
innar í dái; Og eg lifdi nockra stund 9.
án løgmáls, (og freistadist því minna)
en þegar bodordid kom (svo eg tók ept-
ir því) þá vaknadi synda lystin (því
hjartad sækist eptir því, sem bannad er vegna

van-

10. vanartar sinnar.) Nú hné eg í daudañ
(undir nogun samvitskuñar) og nú reynd-
ist það, að boðorðið, sem mér var
géfið til lífsins (til heilla) var orðið
11. mér að dauða (spillíngu). Því laung-
un til syndarinnar fékk hentugleika
af boðorðinu, til að tæla mig, og
varpaði mér með því sama í dauð-
12. ans skélfíngu. Løgmálið er þó vissu-
lega sjálft heilagt, og boðorðið er hei-
13. lagt, rétt og gott. En varð þá þetta
góða mér að dauða? enganneginn!
það var laungun til syndarinnar; og
hún hlaut með þessum hætti þekkt
syndsamleg að vera (hvorju Pharisæ-
arnir neituðu) með því hún eiñiñ orsak-
aði mér dauðann með sjálfu því góða,
svo að laungun til syndarinnar leidd-
ist í ljós með boðorðinu ásamt allri
hennar yfirtaks miklu viðurstygð.
14. Mønnum er því full-kunnugt, að
løgmálið er andlegt (og útkrefur iñvortis
hreinskilni í sálunni) en eg er þar á móti
holdlegur, og svo sem þræll, seldur
15. lyst til syndarinnar; Því eg gaum-
gjæfi ecki hvað eg tek mér fyrir hend-
ur, og það, sem eg þó annars vil,
gjøri eg ecki, en það, sem eg þó ann-
ars

ars hef vidbjód á, gjøri eg engu ad
sídur. ... En þegar eg adhefst þad, 16.
sem eg í raun rèttri ecki vil, svo vid-
urkénni eg þar med ad lögmálid sé
gott. Og nú er þad ecki framar 17.
sjálfur eg (álitinn svo sem viti borinn
madur), sem gjøri þvílíkt, heldur sú
laungun til syndarinnar, sem í mér
býr. Því þad veit eg vel ad í mér, 18.
þad er ad skilja, ad því leiti, sem eg er
holdlegur madur, býr eckért gott.
Ad sönnu hefi eg vilja til hins góda,
en eg finn mig ófæran til ad géta fram-
qvæmt þad; Því eg gjøri þó ecki þad 19.
góda, sem eg feginn vildi; en þad
vonda, sem eg ecki vildi, þad gjøri eg.
En ef eg gjøri þad, sem eg annars 20.
ecki vil, gjøri eg þad ecki framar eg-
inlega sjálfur, heldur miklu framar
synda-lystin, sem í mér býr. Þess 21.
vegna finn eg, ad mér er þad svo sem
lögmál, ad þegar eg fúslega vildi gjøra
þad góda, skuli þó hid vonda loda vid
mig. Ad sönnu finn eg lyst og laung- 22.
un í mínum innra manni (skynseminni
og samvitskunni) til ad laga mig eptir
Guds lögmáli; en eg verd var vid 23.
annad lögmál í mínum limum, sem

er gagnstædt løgmáli míns hugskots, og gjørir mig ad fánga undir løgmáli syndarinnar, sem er í mínum limum,
24. (þad er: þær líkamlegu girndir.) Æ! mig vesæla manneskju! hvørr mun fría mig frá þessari veru, sem þjáir mig daudlega? en þó þacka eg Gudi! þetta gjørist fyrir Jesúm Krist, vorn
25. Drottinn! En á medan er eg einn og hinn sami, ad því leiti, sem mínu hugar-fari vidvíkur, Guds løgmáli undirgéfinn; en þar á mót, í tilliti til líkamlegra tilhneigínga undirorpinn løgmáli syndarinnar (og á þess vegna í stridi vid sjálfann mig).

## Þridji Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Manneskjan svíptir sjálfa sig allri huggun og gledi med ásetníngs syndum, en verdur í þess stad sárri og ángistarfullri áşøkun egin samvitsku ad brád.

1.) Þad er ecki gott, ad ofþyngja sér med nockurri synd af ásettu rádi, því þegar samvitskan vaknar, finnur hún til þess sárari nogunar og ásokunar.

Psálm.

Psálm. Dav. 38, 1-23.

Psálmur Davíðs, gjørdur til ad 1.
brúkast þá synda-offri var fórnfært:
Drottinn! straffa mig ecki í grimd 2.
þinni! og typta mig ecki í þinni 3.
bræði! djúpt smjúga þín skeyti gégn- 4.
um mig; þúng-hendtur ert þú á mér;
vegna hegníngar þinnar er minn lík-
ami heilsulaus, og engin fró í mín-
um limum vegna minna synda.
Mín misverk taka mér uppyfir høf- 5.
ud; þúngt liggja þau á mér, svo sem
mikil byrdi. Med fásinnu minni hef 6.
eg orsakad mér sár, af hvørjum ódaun
og fýlu leggur. Boginn geng eg og 7.
mjøg nidurlútur, og daginn út ráfa
eg í sorgar-búníngi. Mín innibli 8.
stikna og óhraustur er allur minn lík-
ami, biladur er eg og harla sundur-
kraminn. Andvarpanir míns hjarta 9.
veina hástøfum af ángist (svo sárlega
kémst sálin vid, af nagandi ángist vegna þess
illa, sem drýgt var, eins og þá líkaminn þjá-
ist af líkþrá, eda ødrum sárum sjúkdómi.)
Drottinn! øll mín eptirlángan er 10.
þér kunnug, og þér er ecki hulid um
hvad eg andvarpa; Hardt berst 11.
hjarta mitt, kraptarnir þverra, líka

dymmir mér svo fyrir augum ad eg
12. sæ ei framar ratad, vinir mínir og
félagar rada sér gégnt mér, einúngis
til ad horfa á eymd mína, og ættíng-
13. jar mínir standafjærri; en þeir, sem
sækja eptir lífi mínu, leggja fyrir
mig snørur, þeir, sem leita eptir
mínu tjóni, tala um eydileggíngu, og
sérhvørn dag, brugga þeir launsvik
gégn mér, (vond samvitska qvelur sjálfa
sig med qvída og hrædslu fyrir hefnd og
14. spotti annara manna.) En eg heyri eckt
heldur enn daufíngi og ecki lýk eg
upp mínum munni heldur enn mál-
15. laus. Sannlega er eg eins og sá, er
eckért heyrir, og sá, sem engu ordi gét-
16. ur fyrir sig komid. En mín von
grundvallast á þér, Drottinn! þú
hlýtur ad gégna, Drottinn, minn
Gud! einúngis bid eg: lát þá ecki fá
17. gladst yfir mér; ef ad mér skrikadi fót-
ur, mundu þeir dramblátlega hefja
18. sig upp ígégn mér. Þad sýnist eins
og eintóm ógjæfa egi fyrir mér ad
liggja, og daglega er eymd mín,
19. mér fyrir sjónum. En eg vidurkénni
mína sekt, og er sorgbitinn útaf synd-
20. um mínum. A medan lifa þó óvin-
ir

ir mínir og eru mektugir: þeir eru
margir, sem orsakalaust hata mig.
Þeir launa mér illu fyrir gott, þeir 21.
veita mér fjandskap fyrir þad eg
leitadi þeirra besta. Drottinn, minn
Gud! yfirgéf þú mig ecki! vertú mér 22.
ecki fjarlægur! flýt þér ad hjálpa mér!
Þú Drottinn, minn Frelsari! 23.

2.) Hvorr, sem veit sjálfann sig sekann í illgirnis-syndum, hefir mikla orsok til ad audmýkja sig fyrir Gudi med ydrunarfullri bæn, og ætti ad flýta sínu apturhvarfi, svo hann odlast megi rósemd og ánægju.

Psálm. 51, v. 1-21.

Psálmur Davíds, sem opinberlega 1.
átti ad sýngjast, eptir þad Spámadurinn
Nathan kom til hans, þegar
hann hafdi brotid med Bathseba. 2.
Gud! sértú mér nádugur eptir miskun 3.
þinni, æ! láttú mitt afbrot vera
afmád vegna þinnar miklu hjarta
gjædsku! Þvo mig og hreinsa af 4.
mínum misverkum, hreinsa þú mig
af minni synd! Eg vidurkénni mín 5.
afbrot og mín synd er mér ætíd fyrir
sjónum. Fyrir þér, fyrir þér einum 6.
hef eg syndgad, og fyrir þínum augum
hef eg gjørt hid illa: vissulega

gjørir þú rétt, er þú ógnár mér, og
síkn-saka ertú þegar þú dæmir mig.
7. En sjádu mig fæddann med vánart
og ad sídan eg kom af módurlísi, lodir
8. vid mig laungun til synda, æ! þú
elskar þó hjartans einlægni; virdstú
ad kénna mér ad breyta víslega, eins
9. þó ad enginn til-sjái! stöck þú á mig
Isópi til minnar synda hreinsunar
svo eg megi hreinn verda: (med Isóps-
ánga, hvorjum dÿst var s.vatn, ysirdogg-
vudust þeir, sem læknadir urdu af lik-þrá,
til merkis ad þeir þá væru hreinir ordnir.)
Þvo mig, ad eg verdi hvítari en snjór-
10. inn! Lát mig fá ad heyra gledi- og
fagnadar-ríkann bodskap; o! ad þeir
limir, sem þú hefir sundurmarid
11. mættu endurnæraft! Snú þínu aug-
liti frá mínum syndum, og virdstú ad
12. afmá allar mínar misgjørdir! Skapa
í mig, o Gud! hreint hjarta, og veit
mínum innsta hjartans grunni rád-
13. sett sinnislag á ný! Utskúfa mér ecki
frá þínu augliti, og tak ecki þinn hei-
14. laga Anda frá mér! Lát mig á ný
mega gledjast yfir því, ad þú frelsadir
mig; og reidubúid hjarta styrki mig!
15. Þá skal eg kénna þeim brotlegu þín
bod-

boðorð, svo að þeir, sem syndgað
hafa, megi snúast til þín. O Guð! 16.
míns frelsis Guð! fría þú mig frá
blóðs-skuld, svo mín túnga megi
undirtaka lofgjörð um þína miskun-
semi! Drottinn! uppljúk mínum 17.
vörum, svo minn munnur víðfrægi
þína dírð! Ekki hefir þú geð-þóckn- 18.
un á offri: annars skyldi eg fram-
bera það; brennu-offur þócknast
þér ecki. Gudi þægilegt offur 19.
er harmþrúnginn andi, sundur-
kramið og ángrádt hjarta: o Guð!
það fyrirlítur þú ecki. Gjør Zion 20.
gott eptir þinni velþócknun; bygg
upp múrana umhverfis Jerúsalem:
(virdstú að láta þína dýrkun varðveitast ó-
brjálaða!) þá munt þú náðarsamlega 21.
medtaka þau réttu offurin, brennu-
offur heil. Þá munu menn offra
þér uxum á þínu altari! (gudrækni synd-
arans, sem betrar sig, skal þægileg verða
í augliti Drottins.)



# 2ann Sunnudag i Adventu.

## Adal-hugleiding.

Yfir-rád holdlegra girnda leiddi þad eptir sig, ad mennirnir féllu smámsaman í heimskulega hjátrú, hvar af þeir ásamt urdu óvingjarnlegir, hardúdugir og lastafullir; en ljós Evangelii hefir komid því til vegar, ad hjá trúarinnar dymmu þoku er upplétt og henni útrýmt frá flest-øllum jardarinnar innbyggendum.

## Fyrsti Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Hjá trúarinnar yfir-rád undirþryckja sanna skynsemi, svo menn fallast fúslega á hvør afmánarleg ólíkindi, sem upphugsud verda, og þar á móti missa alla tilfinníngu af sannarlegri dygd,

en

en falla blygdunarlaust í smánarleg-
ustu glæpi.

1.) Hvorsu djúpt manuleg skynsemi nidur-
lægjast kunni, þegar hjártrúin hefir yfirhönd
náð, þar um ber afgudadýrkan Heidingjanna
ljósast vitni, sem full var vidurstyggilegustu
ólîkinda.

Es. Spám. 44 Kap. v. 6-20.

Svo sagdi Jehóvah, Israels 6.
Köngur og verndari, herskaranna
Drottinn: eg er hinn fyrsti, og eg er
hinn sídasti, og enginn er Gud, ann-
ar enn eg. Hvorr skapadi, auglýsti 7.
og tilsetti mig, svo sem eg gjørdi vid
allt, sem í øndverdu skédi, eptir þad
eg gaf fólkinu bólfestu. Látid hina
(sjálfsmídudu Gudi) kunngjøra oss þad
eptirkomandi, og hvad hédanaf skuli
framar-meir vidbera! Óttist ad eins 8.
ecki, og látid ei hugfallast: hef eg
ei ádur fyrri látid þig heyra hid
sanna? hef eg ei undirvísad ydur?
sjálfir erud þér mínir vottar! mundi
þá nockurr vera Gud annar enn eg?
annars er enginn verndari til: eng-
inn sem eg veit af. --- Fíbl eru þeir 9.
allir, sem minda sér afguda-líkneskj-
ur: þeirra dýrmætustu verk, eru ad

engu nýt, og þau bera sjálf vitni
hér um: þau eru sjónlaus og þau
vita eckért, því mættu menn mak-
10. lega skammast sín; Því hvørr tilbýr
God, eda steypir líkneskju, til þess
11. ad þau skuli til einkis gagna? Sjáid!
allir þeirra dýrkendur verda til skam-
ar. Þeir eru þó menn, sem bjuggu
þau til! þó þeir safnist allir saman,
og standi þar, og skjálfandi tilbidji;
skulu þeir þó allir sameginlega verda
12. til skammar. Smidurinn tekur um
járnid med taung, smídar þad vid
kol-eld og lagar þad med hamri
(ad Goda-líkneskju), hann vinnur ad
þessu med handleggs-abli sínu: þolir
héradauki húngur, svo hann ørmagn-
ist; ecki (gefur hann sér tíma til) ad svala
sér med vatnsdryck, heldur vanmegn-
13. ast af þorsta. Timburmadurinn
ber þareptir mælisnúruna á tréd,
dregur svo upp á þad málverk sitt,
med raudri krít, høggur þad til med
øxinni, lagar þad til med sirklinum,
mindar svo í manns líki, eptir mann-
eskjunnar fagra vaxtarlagi, ad þad
14. nú egi sér musteri í húsunum. Ce-
drus-tré høggur hann sér; tekur furu
eda

eda eik: hann velur sér þad sterk-
asta af skógar-trjánum, sjálfur plant-
adi hann Selju-tré og døggin jók því
vøxt. Þad notar manninum til eldi- 15.
vidar, menn búta af því til ad hita
med, eda meñ qveikja í því til ad baka
brand vid. Engu ad sídur smídar hañ
sér úr því God, og tilbidur; hañ gjør-
ir sér úr því líkneskju, og fellur á kné
fyrir henni. Helftina brúkar hann 16.
til eldividar, vid helftina sýdur hann
kjøt til matar, eda steikir sér steik, og
sedst af henni; svo ornar hann sér og
segir: ha! nú er mér ordid fun-heitt!
eld gaf mér á ad líta! en úr því, sem 17.
afgengur mindar hann God, afguds-
líkneskju handa sér: hann fellur á
kné fyrir því, lýtur nidur og tilbidur
þad, og segir: virdstú ad frelsa mig;
því þú ert minn Gud! Eckért vita 18.
þeir, og eckért skynja þeir; þeirra
augu eru samanlímd, svo þeir géta ek-
sjed, og þeirra hjørtu apturlukt, svo
þau géta ei þeckingu ødlast. Enginn 19.
íhugar, og enginn hefir svo mikla vits-
muni, og enginn þad skynbragd ad
hann íhugi: eg hefi þó eydt helftinni
til eldsneytis; og vid kolin hef eg bak-
ad

ad braud og steikt kjøt, og etid mig
saddann, skyldi eg þá smída svívird-
. íngu úr afgánginum? skyldi eg falla
20. á kné fyrir tré-drumbi einum? Vid
øskuna skémtir hann sér: hans hjarta
er frá sér numid, og leidir hann af-
vega. Ecki frelsar hann sálu sína og
ecki ígrundar hann: skal þad ei vera
heimskutál, sem mín hægri hønd vañ?

2.) Adur enn Krists lærdómur útbreiddist í veroldinni, høfdu þjódirnar glatad allri réttri þeckíngu á hinni ædstu veru, sekum þeirra hjátrúar, og um leid látid hana villa sig til andstyggilegustu glæpa.

Páls Sendibrjef til Rómverja 1 Kap. v. 1-32.

1. Páll, þjón Jesú Krists, settur til
Póstula, og kjøriñ til ad kénna Guds
2. Evangelíum, hvørju hann fordum
fyrirheitid hafdi í heilagri Ritníngu,
3. fyrir sína Spámenn, hvørt ed hljód-
ar um hans Son; um hann, sem
eptir sinni líkamlegu fædíngu er af
4. Davíds ætt, en med upprisunni frá
daudum er krøptuglega sannadur ad
vera Sonur Guds, eptir heilagleik-
ans Anda (hans dýrkunarverdá Gud-
dómi) nefnilega um Jesúm Krist
5. Drottinn vorn: hvørjum mér ber ad

þacka

þacka þá nád, ad eg er Postuli ordinn,
til ad vídfrægja hans nafn, og styrk-
ja til ad hans lærdómur verdi med-
tekinn af øllum þjódum, á medal 6.
hvørra þér einninn erud, sem þeir, er
þegar kalladir erud af Jesú Kristi; -
Ydur øllum, sem búid í Róma-borg, 7.
Guds elskulegum, heiløgum kølludum
(eda til kristinndóms útvøldum)
heilsa eg, Páll, nú med þessari ósk: nád
og fridur veitist ydur af Gudi Fødur
vorum og þeim Drottni Jesú Kristi!
Fyrst allra þacka eg mínum Gudi 8.
vegna Jesú Krists fyrir ydur alla;
því ad í øllum heimi er ydar trúar gét-
id. En Gud er minn vottur, hvør- 9.
jum eg þjóna yfirdrepskaparlaust,
med (því ad útdreifa) þeim huggunar-
ríka lærdómi um hans Son, ad eg 10.
hugsa til ydar án afláts, og óska þess
med í mínum bænum, ad eg þó ein-
hvørn tíma mætti, ad vilja Guds,
verda svo luckulegur ad koma til yd-
ar; Því eg þrái mjøg eptir ad sjá yd- 11.
ur, svo ad eg mætti meddeila ydur
einhvørri andlegri nádar-gáfu, ydur
til stadfestingar. Og þad er ad skilja: 12.
ad eg mætti uppørfast med ydur, og

yd-

ydar á medal af vorri sameginlegri
13. trú, eins ydar, sem minni. Ecki vil
eg heldur dylja ydur þess, brædur! ad
eg opt hefi ætlad til ydar ad koma, svo
eg einninn gjæti framkomid nockrum
ávexti hjá ydur, eins og medal annara
Heidíngja; en hígad til hef eg hindr-
14. ast. Sannlega er eg skuldbundinn,
bædi Gryckjum og framandi, bædi
upplýstum og óupplýstum þjódum;
15. Þess vegna hefi eg reidubúinn verid,
ad því leiti, sem í mínu valdi stód, til
ad prédika Evangelíum hjá ydur
16. Rómverjum. Því eg skammast
mín ecki vegna þess evangelíska lær-
dóms um Krist; hvørr krapt hefir af
Gudi, til ad gjøra hvørn þann, sem
hann medtekur, farsælann, fyrst
Gydínga og þar nærst Heidíngja.
17. Því med þessum lærdómi má ødlast
þeckíngu um þad réttlæti, sem Gud
álítur gyldt, hvørt ed ødlast med
trúnni, og vidvíkur trúñi, samhljóda
því, sem skrifad stendur: sá réttláti
skal lifa fyrir trú sína (Habakuk 2, 4.)
18. Þar á móti vottar sig audsjáanlegt
Guds straff af himni yfir øllu gud-
leysi og allri vondsku þeirra manna,
sem

sem sannleiknum tálma med lasta-
fullri breytni; Því hvad menn vit- 19.
ad fá um Gud, er þeim ljóst, því sjálf-
ur Gud hefir þeim þad kunngjört.
Veraldarinnar skopun (lætur menn) 20.
játa og skoda hans ósýnilegu veru,
hans eilífa mátt og guddóm, svo eck-
ért hafa þeir til ad afsaka sig med.
Engu ad sídur, þó þeir hafi þeckt Gud, 21.
hafa þeir þó ecki heidrad hann eda
þackad honum, sem Gudi, heldur
hafa þeir látid gabba sig, af eginn
meiníngum, og þeirra hugsunarlausa
sinni vard umvafid (hjártáarinnar)
myrkri. Þeir þóktust vísir vera, en 22.
urdu ad dárum, þeir hafa jafnvel 23.
umbreytt Guds óforgengilegu há-
tign í líkneski, áþeck forgengilegum
manneskjum og fuglum og dýrum
og ormum. Þess vegna hefir Gud 24.
og svo med þeirra egin lystíngum lát-
id þá verda svívirdunni ad herfángi,
svo ad þeir saurgudu líkami sína
hvørr med ødrum, nefnilega: þá, sem 25.
skipt høfdu burtu sannri Guds þeck-
íngu, fyrir lýgi, og tilbádu og dýrk-
udu sképnuna í Skaparans stad,
hvørjum þó ber allt lof og dýrd um

26.

26. eilífd, Amen! En þess vegna lét
Gud þá verda smánarlegustu girnd-
um ad bráð, svo qvinnur þeirra féllu
frá náttúrlegri vellyst til ónáttúrlegr-
27. ar. Sømuleidis karlmennirnir, yf-
irgáfu sameiníngüna med qveñmøñ-
um, hvørja náttúran leyfir, en upp-
tendrudust af óbljúgri lystíngu hvørr
til annars og drýgdu vidurstyggd inn-
byrdis sín á milli, og hreyptu svo end-
urgjald sjálfir ad maklegleikum fyrir
28. egin blindni. Þar þeim nú ecki féll
í géd ad vardveita Guds vidurkénn-
íngu, leid Gud þeim framvegis ad
falla til rángsnúins sinnislags, svo
þeir gáfu sig einúngis vid því, sem
29. ósæmilegt var, og urdu fullkomlega
hneigdir til allskonar ránglætis, laus-
lætis, strákskapar, ágirndar, mann-
vondsku, þeir fylltust øfundar, blód-
þorsta, þrætugirni, svika og ráng-
30. sleitni. Þeir gjørdust rægi-karlar,
bak-málugir, sem eru mjøg svo and-
styggilegir í Guds augliti, skammar-
yrdtir, drambsamir, smánarar, gort-
arar, høfundar óheyrdrar vondsku,
vóru líka foreldrunum óhlýdnir, og
31. samvitskulausir, trygdarlausir, til-
sinn-

finníngarlausir, ósáttgjarnir, miskunarlausir. Allir þessir, jafnvel þó 32.
þeir vel þecktu Guds réttvísa dóm, ad
þeir, sem þvílíkt adhafast, vinni til
þúngrar hegníngar, hafa þeir ecki einúngis
framid þetta sjálfir, heldur og
gladst af því, ad adrir drýgdu hid
sama.

## Annar Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Hjátrúin veldur því, ad sinnislagid hneigist til haturslegrar grunsemi um sekt annara manna, þegar einhvør óheppni vill þeim til, og leitist adrir vid ad útbreida betri þeckíngu, sem strídir mót þeirra ávinníngi, verdur sá hjátrúarfulli hefndargjarn og grimmhjartadur.

1.) Þad er bædi hjátrúarfullt og kjærleikslaust, ad halda þær manneskjur, sem einhvør óføll henda, hegníngarverdari enn adra, þar ed vér ættum heldur ad láta sjálfum oss þéna þad til áminníngar um fljóta og alvarlega endurbót.

Lúc. Evang. 13. Kap. v. 1-9.

Á sama tíma (þá Jesús hafdi haldid 1.
þmislegar uppørfunar-rædur fyrir sínum

lærisveinum og fólkinu) komu nockrir og
søgdu honum hvørsu Pílatus hefdi
med sverdi fella látid nockra Galílæa-
ara, á medan þeir offrudu í nuust-
erinu, svo þeirra blód blandadist þar
2. saman vid. En Jesús (sem vard þess
var ad menn álitu ófall þessara manna,
sem Guds straff ad vera) svaradi og sagdi
þeim: haldid þér ad þessir Galílæar-
ar hafi syndugri verid enn allir adr-
ir Galílæarar, vegna þess þeir urdu
3. þetta ad lída? Nei! en eg segi ydur
satt, ad nema þér betrid ydur, hljót-
id þér allir ad verda jafn-ógjæfulegir.
4. Eda meinid þér, ad þeir átján menn,
sem turninn í Sílóam hrundi yfir
og drap, hafi framar unnid til þess
enn allar adrar manneskjur, sem búa
5. í Jerúsalem? Nei! en vitid fyrir
víst, ad ef þér gjørid ei yfirbót, hljótid
þér allir jafn-ógjæfulegir ad verda.
6. Hann bar sídan fram fyrir þá þessa
eptirlíkíngu: madur nockurr átti
fíkjn-tré, sem plantad var í víngardi
hans, en þá hann kom og leitadi ad
7. ávexti á því, fann hann engann; þá
sagdi hann vid víngards-manninn:
sjá! nú hef eg komid í þrjú ár, og leit-
ad

ad ávaxtar á þessu fíkju-tré, en eng-
ann fundid; høggdu þad upp! því
á þad héradauk ad gjøra jørdina á-
vaxtarlausa fyrir mér? En hann svar- 8.
adi og sagdi vid hann: Herra! lát
þad þó standa þetta árid, þángad til
eg næ ad ad grafa kríngum þad og
leggja áburd ad því, másské þad beri
þá ávøxt; en verdi þad ei, gétur þú 9.
seinna meir látid høggva þad upp.

2.) Sá hjá-trúarfulli dæmir eptir þánkalaust, einúngis eptir útvortis áliti, og ratar aldrei medalhófid, hvorki í því ad forsmá eda meta mikils.

Postulanna gb. 28 Kap. v. 1-10.

Þegar vér (segir Lúcas) høfdum nú 1.
bjargad oss til lands (nefnilega hann og
Páll, med ødrum fleirum, þá þeir lidu
skip-brot á ferdinni til Róma-borgar)
komustum vér ad því, ad eyjan hét
Melita; en Barbarar þar, veittu 2.
oss óvenjulega gódvild; því þeir
qveiktu bál, vegna regns og kulda,
sem uppá féll, og tóku vid oss øllum
saman; En þá Páll hafdi rifid nock- 3.
ud af hrísi og lagt á eldinn, stöck
nadra úr því undan hitanum, og
vafdi sig utan um hønd hans. En 4.

er Barbarar sáu þetta qvikindi, sem
loddi á hans hendi, søgdu þeir hvørr
vid annann: vissulega er þessi mad-
ur mordíngi, hvørjum hefndin leyfir
ecki ad lifa, þó hann kiæmist úr siáf-
5. ar háskanum. En hann hristi dýrid
af (hend sinni) í eldinn, og beid eng-
6. ann skada af. Þá væntu þeir ei an-
ars, enn ad hann þrútna mundi upp,
eda hastarlega detta nidur daudur.
En þegar þeir lengi høfdu bedid, og
sáu ad honum vard þó eckért meint
vid, snéru þeir vid bladinu, og søgdu
7. hann Gud vera. Í sama lands-
plátsi var annars landgóts, sem ædsti
madur á eyjunni ad nafni Públíus
átti, þessi madur tók oss heim til sín,
og veitti oss miøg vinsamlega í þrjá
8. daga. En þá bar þad til, ad megn
køldu-sótt og blód-sótt tóku fødur
Públíi, svo hann vard ad leggjast í
reckju; þá géck Páll inn til hans og
gjørdi bæn sína, og lagdi yfir hann
9. hendur og læknadi hann. En ad þvi
búnu, gáfu sig adrir lasnir á eyjunni
10. einninn fram, og ødludust hjálp. En
þeir veittu oss mikinn heidur, og
þegar vér ætludum burt, bjuggu
þeir

þeir oss út med allt, sem naud-
synja kunni.

3.) Þegar sjálfs-elska og ágirnd styrkja hjá-
trúna, verdur hún blódgírug, og þyrstir eptir
hefnd á sérhvørjum, sem útbreidir betri þeck-
íngu.

Postulanna Gjørn. 16, v. 16-40.

Nú bar svo undir (á medan Páll og Si- 16.
las og Tímótheus dvøldu í Philippis,
svo sem Lúcas umgétur) ad þá vér geng-
um í bænhúsid, mætti oss ambátt
nockur, hvør ed hafdi anda Spá-
gudsins Apollinis (med því hún féck
adsvifa-kost og í því ásigkomulagi lét af
sér heyra hmislega raust, og spádi fyrir hin-
um og þessum mønnum) og med þessum
spá-søgnum ávann hún húsbændum
sínum nærsta mikid. Þessi ambátt 17.
fylgdi þá Páli og oss, kalladi og
sagdi: þessir menn eru þénarar hins
hæsta Guds, sem birta ydur hinn
sanna farsældar veg! Þetta gjørdi 18.
hún í marga daga hvørn eptir annan,
loksins bistist Páll vid þetta, snéri sér
vid og sagdi til andans: eg býd þér í
nafni Jesú Krists, ad þú vikir á burt
frá henni? og á sauri stundu veik
hann á burt (hennar sjúkdómur læknadist

og undir eins bráſt henni boga=liſtin, eins
19. og menn ſegja).) En, ſem hennar Yf=
ir=herrar ſáu ad ábata=von þeirra var
framvegis lokid, handtóku þeir Pál
og Silas, og drógu þá fram á torg
20. fyrir Yfirvaldid; en þegar þeir høfdu
leidt þá fram fyrir úrſkurdar=menn=
ina, ſøgdu þeir: þeſſir menn, ſem
eru Gydíngar, gjøra mikinn óróa í
21. borg vorri, því þeir kénna þá ſidi,
ſem vér ei megum fallaſt á, né taka
upp, vegna þeſs vér erum Rómverſk=
22. ir. Þá vard allur lýdurinn uppvæg=
ur gégn þeim, og Yfirvøldin létu
fletta þá klædum og budu ad húdſtrýk=
23. ja þá: ſvo var þeim refſad mørgum
høggum, varpad í fángelſi og fánga=
vaktaranum bodid ad gæta þeirra
24. vandlega. Því lét hann þá, eptir
ſkipuninni, ſem hann fengid hafdi,
í innſta fángelſid, og feſti þá med
25. bleckjum á fótunum? Um midnættis=
bil gjørdu Páll og Silas bæn ſína,
og ſúngu loſſanngva Gudi til dírdar;
en hinir fángarnir hluſtudu til þeirra.
26. Haſtarlega kom þá jardſkjálfti mikill,
ſvo titradi grundvøllur fángelſiſins;
og allar hurdir hrucku upp í ſama
vet=

vetfángi, og hleckirnir losnudu af
þeim øllum. En, sem fángavaktar- 27.
inn, sem hrøck upp vid þetta, fèck ad
líta fángelsis dyrnar opnar, ryckti
hann sverdi, og hugdi ad myrda sjálf-
ann sig, því hann ætladi fánganá
strokna vera. En Páll kalladi hárri 28.
røddu, og sagdi: gjør sjálfum þér eck-
ért mein! því vér erum allir hér vid
høndina; þá heimtadi hañ ljós, géck iñ 29.
og féll skjálfandi fram fyrir Pál og
Silas; Sídan hafdi hann þá út, og 30.
mælti: Herrar mínir! hvad skal eg
til bragds taka, svo ad eg frelsast
megi? Þeir svørudu: trú þú á Drott- 31.
inn Jesúm Krist, þá skalt þú og þitt
hús frelsi fá! Sídan birtu þeir honum 32.
ord Drottins, og øllu hans húsfólki;
því um sømu stund nætuiñar hafdi 33.
hann tekid þá inn til sín, og þvegid
upp kaun þeirra. En hann og allir
hans, skírdust strax þar eptir; Hann 34.
hafdi og, þegar hañ leiddi þá í sitt húss,
látid leggja á bord fyrir þá, og gladdist
hann med øllum sínum af því, ad
hafa ødlast trúna á Gud. Þar ept- 35.
ir, þegar dagur var, sendu Yfirvøld-
in stadar-sveinana, og létu segja hon-

um: þú mátt láta þessa menn lausa!
36. Þess vegna bar fánga-vaktarinn Páli
þessa munnlegu fregn: Yfirmenirn-
ir gjørdu bod um ad láta ydur lausa,
þér megid því útgánga og fara nú burt
37. í fridi! En Páll lét andsvara þeim:
vér høfum opinberlega, húdstrýktir
verid, án dóms og laga, jafnvel þó
vér séum rómverskir menn, og sídan
var oss varpad í fángelsi, og nú á ad
reka oss heimuglega burt! nei, ecki
skal þad vidgángast! en komi þeir
38. sjálfir og leidi oss út; Þessi ord báru
stadar-sveinarnir Yfirmønnunum;
tóku þessir þá ad óttast, er þeir heyrdu
39. ad hinir rómverskir væru. Komu
sídan, og svørndu þeim vel um, og
leiddu þá sjálfir út, en mæltust til
um leid vid þá, ad þeir vikju úr
40. stadnum. En, sem þeir vóru
sloppnir úr fángelsinu, fóru þeir til
Lydía, og þegar þeir høfdu heilsad
brædrunum, og áminnt þá, viku
þeir burt þadan.

---

# Þridji Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Sañleikans ljós, sem framskín af Krists lærdómi, má einúngis útrýma hiñi myrkvu hjátrú, og kenna manneskjunum ad brúka skynsemina verduglega, til ávaxtarsamrar vidurkenníngar.

1.) Þángad til Krists lærdómur útbreiddist, nytti sér hverr einn slægur svikari hjátrú fávísra manna, til ad upphefja og audga sjálfa sig.

Post. g. b. 8. kap. v. 5-25.

Philippus kom nidur til hofudstadarins í Samaría (þá hañ komst undan ofsókninni í Jerúsalem), og prédikadi 5.
þeim um Krist. En allt fólkid gaf 6.
náqvæmlega gaum ad hans keñíngu,
þegar menn sáu og heyrdu þau undur
hann gjørdi: óhreinir andar fóru 7.
út af mørgum, sem þá høfdu, med
mikilli háreysti. Iktsjúkir og haltir 8.
læknudust; svo mikil gledi var á í
stadnum. En madur nockurr Sí- 9.
mon ad nafni var fyrir í stadnum,
og framdi allskonar sjónhverfíngar,
med hvørjum hann kom Samversk-

um til ad undraſt, og þóktiſt enginn
10. ſmælíngi. Bædi háir og lágir hnigu
ad honum, og ſøgdu opinberlega:
hann er hinn mikli kraptur Guds!
11. Þeir vóru honum áhángandi, vegna
þeſs hann um lángann tíma hafdi
tøfrad þá, med ſínum vélabrøgdum.
12. En, ſem þeir trúdu Philippuſi, ſem
bodadi þeim gledi-bodſkapinn um
Guds ríki, og nafn Jeſú Kriſts (edur
lærdóm) létu þeir ſkíraſt, bædi menn
13. og qvinnur. Jafnvel ſiálfur Sí-
mon trúdi, og lét ſkíra ſig, og var ſíd-
an ſtadfaſtlega hiá Philippuſi, med
því hann furdadi nærſta, þegar hann
ſá þau undur og ſtóru dáſemdar-verk,
14. ſem vidbáru. En þegar Poſtularn-
ir, ſem eptir vóru í Jerúſalem,
heyrdu, ad Samaría hafdi veitt
Guds ordi vidtøku, ſendu þeir Pétur
15. og Jóhannes til þeirra; og er þeir
komnir vóru þángad ofan eptir, bádu
þeir fyrir þeim, ad þeir mættu ødl-
16. aſt heilagann anda; því hans gáfum
var enn þá ecki neinum þeirra útbýtt,
einúngis høfdu þeir med ſkírninni
medtekid Herrans Jeſú lærdóm.
17. Þeſs vegna løgdu Poſtularnir hend-
ur

ur yfir þá, og þeir medtóku heilag-
ann Anda. En þegar Símon sá, 18.
ad heilags Anda-gáfur veittust fyrir
handa-uppáleggíngu Postulanna,
kom hann og baud þeim peninga, og
bád svo: Géfid mér einnin þá makt; 19.
ad hvørr, sem eg legg hendur yfir,
medtaki heilagann Anda! Pétur 20.
svaradi honum: tortýnist þú med
peníngum þínum, vegna þess þú ætl-
ast til ad fá til kaups, þad, sem þó er
Guds gjøf! Enga hlutdeild hefir þú 21.
í þessum lærdómi, því hjarta þitt
er ecki réttskickad fyrir Gudi. Snú 22.
þér þess vegna frá vondsku þinni, og
bid Gud, ad vondska hjarta þíns
mætti þér fyrirgéfast! Því eg sje, ad 23.
þú fullur ert af skjædri vanart, og
rángsleitni vafinn. Þá ansadi Sí- 24.
mon, og sagdi: bidjid þér þá fyrir
mér til Drottins, ad eckért af því
hinu ílla, sem þér minntust á, komi
yfir mig! En þegar Postularnir 25.
høfdu vitnad um Guds ord og
vidfrægt þad, snéru þeir aptur til
Jerúsalem, og prédikudu evange-
líum í mørgum samverskum þorpum.

2.)

2.) Allir hjá-trúarinnar táldrægu prettir, hljóta rýma, fyrir guddómlegum sannleiks-krapti Evangelii, sem þá trúblar og til minkunar gjörir.

Post. g. b. 19. v. 13-20.

13. Þar vóru nockrir umhleypings Gydíngar, sem freistudu ad nefna Drottins Jésú nafn yfir þeim, sem vonda anda höfdu, og sögdu: vér særum ydur vid þann Jesúm, sem Páll pré-
14. dikar! og medal þeirra, sem þetta adhöfdust, vóru sjö synir hins ypparsta Prests, sem Sceva hét, en sá vondi
15. andi svaradi og sagdi: Jesúm þecki eg, og ber kénnslu á Pál; en hvada
16. menn erud þér? þá vód manneskjan, sem hafdi þann óhreina anda, upp á þá, hrakti og útlék þá svo, ad þeir naktir og sárir hlutu ad flýja úr hús-
17. inu. En er Gydíngarnir og Gryckir þeir, sem í Ephesu-borg bjuggu, sannfréttu þetta, kom ótti yfir þá alla, og nafn Drottins Jesú vard
18. nærsta mjög lofad. Þángad komu og margir þeir ed medtekid höfdu Krists lærdóm, og gjördu sína játníngu um og sögdu frá, hvad þeir hefdu

fyrir

fyrir sig tekid; og margir þessir, sem 19.
med kukl høfdu farid, báru (galdra)
bækurnar fram, og brenndu þær upp
á almanna færi. Menn reiknudu
verd þeirra, og fundu þad vera tíu
þúsund ríkisdali. (Því bækurnar vóru
skrifadar, og allar máladar med mind-
um, sem mikid kostudu.) Svo vold- 20.
uglega útbreiddist ord Drottins og
vann sigur.

3.) Med því ad eyda hjá-trúarinnar myrkri útrýmir Evangelii sannleiks ljós ásamt vidurstyggilegum løstum og svívirdíngum, sem dyljast undir þeim, en tendrar þar á móti følskalausa dygd og rádvendni hjá þess eptirbreytendum.

Páls Sendibrjef til Eph. 5 Kap. v. 3-14.

Ydar á milli, sem heiløgum sómir 3.
(þad er Kristnum) má hvørki heyrast
um lauslæti, né nockurskonar óhrein-
leika eda fýkilega vellyst, ei heldur
smánarlegt vidmót, eda ósæmilegt
gaman, íllfús kríngilyrdi, sem allt
er ósæmilegt, en í þess stad skal heyr- 4.
ast þad, sem Gudi er þægilegt. Því 5.
þad megid þér vita, ad enginn hór-
karl eda óhreinlífur né grádugur sæl-
kéri, sem er afgudadýrkari, hefir arf-
6.

6. toku í Krists og Guds ríki. Látid
engann gabba ydur med eintómu
hjali; því vegna hvílíkra lasta kémur
Guds hegníng yfir vantrúarinnar
7. børn. Þér megid því ecki verda sam-
8. taka þeim í hvílíku. Fordum vór-
um þér formyrkvadir, en nú erud þér
9. ordnir upplýstir af Drottni. Hegdid
ydur því, svo sem upplýstir! ávøxt-
ur andlegs sinnislags vottar sig í
allri gódseind og sannri rádvendni.
10. Utveljid þess vegna þad, sem Drottni
11. þægilegt er, og hafid enga hlutdeild í
myrkursins ófrjóssømu athæfi, en
audsýnid øllu framar ad þér metid
12. þad óleyfilegt. Vidurstyggilegt er,
jafnvel á ad minnast hvad hinir adrir
13. heimuglega drýgja. En allt því-
líkt, þegar þad leidist í ljós, eins
og þad er á sig komid, þeckist í ljós-
inu (med sinni vidurstygd). Því ljós-
id, (sem skín í Evangelió) gjørir allt
14. augljóst. Því er svo adqvedid:
vakna þú, sem sefur, og rís upp frá
daudum, ad Kristur megi lýsa þér!



# 3ja Sunnudag i Adventu.

## Adal-hugleiding.

Guds ord er hid kröptugasta medal til ad efla vora betrun og framför í því góda, ef vér géfum því gaum, og brúkum þad med einlægri ástundun.

## Fyrsti Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Med sínu ordi hefir Gud géfid oss hentugleika til ad géta ljóslega þeckt hans fullkomlegleika, og ødlast ávaxtarsama uppfrædíngu um vora sønnu farsæld.

1.) Þad, sem náttúran lætur oss vidurkenna um Guds eginlegleika, sjáum vér í Guds opinberada ordi upplýst, og stadfest oss til huggunar og endurbótar.

Psálm. 19, v. 1-15.

Saungur Davíds, til ad leika á 1.
hljódfæri vid: himnarnir prísa Guds 2.
dýrd;

dýrd; hid vída himin-hvolf auglýsir
3. verkin hans handa. Hvørr dagur-
inn prédikar ødrum, og hvør nóttin
4. uppfrædir adra: Ecki er þetta þad
túngumál, eda ord, hvørs hljód ei
5. heyra megi; hljómurinn berst kríng-
um allann jardar-hnøttinn, og
þeirra raust heyrist til veraldarinn-
ar endimarka, allt þángad, sem
6. sólin hefir høll sína. Svo sem brúd-
guminn úr sínum brúdarsal fram-
gengur hún, og hleypur fagnandi
eins og øflugur stríds-madur, sitt
ágvardad skeid. Frá ødru himins-
ins takmarki rennur hún upp og
skundar til hins annars takmarks,
7. og eckért er til, sem fái sig hulid fyr-
8. ir hennar brennandi hita. Fullkom-
id er løgmál Drottins: sálina hug-
hreystir þad; trúverdugir eru vitn-
isburdir Drottins: vísann gjøra
9. þeir hinn fáfróda; réttar eru skipan-
ir Drottins: hjartad gledja þær;
hrein eru bodord Drottins: augun
10. upplýsa þau; Heiløg er dýrkan
Drottins: stadføst varir hún eilíf-
11. lega; Sannar eru skipanir Drott-
ins og réttlátar. Gullinu eru þær
dýr-

dýrmætari, já! miklu hreina-gulli: hunángi eru þær sætari, og saftiñi, sem rennur af hunángs-koku. Líka 12. áminna þær þénara þinn: ad mikil verdlaun fylgja þeirra haldi. En 13. hvørr gétur tekid eptir hvad opt hann villist? hreinsa þú mig af heimug-legum brestum! Vardveit einninn 14. þénara þinn frá drambi, svo ad þad drottni ei yfir mér! þá verd eg ó-straffanlegur, og hreinn af morgum afbrotum. Þócknanleg veri þér ræda 15. míns munns, og gédfeldar yfirveg-anir sálar minnar! Drottinn! miñ kastali! og minn verndari!

2) Ad hlýdnast Guds ordi, svo sem reglu vors lifernis og háttalags, verndar oss frá lost-unum og leidir oss til hreinskilinnar dygdar.

Psálm. 119, v. 1-40.

Sælir eru þeir, sem óstraffanlega 1. lifa, og framgánga eptir løgmáli Drottins! Sælir eru þeir, sem vard- 2. veita hans bodord, og leita hans af øllu hjarta! Sannlega fremja þeir 3. eckért vondslegt: þeir gánga á hans vegi. Þú baudst oss (Drottinn) ná- 4. qvæmlega ad breyta eptir þínum

5. skipunum. O! ad mitt líferni yrdi
6. lagad eptir þínum bodordum! Þá
verd eg ecki til skammar, ef eg gaum-
7. gjæfi skipanir þínar. Af hreinu
hjarta vil eg þig lofa, og ásamt
8. kénna þín réttvísu løg. Þín bod
vil eg vardveita! aldrei munt þú þá
9. yfirgéfa mig! Hvørsu má úngmen-
id gánga sinn veg óstraffanlega?
med því ad breyta eptir þínu ordi!
10. af øllu hjarta leita eg þín: Lát mig
ecki gánga afvega frá bodum þín-
11. um! Eg vardveiti þitt ord í mínu
12. hjarta, svo ad eg ei syndgi á móti
13. þér. Lof sé þér, Drottinn! ad þú
kénnir mér þínar skipanir! um all-
ar þínar skipanir vil eg tala, sem þú
14. opinberad hefir. Eg gledst af því
ad breyta eptir þínu ordi, svo sem
15. yfir miklum audæfum. Eg ígrunda
þín bodord, og adgjæti náqvæmlega
16. þad, sem þú vilt eg breyti eptir. Eg
skémti mér vid þín bodord, og þitt
17. ord gleymist mér ecki. Gjør vel vid
þénara þinn! láttú mig lifa, og eg
18. skal vardveita þitt ord! Uppljúk mín-
um augum, svo eg granskodad fái þad
19. undrunarverda í þínu løgmáli. Ut-
lend-

lendíngur er eg á jørdunni: láttú
þín bodord þó ecki vera mér hulin!
Sála mín vanmegnast jafnan af 20.
laungun eptir þínum tilskipunum.
Þú ert bistur frekum yfirtrodslumøñ- 21.
um; bølvan kémur yfir þá, sem vík-
ja frá þínum bodordum; Tak frá 22.
mér spott og forsmán, því eg vard-
veiti þín bodord. Jafnvel Furstarn- 23.
ir sitja og rádslaga saman mér á móti;
en þinn þénari ígrundar þitt løgmál.
Þínar skipanir eru og mitt yndæli; 24.
þær eru mitt ráda-neyti. Eg er nid- 25.
urbeygdur í duptid: endurlífga mig
eptir þínu fyrirheiti! Eg qvarta fyr- 26.
ir þér um neyd mína: en þú bæn-
heyrir mig; fræd mig í þínu løgmáli!
Kénn mér ad skynja, hvørsu eg fái 27.
hegdad mér eptir þínum bodordum:
eg vil ígrunda þínar undrunarverdu
rádstafanir. Nærsta mjøg yfirbug- 28.
ar mig sorgin; reis mig nú á fætur
eptir þínu fyrirheiti! Leid mig af 29.
ranngum vegi, og unn mér þíns løg-
máls! Rétta veginn vel eg: þín 30.
bodord hefi eg mér fyrir augum.
Stødugt ræki eg þínar skipanir; 31.
Drottinn! lát mig ei til skammar

32. verda! Skunda vil eg þann veg,
sem þín bodord ávísa, og þá géfur
33. þú mér vongóda hugprýdi! Drott-
inn! kénn mér ad framgánga eptir
þínum bodordum, ad eg megi gaum-
34. gæfa þau vid hvørt fotmál! Virdstú
ad uppfræda mig, þá vil eg halda
þitt løgmál, og gjæta þess af øllu
35. hjarta! Leid mig á veginn, sem mér
ber ad gánga, eptir þínum bodum,
36. því þar vid skémti eg mér. Hneig
hjarta mitt til þinna bodorda, en
37. ecki til rángs ávinníngs! Snú mín-
um augum frá, svo ad þau gjæti ei
ad hégómanum, og farsæl mig á
þeim vegi, sem þú hefir mér sýnt.
38. Stadfest þitt ord fyrir þínum þén-
ara, sem leidir menn til ad óttast
þig! afstýr frá mér þeirri qvøl fyr-
39. ir hvørri eg titra. Því nádarfullir
40. eru þínir dómar. Sjá! eg hefi
eptirlaungun til þinna bodorda:
virdstú ad endurhressa mig med þinni
miskunsemi!

---

# Annar Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Þar ed Guds ord verkar ecki med ómótstædilegum krapti, svo manneskjan sviptist ecki frjálsri brúkun skynsemi sinnar, mætti oss vera annt um ad koma í veg fyrir þær hindranir, sem tálma þess framgángi.

1.) Med egin hyrduleysi og þvermódsku, valda manneskjurnar því, ad Guds ord nær ei ad verka þeirra endurbót.

Matth. 13 Kap. v. 1-23.

Þann sama dag (og Jesús hafdi nidurþaggad Pharisæarana, sem skuldudu hann fyrir ad hann hefdi gjört samband vid vondann anda) géck hann út úr húsinu (í hvorju hañ añars gisti, í Capernaum) 1.
og settist vid sjóinn. En þar safnad- 2.
ist margt fólk ad honum, svo hann
hlaut ad stíga útá eitt skip, og setjast, en fólkid stód í fjörunni. Þar 3.
taladi hann lengi vid þá í eptirlík-
íngum, og sagdi: Sjáid! akuryrkju- 4.
madur nockurr géck út ad sá; og þegar hann sádi, féll nockud utan vid

veginn, og fuglar komu og átu þad
5. upp. En nockud féll í kletta-jørd,
hvar þad hafdi litla jardar-dýpt; og
þad kom fljótt upp, því þad hafdi lít-
6. inn jard-veg. En þegar sólin kom
vid, skrælnadi þad og visnadi, því
7. þad hafdi ecki rót. Nockud féll þar
á mót medal þyrna (sem ad sonnu ept-
ir venju vóru brenndir af akrinum, þá hañ
undirbúast átti til útsædis, en ræturnar
vóru þó eptir) og þyrnarnir uxu upp
8. og kæfdu þad nidur. En nockud
féll í góda jørd, og bar ávøxt, sumt
hundrad-faldann, sumt sextug-fald-
9. ann, sumt þrítug-faldann. Hvørr,
sem eyru hefir til ad heyra med, sá
10. heyri! Þá gengu hans lærisveinar
ad og spurdu hann: því talar þú í
11. eptirlíkingum? hann gégndi þeim,
og sagdi: ydur er unnt ad ná skiln-
ingi duldra efna, sem áhræra himna-
12. ríki; en þeim er þad ecki veitt. Því
(þad gengur hér til, svo sem máltækid segir)
vid þann, sem hefir, bætist meira, eiñ-
inn svo hann yfirfljótanlegt hafi, en
frá þeim, sem eckért hefir, skal takast,
13. einnin þad hann hefir. Eg tala í
samlíkingum vid þá, vegna þess þeir
sjá

sjá ecki med sjáandi augum, og heyra
ecki med heyrandi eyrum, og skilja
ei heldur, svo hjá þeim á heima spá- 14.
dómur Esajass', er svo hljódar:
heyrid þad med ydar eyrum, en skil-
jid þad ecki, og sjáid þad med ydar
augum og skynjid þad ecki! Því 15.
hjarta þessa fólks er tilfinníngarlaust
ordid, og med eyrunum heyra þeir
dauflega, og augun lykja þeir apt-
ur, svo þeir hvorki fái sjed med aug-
unum, né heyrt med eyrunum, né
skynjad med hjartanu og snúid sér,
svo ad eg fái þá lœknad. (Es. 6, 9. 10.)
En sæl eru ydar augu ad þau sjá, 16.
og ydar eyru, ad þau heyra; Því eg 17.
segi ydur þad satt, ad marga spá-
menn og gudhrœdda, hefir lángad
til ad sjá hvad þér sjáid, en fengu ei
ad sjá þad, og til ad heyra, hvad þér
heyrid, en fengu ei ad heyra þad.
Heyrid þér því nú, hvad samlíkíngin 18.
um akur-manniñ þýdir: Þegar fjøldi 19.
maña heyrir þá lærdóma, sem áhrœra
Guds ríki, en skilur þá ecki, kémur hiñ
vondi, og rœnir burtu því, sem sád
var í þeirra hjørtu: (Ukamlegar tilhneig-
íngar, og laungun til syndarinnar, hvorra

höfundur djöfulliñ var, med því ad tæla vora
fyrstu foreldra, sigra gódar hræríngar í
hjartanu, og útrýma þeim ad nýju) þá
fer því álíkt, og þeim hluta sædisins,
20. sem féll utan vid veginn. En eins og
fór um sædid, sem féll í hellu-jörd,
svo fer og líka, þegar einhvörr heyrir
ordid, og veitir því strax vidtöku med
gledi, en heldur einúngis fast vid þad
um stundar-sakir, vegna þess þad fest-
21. ir ei rót hjá honum; Því undir eins
og þjáníngar og ofsóknir mæta vegna
22. ordsins, fellur hann strax frá. Og
svo sem fór þeim hluta sædisins,
sem féll medal þyrna, svo fer og þeim,
sem ad vísu heyrir ordid, en hjá hvör-
jum hugsýki fyrir þessu nálæga lífi
og tál-snörur audsins kéfja ordid, svo
23. þad verdur ávaxtar-laust. Þar á
móti, svo sem fór um þad af sædinu,
sem féll í góda jörd, svo fer og þeim,
sem heyrir ordid, og skilur þad; sá
ber vissulega ávöxt, og framkémur
einn hundrad-földu, annar sextug-
földu og þridji þrítug-földu.

2.) Med eginn krapti fær Guds ord yfir-
hönd án kúgunar og ofbeldis, og vinnur lokks-
ins sigur á van-trú og hjá-trú.

Matth. 13 Kap. v. 24-52.

Aldra samlkíngu sagdi Jesús þeim 24.
(þegar búid var ad útleggja eptirlíkíng-
una um þá fernslags sád-jord) og mælti:
allt eins er himnarkí varid, (Guds
kirkju á jordinni, hvorja Jesús Kristur
stiptad hefir), og þá madur nockurr
einusinni sádi gódu sædi í akur sinn,
og ámedan fólkid svaf (í middegis hit- 25.
anum) kom øfundar-madur hans og
sádi íllgresi innan um hveitid, og géck
burt. En, sem hid ardsama kom upp, 26.
og bar ávøxt, vard og vart vid íllgres-
id. Þá gengu húsbóndans þénar- 27.
ar til hans og sögdu vid hann: Herra!
sádir þú ecki gódu sædi í akur þinn?
hvadan er þá íllgresid í hann komid?
Hann svaradi þeim: einhvor øfund- 28.
sjúk manneskja hefir þad gjørt. Þá
spurdu þjónarnir hann: viltú þá vér
førum og upprætum þad? en hann 29.
svaradi: nei! þid kynnud ad uppræta
hveitid um leid þér lesid úr íllgresid.
Látid hvørttveggja vara ásamt, til 30.
kornskurdar-tímans! en þá vil eg
segja til haust-yrkjaranna: safnid
fyrst íllgresinu saman, og bindid þad
saman í knippi, ad þad brúkast megi

til eldsneytis, safnid sídan hveitinu í mína korn-hlødu (Kristur, sem er verdarinnar Dómari, hefir sjálfum sér geymt, ad straffa sannleikans forakta. Þeirra medbrædur mega ei forgrípa sig á þeim,
31. og falla inn í hans herra-dæmi). Enn framar setti hann þeim fyrir sjónir adra eptirlíkíngu, og sagdi: himnaríki er eins varid og mustards-korni, sem madur nockurr tók, og sádi í akur
32. sinn. Ad sönnu er þad smærra enn hvørt annad fræ-korn; en þegar þad er fullvarid, er þad ødrum matjurtum stærra, og verdur ad runna (í þeim heitu löndum) svo ad fuglar himinsins koma, og sitja í skjóli undir þess greinum (sú kristilega trú, sem í öndverdu er lítilmótleg og audvirdileg fyrir mannanna sjónum, mun, þegar fram lída stundir, útbreidast um allann heim.)
33. Enn sagdi hann þeim adra samlíkíngu: sama er ad segja um himnaríki og súrdeig, sem kona tók og hnodadi saman vid þrjár sképpur mjøls, þángad til allt var sýrt ordid: (ä sem súrdeigid útbreiðir sinni verkun um allt mjølid fyrir utan hávara ölgu, svo skal Krists lærdómur útbreidast í veroldinni ofbeldislaust og vinna sigur med hans egin-

legum

leaum krapti). Um allt þetta rœddi 34.
Jesús í samlíkíngum fyrir fólkinu, og
án eptirlíkínga sagði hann þeim eck-
ért. Svo að hér rættist það, sem 35.
spámaðurinn hafði sagt: opna vil
eg minn munn í eptirlíkíngum, og
frá þeim hlutum vil eg segja, sem duld-
ir hafa verið frá veraldarinnar upp-
hafi (Ps. 78, v. 2.) Síðan lét Jesús 36.
fólkið fara, og géck heim; en hans
lærisveinar gengu til hans, og sögðu:
legðu út fyrir oss samlíkínguna um
íllgresið á akrinum. Hañ ansaði og 37.
sagði þeim: sá, sem sáði því góða
sæði, er mañsins Sonur; Akuriñ er 38.
veröldin, góða sæðið eru börn himna-
ríkis (réttskickaðir sannleiks vinir) en íll-
gresið eru börn þess vonda (þeir óguð-
legu og vantrúuðu) og ófundar-maður- 39.
inn, sem sáði því, er djöfullinn, korn-
skurðurinn er endir veraldar, og
haust-yrkjararnir eru Englarnir.
Eins og nú íllgresinu er samansafnað 40.
og það verður í eldi brennt, svo mun
og tilgánga við endir þessarar verald-
ar. Mannsins Sonur mun útsenda 41.
alla sína Engla og þeir skulu saman-
safna öllum þeim, sem afvega leiða

42. og ógudlegum úr hans ríki; Og
varpa þeim í glóanda ofninn:
(láta þá lída þeirra tilunnid straff, hvors
qvalrædi samlíkja má vid þá ofbodslegu
pínu, sem fylgdi þessum óttalega hegníng-
ar-máta hjá þeim Chaldæisku.) Þar skal
43. vera óp og tanna-gnístran. En þá
skulu réttlátir ljóma, sem sól í ríki føð-
urs þeirra (vera sæmd og gledi vafdir hjá
Gudi) hvørr eyru hefir til ad heyra
44. med, sá heyri! Framvegis má sam-
líkja himnaríki vid fólgid fé, sem dul-
id lá í akri; og þegar madur nockurr
fann þad, faldi hann þad á ný, en af
føgnudi yfir því, géck burt, og seldi
eigur sínar, og keypti þañ sama akur:
(Í samanburdi vid þá farsæld, ad ødlast
sanna kristilega upplýsíngu, verda hvør
45. ønnur jardnesk gjædi lítils verd.) Einn
má himnaríki samlíkja þeim kaup-
manni, sem sóktist eptir gódum perl-
46. um; Þegar hann nú hitti fyrir mjøg
svo ágjæta perlu eina, géck hañ burt,
og seldi allt hvad hann átti og keypti
hana (hvørr, sem búinn er ad ná réttri
þeckíngu á sønnum kristinndómi, metur
hann meir, enn hvørn annann dýrgrip.)
47. Sømuleidis má himnaríki sam-

jafna

jafna vid vod, sem varpad er í sjó,
og sem dregur ad fjølda allskyns
fiska; En, sem hún er full ordin, 48.
draga menn hana upp í fjøruna,
setjast nidur, og safna gódu fiskunum
saman í kér, en kasta þeim lakari
burtu. Svo mun og tilgánga vid 49.
endir veraldar: Englar skulu gánga
út, og adgreina vonda frá gódum, og
kasta þeim í þann glóanda ofn; þar 50.
skal vera vein og tanna-gnístran. Nú 51.
spyr Jesús þá ad: hafid þér skilid allt
þetta? Þeir svara: já Herra! Þá 52.
sagdi hann vid þá: þanninn breytir
þá hvørr einn skriftlærdur, sem fród-
ur er í þeim efnum, er vidvíkja himna-
ríki, líkt og húsfadirinn, sem af nægt-
um sínum framber nýtt og gamalt.

## Þridji Árgángur.

### Høfud-lærdómur.

Hvada framførum menn taka skuli sér til sannrar endurbótar og gjæfu, er komid undir því, hvørninn menn leyfa sér ad hafa Guds ord um hønd.

1.) Þegar Guds ord er forsmád, hljóta dygd og réttvísi ad minka.

Páls annad brjef til Tímóth. 3 Kap. v. 1-17.

1. Þad mátt þú vita, ad háskalegir tím-
2. ar munu á sídan uppáfalla. Því til
munu verda þær manneskjur, sem
eru sérgódar, ágjarnar, skrumarar,
hofmódugar, skamaryrdtar, óhlýdnar
foreldrum, óþacklátar, ódádamenn,
3. kaldlyndar, ósáttgjarnar, bakmál-
ugar, þrælar sinna girnda, grimmar,
sem engann kjærleika hafa til þess
4. góda; fjør-rádamenn, fiblrjarsir,
flagarar, sem framar elska munad-
5. arlífi enn Gud; Einninn manneskjur,
sem bera med sér skin gudhrædslunn-
ar, en afneita hennar krapti, (med því ad breyta þvert á móti) legg heldur ecki
6. lag þitt vid þvílíka! Því samkynja
þeim eru þeir, sem laumast inn í
húsin, og tæla þær qvennsniptir, sem
bersyndugar eru, og stjórnast og drag-
7. ast af allskonar girndum, sem ætíd
vilja láta uppfræda sig, en koma þó
aldrei til sannleikans vidurkénníngar.
8. Alíkt og Jannes og Jambres mót-
stódu Mosi, svo mótstanda þvílíkir
og

ogsvo sannleikanum, manneskjur, hvørra sinnislag er gjørspillt, og sem øldúngis ecki eru lagadar til trúarinnar (eda kristinndóms). En þeim 9.
mun ei mjøg lengi ágengt verda, því
síblíska þeirra mun augljós verda
hvørjum manni, svo sem hiña vard.
En þú hefir líkst mér í lærdómi, í líf- 10.
erni, í ásetníngi, í trú, í umburdar-
lyndi, í kjærleika, í þolinmædi undir 11.
ofsóknum og þrautum, eins og þeim,
sem mér mættu í Antiochia, Iconía, Lystra, hvørsu strángar, sem
ofsóknirnar vóru, sem eg þola hlaut,
en Drottinn frelsadi mig frá þeim
øllum. Já! allir þeir, sem hafa 12.
vilja til ad breyta gudlega, eptir Jesú Krists ávísun, hljóta ofsóknir ad
líða (á þeim tímum.) En æ verr og 13.
verr fer fyrir vondum og tælandi
manneskjum: þær ginna adra og
leidast sjálfar afvega. Haldtú þó stød- 14.
ugur vid þad, sem þú lært hefir, hvarum þú fullvissu fengid hefir med því
þú veitst hvørr þér hefir kénnt. Og 15.
frá barndómi er þér kunnug heiløg
Ritníng, sem þig mætti nógu víssañ gjøra, til sálu-hjálpar, fyrir trúna

á Jes-

16. á Jesúm Krist. Öll Ritníngin er
af Gudi inngéfin, og nytsøm til lær-
dóms, til sannfæríngar, til betrun-
17. ar, til mentunar í dygd, svo ad sá,
sem Gudi þjónar, megi réttskickadur
verda og full-hæfur til allra gódra
athafna.

2.) Því framar, sem Guds ordi er haldid í
gyldi, því ágjætlegar eykst og blómgast hin
sanna dygd.

Páls brjef til Títum 2 Kap. v. 11-15.

11. Øllum mønnum til frelsis, er Guds
náð (med Jesú lærdómi) augljós ord-
12. in, sem kénnir oss ad hafna ógud-
legu háttalagi og lystíngum, sem í
heiminum drottna, en þar á mót lifa
hreinferduglega, réttilega og gudlega
13. í heimi þessum, svo sem þeir, er høf-
um þá sáluhjálplegu von fyrir aug-
um, eg meina: dýrdar-auglýsíngu
ens mikla Guds og vors Lausnara
14. Jesú Krists; Hann gaf sjálfann sig
út fyrir oss, svo ad hann fengi oss
endurleyst frá øllum syndum, og
hreinsad fólk sjálfum sér til eignar,
sem framqvæmdarsamt væri í gód-
15. um verkum. Kénn þú þetta, og á-
minn

minn og sannfær, med fullri alvøru-
géfni. Lát engann hafa orsøk ad
forsmá þig!

Páls bréf til Titum 3. Kap. v. 1-15.

Áminn þá um ad vera stjórninni og 1.
Yfirvøldum undirgéfna, audsýna
hlýdni, og vera fúsa til allra gódra
verka; ad þeir ecki megi tala illa um 2.
nockurn né vera þráttunarsamir,
heldur séu sanngjarnir og audsýni
hógværd øllum mønnum. Þvi vér 3.
vórum einninn fordum óforsjálir,
þverbrotnir, villu-ráfandi, þrælar
margvíslegra girnda og vellysta, og
lifdum í øfund og vondsku, vórum
hatadir og høtudum hvørr annann.
En þegar ljómadi gjædska og mann- 4.
elska Guds vors velgjørara, var þad 5.
ecki søkum þeirra réttlætis verka, sem
vér áttum ad æfa, heldur vegna hans
egin miskunar, ad hann frelsadi oss
fyrir endurfædíngar- og endurný-
úngar-laug heilags Anda (sem þeir, er
vígdust til nýs og betrads lifernis). Þá 6.
hann og ríkuglega úthellti yfir oss
andans gáfum, fyrir Jesúm Krist
vorn Lausnara. Svo ad vér, sem rétt- 7.
E lættir

lættir af hans náð, yrdum erfíngjar
8. eilífs lífs eptir vorri von. Þetta er
trúverdur lærdómur, og um þetta
vil eg þú vitnir med snild og alvöru-
géfni, svo að þeir, sem tekid hafa
trúna á Gud, megi ástunda ad taka
öllum frami í gódum verkum. Þetta
og þvílíkt er mönnum gott og
9. nytsamt. En heimskulegar spurn-
íngar og ættar-tölur og þráttanir
og lagadeilur, fordast þú, því þær eru
10. óþarfar og hégómlegar. Hafir þú
nockrumsinnum áminnt hann, sem
stipta vill flocka-drætti, þá fordast
11. hann; því þú veitst, ad þvílíkur mad-
ur hefir rángsnúid sinnislag, og synd-
gar, jafnvel þó hans samvitska for-
12. dæmi hann. Þegar eg sendi **Arte-
mas** eda **Tychicus** til þín, bid eg
þig kosta kapps um ad koma á fund
minn í **Nicópolis**; því þar hef eg
afrádid ad dvelja um vetrar-tímann.
13. Sjádu hid besta til, ad **Zenas**, hinn
lögspaki, og **Appolló** fái hvad þeir
þurfa á ad halda til ferdar sinnar
14. svo þeir þarfnist einkis. Ockar mön-
num ber einninn læra ad gjöra sig
nafnfræga af gódum verkum, í til-
liti

liti til naudsynlegrar þénustusemi,
svo ad þeir séu ecki, sem ávaxtarlaus
tré. Allir þeir, sem hjá mér eru, 15.
bidja ad heilsa þér; heilsa þeim, sem
elska oss trúarbragdanna vegna! nád
sé med ydur øllum! Amen.

# 4da Sunnudag i Adventu.

## Adal-hugleiding.

Skírarinn Jóhannes var af Gudi sendur til ad boda Endurlausnarans komu, sem eptir fyrirheitinu átti ad vidrétta syndugar manneskjur úr þeirra spillingu.

## Fyrsti Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Almáttugur og alvís Gud kémur hvørri sinni ályktun svo vel til vegar, ad hvørr skynsamur gétur sied hans stjórnandi

hønd og lofad hann med huggunar-ríku trúnadar-trausti.

1.) Skirarans fodur Zachariasi er fyrirsagt, ad honum skuli fædast sonur, sem Guds rádstafan hafi álydtad ad greida skuli gotu heimsins Frelsara.

Lúc. Gudsp. 1 Kap. v. 1-25.

1. Þar ed margir hafa tekid sér fyrir hendur ad skrifa um þá tilburdi, sem med fullvissu vidurkénnast ad vor á
2. medal skéd hafi, allt eptir því, sem þeir hafa siálfir sagt oss frá, sem í øndverdu vóru sjónar-vottar, og ordn-
3. ir eru þénarar ordsins. Hefir mér einninn litist, minn edla Theóphilus! ad skrifa þér samstæda fráføgu um þetta, med því eg hefi hid gann-gjæfilegasta ransakad þad allt frá
4. upphafi, svo þú gétur skilid þann rétta grundvøll á hvørjum lærdómurinn stendur, frá hvørjum þér hefir munn-
5. lega sagt verid. Á døgum Heródis, Konúngsins yfir Gydínga-landi, var Prestur nockurr af skipti Abiæ, Zacharias ad nafni, húsfreja hans var af Aarons ætt, og hét Elizabeth;
6. bædi vóru þau rádvønd fyrir Gudi,

og lifdu ólastanlegu líferni, eptir øll-
um bodum og skipunum Drottins;
Þau áttu þó engin børn, því Elíza- 7.
beth var óbyrja, og þaradauk vóru
þau bædi nærsta hnigin á efra aldur.
En svo bar til, þá hañ þjónadi Prests- 8.
embættinu, eptir red hans skiptis,
fyrir augliti Drottins (í Jerúsalem,
hvar musterid var), ad honum bar ept- 9.
ir hlutfalli, ad sid kénnidóms stétt-
arinnar, ad gánga inn í sjálft musteri
Drottins, og kinda reykélsi. A med- 10.
an stód allur mannsøfnudurinn úti
fyrir og gjørdi bæn sína um reykélsis-
tímann. en engill Drottins lét sjá 11.
sig og stód vid hægri sídu reykelsis-
altarisins; En, sem Zacharias leit 12.
hann, hnickti hønum vid, og ótta sló
ad honum; en engillinn sagdi vid 13.
hann: óttast þú ecki, Zacharías! því
þú ert bænheyrdur, og þín húsfreja
Elízabeth skal fæda þér son; og þú
skalt nefna hann Jóhannes. Þú 14.
skalt gledi hljóta, og mikinn føgnud;
og margir munu gledjast yfir hans
fædíngu. Í augliti Drottins skal 15.
hann mikill verda! vín og áfengann
dryck skal hann ecki drecka; frá mód-

urlífi skal hann fyllast heilögum
16. Anda; *) og mörgum af Israels
börnum mun hann snúa til Drott-
17. ins Herra Guds. En hann sjálfur
mun framgánga fyrir honum í anda
og krapti Elía, svo hann mun apt-
ur innleida hjá börnunum sinnislag
forfedraña, og snúa þeim þverbrotnu
aptur til þess sinnislags, sem and-
syndi sig fordum daga hjá þeim rétt-
skickudu, og þanninn mun hann til-
reida fólk, sem vel vandad finnst fyr-
18. ir Drottni. Zacharías spurdi eng-
ilinn: hvad skal láta mig gánga úr
skugga um þetta? því gamall er eg,
og mín húsfreja er nærsta öldrud.
19. Engillinn svaradi og sagdi honum:
eg er Gabríel, sem stend frammi
fyrir Guds augliti, og er sendur til
ad tala vid þig, og ad birta þér þeñ-
20. ann góda bodskap. En sjá! þú skalt
mállaus verda, og ecki fá talad, allt
á þann

*) Engillinn meinti: ad hann yrdi útbúinn af Gudi med meir enn almennilegum sálar-kröptum, eda miklum náttúru-gáfum, sem strax á barn-æsku skeidi mundu láta sig í ljósi, til sanninda-merkis um, ad hann væri í Guds rádi útvalinn til ad útrjetta þad, sem mikid væri í varid.

á þann dag, er þetta skédur; vegna
þess þú vildir ei trúa ordum mínum,
sem þó á sínum tíma rætast skulu.
21. A medan beid fólkid eptir Zachari-
asi, og furdadi sig á ad hann dvaldi
22. svo lengi í musterinu. En, sem hañ
kom út, gat hann ei vid þá talad;
því rédu þeir ad hann hefdi sýn
nockra sjed í musterinu, en hann
bendti þeim, og vard framvegis mál-
23. laus. Eptirá, þegar sá tími var
umlidinn, á hvørjum hann þjóna
átti embætti sínu, bar svo til, ad hañ
24. fór heim til sín. En ad þeim tíma
lidnum vard hans húsfreja Eliza-
beth þúngud, og héldt sig heima um
25. fimm mánudi, og sagdi: svona fórst
Drottni vid mig, þegar hann vildi
mig álíta, til ad burttaka mitt álas
manna á milli.

2.) Skirarans fáheyrdu fædíngar kríngum-
stædur, sanna ljóslega, ad Gud hafi ætlad
hann til mikils og vigtugs erindis.

Lúc. Gudsp. 1 Kap. v. 57 - 80.

57. Þá kom sá tími, á hvørjum Eliza-
beth fæda skyldi, og fæddi hún son;
58. en þá nágrannar hennar og ættíngjar

heyrdu, ad Drottinn hafdi audsýnt
henni þessa miklu miskunsemi, sam-
59. glöddust þeir henni. En svo bar til
ad þeir komu saman hinn áttunda
dag, til þess ad umskéra barnid, og
þeir ætludu ad nefna það Zacharías,
60. eptir nafni födur síns. Þá ansadi
módir hans til, og sagdi: enganveg-
inn! en Jóhannes skal hann heita.
61. Þeir sögdu vid hana: enginn er þó
62. í ætt þinni, sem svo heitir! og nú
bendtu þeir födur hans (ad hann skyldi
gésa til kynna) hvad hann vildi hann
63. skyldi nefnast? þá bad hann um spjald,
og skrifadi þessi ord: **Jóhannes
er hans nafn!** og alla furdadi
64. nærsta á þessu. Í sama bili upp-
laukst hans munnur, og hans túnga
losnadi, svo ad hann taladi og lofadi
65. Gud. En hrædslu sló ad öllum, sem
bjuggu í grend vid þau, og allt þetta
mál-efni spurdist um alla fjallbygd-
66. ina í Júda-landi. Hvörr madur,
sem það heyrdi, setti það á sig, og
sagdi: hvad mun þá verda úr þessu
barni? hönd Drottins var og med
67. honum. En Zacharías fadir
hans fylltist af heilögum Anda,
(i sál-

(í sáluñi frá sér numiñ, til hárra fminndana,)
og spádi og sagdi: Háleitlega veri 68.
lofadur Israels Gud! því hann leit
í nád sinni til folks síns, og afrekadi
því frelsi. Oss hefir hann uppvakid 69.
voldugann verndara í húsi Davíds
þénara síns; allt eins og hann lofadi 70.
frá øndverdu fyrir muñ sinna heilögu
spámanna: Frelsi frá óvinum vor- 71.
um og frá yfirgángi allra, sem oss
hata; til ad audsýna miskunsemina 72.
vid fedur vora, og minnast síns hei-
laga sáttmála, eptir þeim eidi, sem 73.
hann sór fødur vorum Abraham;
med því hann vill veita oss þá nád, 74.
ad vér frelsadir frá ofríki óvina vorra,
megum þjóna honum án ótta, í hei- 75.
lagleika og réttlæti fyrir hans aug-
liti, alla vora lífdaga. Og þú, mitt 76.
litla barn! munt kalladur verda spá-
madur hins hæsta; því þú munt
framgánga fyrir Drottins augliti til
ad greida honum veg, og géfa hans 77.
fólki þekkíngu á frelsi til þess synda
fyrirgéfníngar. Allt eptir Guds 78.
hjartgróíñi miskunsemi, vegna hvorr-
ar hin upprennandi sól (Messías)
lætur oss sjá sig, til ad lýsa þeim, 79.

sem í myrkri og ógnarlegri dymmu
búa, og til ad leidbeina oss á veg
80. fridarins. En barnid vóx og þrosk-
adist í anda-krápti, og var á eydi-
mørku þángad til hann géck fram
fyrir Israel.

3.) Í Skírarans fædíngu uppfylltist, hvad Gud ádur lofad hafdi, ad upprísa skyldi spá-madur svo vandlætingasamur og kroptugur, sem Elias var fordum daga, hvørr og boda skyldi Endurlausnarans híngadkomu, þá ad þeim tíma var komid, og jafnframt vara vid því, ad Guds straff kiæmi yfir þá, sem áfram héldu í forherdíngu.

Malach. Spám. 3 Kap. v. 1-4.

1. Sjá! eg sendi minn útsendara (segir Drottinn) ad hann tilbúi mér veg, og skjótlega mun hann þá koma til síns musteris, sá Drottinn, sem þér óskid eptir, sá sáttmálans engill, (Guds fyrirheitni sendibódi) eptir hvørjum þér þráid: sjá! hann kémur! það
2. segir Drottinn herskaranna. En hvørr mun standast dag hans til-komu? hvørr mun standast þegar hann sýnir sig? því svo sem eldur, sem gull reynist med, svo sem lútar-salt til hreinsunar, svo er hann!

Hann

Hann mun sitja og bræda og sylfrid 3
hreinsa: fága og hreinsa mun hann
Levi syni svo sem gull og sylfur;
þá munu þeir fórnfæra Drottni, sem
verdugt er. Gédfeldt skal Drottni 4.
þá vera Júdæ og Jerúsalems off-
ur, svo sem í fyrndinni, á þeim ár-
um, sem fyrir laungu umlidin eru.

Malach. Spám. 4 Kap. v. 1-6.

Sjá! dagurinn kémur, brennandi, 1.
svo sem kindtur ofn! allir hinir
hofmódugu, og allir ógudlegir, munu
verda sem hálm-strá. Komandi dag-
urinn mun qveikja í þeim, svo hvorki
rót né greinir eptir verdi, segir Drott-
inn herskaranna. En ydur, sem 2.
mitt nafn óttist, skal upprenna sól
réttlætisins; heill er undir hennar
vængjum (geislum), þá munud þér
framgánga, sem feitir kálfar, og
bregda á leik (af gledi). Þá munud 3.
þér fóttroda hina ógudlegu, því þeir
munu verda svo sem dupt undir yd-
ar fótum á þeim degi, sem eg tilbý,
segir Drottinn herskaranna. Minn- 4.
ist laga míns þénara Mósis, sem
eg gaf honum á fjallinu Horeb fyr-

ir

ir öllum Israel, einninn hans boda
5. og tilskipana. Sjá! eg sendi ydur
Spámanninn Elías, ádur enn sá
mikli og skélfilegi dagur Drottins
6. kémur. Hann mun innleida sinnis-
lag forfedranna aptur hjá afkom-
endunum og (laga) afkomendanna
lunderni eptir forfedranna, svo ad
eg komi ei loksins, og láti þad bann
koma yfir landid, sem ei verdi apt-
urtekid.

## Annar Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Eins og Skírarinn Jóhannes, fremur
hvorr trúr Guds þénari med hreinskilni
sitt embætti, án þess ad láta sér hug-
fallast, og heldur vid sannleikann, trú-
lega allt fram í andlátid.

1.) Jóhannes leggur mjög ad Gydíngum, ad láta af þeirra gudleysi, og skyldar þá med skírninni til ad veita betri trú vidtoku, í hvorri Messias, sem von væri á, skyldi uppfræda þá.

Lúc. Gudsp. 3. Kap. v. 1-18.

1. A fimtánda ári ríkis-stjórnar Ti-
beríi Keisara, þegar hinn pontverski
Pí-

Pílatus var Landshøfdíngi í Júda-
landi, og Heródes (Antipas) Fjórd-
úngs-høfdíngi í Galilæa, og bródir
hans Philippus Fjórdúngs-høfd-
íngi í Itúræa og laudinu Tracho-
nitis, og í Abílene, sem tilheyrt
hafdi Lysanias, en Annas og 2.
Kaíphas vóru yppurstu Prestar,
(hinn fyrri ad nafninu, hvørju hann héldt,
eptir þad hann affettur var, og hinn síd-
ari í raun og veru,) þá kom Guds
skipan til Jóhannesar Zacharíass
sonar í eydimørkinni; Og hann 3.
ferdadist um kríng í øllu lands-pláts-
inu hjá Jórdan og kénndi opinber-
lega, ad menn skyldu snúast og láta
skíra sig, til ad ødlast syndanna fyr-
irgéfníngu. Eins og skrifad stendur 4.
í rædu-safni Esajæ Spámanns,
hvar hann svo adqvedur: hrópand- 5.
ans rødd heyrist í eydimørkinni: ryd-
jid Drottni veg, og sléttid stígina
handa honum, sérhvørr dalur hlýt-
ur ad fyllast upp, hvørt fjall og hvør
hæd ad jafnast, hvad bogid er verd-
ur ad réttast og hid slitrótta ad slétt-
ast: Og þá skulu allir daudlegir fá 6.
ad sjá heillína frá Gudi komna,
7.

7. (Es. 40, 3-5) En hann sagdi vid
þann múga manna, sem komu hóp-
um saman út til hans til ad láta
hann skíra sig: þér nødru-úngar!
hvørr kénndi ydur ad umflýja yfir-
8. hángandi hegníngar-dóm? Berid þá
þesskonar áverti, sem endurbót
heyra! en komid ecki til ad stóla upp-
á í hugaunum: Abraham er vor fad-
ir! því eg segi ydur fyrir víst: ad
Gud gétur uppvakid Abraham børn
9. af þessum steinum. Héradauki er
øxin þegar sett til rótar trjánna:
hvørt þad tré, sem ecki ber gódann
ávøxt, verdur þess vegna upphøgg-
10. vid og í eld kastad. Þá spurdi mañ-
søfnudurinn hann og sagdi: hvad
11. egum vér þá ad gjøra? Hann svar-
adi og sagdi þeim: hvørr, sem á tvo
kyrtla, skipti á milli sín og þess, sem
engann hefir; og hvørr, sem mat-
12. faung hefir gjøri hid sama! Þáng-
ad komu og Tollheimtu-menn, til
ad láta sig skíra, og þeir spurdu hañ:
Meistari! hvad egum vér ad gjøra?
13. hann svaradi þeim: krefjist einkis
fram yfir þad, sem ydur er bodid.
14. Herlidid, sem géck út í stríd, kom eiñ-
inn

inn til hans, og sagdi: en vér? hvad egum vér ad gjøra? hann svaradi: hvorki med ofbeldi né vélum megid þér útkúga fé af nockrum, en þér egid ad vera ánægdir med ydar verdkaup.
En, sem fólkid vænti eptir og allir 15.
gjørdu sér í hugarlund, um Jóhannes, ad hann máské kynni ad vera Messías, svaradi Jóhannes og sagdi þeim øllum: Eg skíri ydur med 16.
vatni; en hér kémur sá, sem voldugri er enn eg, hvørs skó-þveingi (reimar, sem sólarnir eru bundnir med undir fæturnar) eg er ei verdugur ad leysa, hann mun skíra ydur med heiløgum Anda (med því ad veita hans ástgjafir,) edur med eldi (med því ad senda hegníngar-dóma)
Kast-skófluna hefir hann sér í hendi, 17.
og hann mun hreinsa kornid á sínu þreskíngar-plátsi, sídan mun hañ samansafna hveitinu í sitt byrgda-hús, en stráin brenna í óslóckvanlegum eldi.
Héradauk gaf hann margar adrar 18.
áminníngar, og prédikadi fólkinu Evangelíum. (Matth. 3, 1-12. Marc. 1, 1-8.

2.) Þad, sem Jóhannes sagdi um Messías, sem koma skyldi, var laungu ádur fyrisagt, allt eins og þad nú uppfylltist. Es.

Es. 40. Kap. v. 1-11.

1. Huggid, huggid mitt fólk, segir yd-
2. ar Gud. Hughreystid Jerúsalem,
og hrópid til hennar, ad hennar þján-
íngu sé lokid, ad hennar søk sé afplán-
ud, ad hún medtaka skuli af Guds
hendi tvøfalda miskun vid allt henn-
3. ar synda-straff. Hrópandans rødd
heyrist í eydimørkinni: rydjid Drottni
veg! sléttid stig Gudi vorum í ó-
4. bygdinni! Hækkist upp hvørr dal-
ur! hvørt fjall, hvør hæd verdur ad
lækkast! þad bogna skal réttast, og
5. þad slitrótta verda sem slotur! Þvi
dýrd Drottins mun auglýsa sig, og
allir daudlegir munu sjá hana til
samans: Drottins munnur bodar
6. þetta! Ein røddin býdur: prédika
þú! eg svaradi: hvad á eg ad prédika?
Allir daudlegir eru svo sem gras,
og øll þeirra vegsemd, sem blómstrid
7. á mørkinni: Grasid skrælnar, blómstr-
id visnar, þegar vindur frá Drottni
blæs yfir þad. Vissulega er þetta
8. fólk ecki annad enn gras. Grasid
skrælist, blómstrid visnar, en ord
vors Guds stendur eilífglega stødugt.
9. Stíg þú uppá hátt fjall, þú, sem hef-
ir

ír gledi-tídindi ad boda Zíon! upp-
hef af ollu megni rødd þína, þú, sem
átt ad flytja Jerúsalem þann góda
bodskap! upphef þína rødd! vert ecki
hræddur! seig Júdæ borgum: sjáid!
ydar Gud er hér! sjá Jehóvah, 10.
Drottinn kémur med veldi, og hans
armleggur drottnar. Sjáid! hann
hefir launin hjá sér, og hans verd-
laun gánga á undan honum; hann 11.
mun fódra hjørd sína, sem hyrdir, og
taka lømbin sér í fáng og bera þau
á brjósti, og leida hægt lamb-ærnar.

3.) Jóhannes varar alvarléga vid ollum
hneixlunum, án manngreinar-álits, og verdur
loks sórn fyrir þá ráðvendni hann í ljósi lét.

Marc. Gudsp. 6. Kap. v. 17-29.

Heródes (Antipas) hafdi sjálfur 17.
sendt út, og látid handtaka Jóhann-
es, og varpa í fángelsi sokum He-
rodíass', sem var kona Philipp-
usar bródur hans, þar ed hañ engu
ad sídur tók hana til ekta. Því Jó- 18.
hannes hafdi sagt vid Heródes:
þér er ecki leyfilegt ad eiga bródur-
konu þína. Þess vegna sat Heró- 19.
días um líf hans, og vildi ráda hañ

af døgum, en gat þó ei komid því
20. til vegar; því Heródes virdti Jó-
hannes, því hann vissi ad hann var
rádvandur madur og dygdugur, og
þess vegna héldt hann í hond med
honum, og breytti í morgu eptir hans
21. ordum, og heyrdi hann fúslega. Nú
kom hentugur dagur (fyrir Heródías),
því Heródes gjørdi géstabod sínum
høfdíngjum, Lids-foríngjum og merk-
is-mønnum í Galílæa á sinni fæd-
22. íngar-hátíd; því þegar dóttir sjálfrar
Heródíasar kom inn, dansadi og
gédjadist Heródi og géstum hans,
sagdi Kóngurinn vid stúlku þessa:
bid mig hvørs þú vilt, og skal eg
23. veita þér þad. Sídan vann hann
henni eid: hvad, sem þú umbidur,
skal eg veita þér, og þó þad væri
24. mitt hálfa Kóngs-ríki. Þá géck hún
út, og spurdi modur sína: um hvad
á eg ad bidja? hún svaradi: um høf-
25. ud Jóhannesar Skírara. Hún flýtti
sér strax inn til Kóngsins aptur, bad
og sagdi: eg vil ad þú látir strax
færa mér Skírarans Jóhannesar
26. høfud á fati. Ad sønnu vard nú
Kóngurinn hriggur, en vegna eids
síns,

síns og géstanna, vildi hann ecki af-
segja henni. Kóngurinn sendi þá 27.
strax einn af sínum líf-voktunum,
og bauð honum að færa sér Jóhann-
esar höfuð. Svo fór þessi og háls- 28.
hjó hann í fángelsinu, og kom með
höfuð hans fram á fati og afhendti
stúlkunni, en hún gaf það aptur móð-
ur sinni. En, sem hans lærisveinar 29.
spurðu þetta, komu þeir og sóktu
hans líkama, og lögðu hann í gröf.

## Þridji Argángur.

### Höfuð-lærdómur.

Sklrarinn hefir kénnt oss með sínu dæmi, að eginn heiður og ábati egi að met-ast minna enn trúfesti sú og hreinskilni, sem vort embætti útheimtir.

1.) Jóhannes þoldi ecki, að menn álitu hann sjálfann að vera Messías, en vísaði ein-úng og sérhvörjum til Jesú úr Nazareth, sem hins sanna heimsins Frelsara, hvörn Guð hafði kjörið.

Jóh. Guðsp. 1 Kap. v. 19 36.

Þessi er sá vitnisburður, sem Jó- 19.
hannes bar, þegar Gydíngarnir

sendit frá Jerúsalem Presta og Le-
20. vita, ad þeir spyrdu hann: hvørr
ert þú? hann vidurkenndi þá, en
neitadi ecki, heldur játadi: eg er
21. ecki Messias. Þeir spurdu hann:
hvad þá? ertú Elías? hañ svar-
adi: nei! ecki er eg hann. Ertú spá-
22. madurinn? hañ svaradi: nei. Þeir
søgdu þá vid hann: hvørr ert þú?
svo vér megum svara þeim, er sendu
oss; hvad segir þú um sjálfañ þig?
23. Hann sagdi: eg er sá hrópandi, sem
lætur sína rødd heyra í eydimørku,
sléttid Drottni veg, svo sem Esajas
24. spámadur sagdi (Es. 40, 3.) En þeir
25. útsendu, vóru, Pharísæarar. Þá
spurdu þeir hann ad og søgdu: því
skírir þú þá, ef þú ert ecki Messías,
ecki heldur Elías, og ecki spámad-
26. urinn? Jóhannes svaradi þeim og
sagdi: eg skíri med vatni; en einn
stendur midt á medal ydar, hvørn
27. þér þeckid ecki. Hann er sá, sem ept-
ir mig kémur, en var þó á undan mér,
ecki er eg verdugur hans skó-þvengi
28. ad leysa. Þetta var til í Betanía,
hinumegin Jórdanar, hvar Jó-
29. hannes skírdi. Ad morgni sier Jó-
hann-

hannes Jesúm koma til sín, og segir þá: sjáid! þad Guds lamb, sem ber veraldarinnar syndir (eins og menn smindudu sér, ad sok þess Gydings, sem offradi, væri varpad uppá dýrid, hvorju hann sórnfærdi til forlikunar-offurs fyrir syndir sínar, svo skulu nú afbrot allrar veraldar fridþægjast med Jesú sórnfæríngu, sem í Guds rádi var þar til valin.)
Hann er sá, um hvorn eg sagdi: 30.
madur kémur eptir mig, sem þó var
fyrir mig, því hann var ádur enn
eg. Eg þeckti hann ecki heldur, (ad 31.
hann væri Messias). Enn eg er kominn til ad skíra med vatni, svo hann
kunni verdi fyrir Jsrael. Fram- 32.
ar vitnadi Jóhannes og sagdi: eg
sá andann nidurstíga frá himni svo
sem dúfu, og nema stadar yfir honum. Sjálfur eg þeckti hann ecki, 33.
(þad er ad skilja, ad hann væri Messias)
en sá, sem sendi mig til ad skíra med vatni, hann sagdi mér: sá, sem þú sér andann nidurstígandi stadnæmast yfir, hann er sá, sem skírir med heilögum Anda. Og þetta hef eg 34.
séd, og eg vitna, ad þessi er Guds
Sonur. Daginn eptir stód Jóhann-

es aptur (í sama stad,) med tveimur
36. af sínum lærisveinum. En þegar
hann sá, ad Jesús géck þar, sagdi
hann: sjáid! þad lambid Guds!

a.) Menn reyndu forgéfins til, ad uppæsa Jóhannes til ofundar og bræði yfir því mikla áliti, sem Jesús ávann sér.

Jóh. Gudsp. 3 Kap. v. 22-36.

22. Þar eptir kom Jesús og hans læri-
sveinar í lands-plátsid Júdæa, hvar
hann dvaldi ásamt þeim nockra stund
23. og skírdi. En Jóhañes skírdi og svo
í Ænon, nærri Salem, hvar mikid
vatn var, og menn komu þángad og
24. létu sig skíra; Því þá var enn ecki
búid ad varpa Jóhannesi í fángelsi.
25. En þá kom þráttan milli Jóhann-
esar lærisveina og Gydínganna á-
hrærandi hreinsunina (med skírninni).
26. Því gengu þeir til Jóhannesar, og
sögdu vid hann: Meistari! sá sem
var hjá þér hinumegin Jórdanar,
um hvörn þú vitnadir, sjá! hann
skírir, og hvörr madur kémur til
27. hans. En Jóhannes svaradi og
sagdi: enginn má taka þvíumlíkt
fyrir sig, nema honum sé þad af
himni

himni á hendur falid.' Þér gétid 28.
sjálfir borid mér vitni, ad eg sagdi:
eg er ecki Messías, en eg er sendur
á undan honum. Sá, sem á brúd- 29.
urina, er brúdguminn; en vinur brúd-
gumans, sem stendur og hlustar á
hann, gledur sig mjøg yfir brúdgum-
ans røddu; og þessi mín gledi er nú
fullkomnud. Honum ber ad vara, 30.
en mér þar á mót ad rírna. Sá, 31.
sem kémur hér ofanad, er lángtum
ædri øllum; en sá, sem kémur frá
jørdu (hefir jardneskann uppruna), er
jardneskur og hans ord eru jardnesk;
lángt ædri øllum, er sá, sem kémur
af himni. Og hann vitnar um þad, 32.
sem hann heyrt og séd hefir: og þó
trúir enginn hans vitnisburdi. Hvørr, 33.
sem tekur hans vitnisburd trúanleg-
ann, sannar undir eins, ad Gud sé
sannsøgull; Því sá, sem Gud útsendt 34.
hefir, bodar sjálfs Guds skipanir, og
Gud hefir veitt honum andans gáf-
ur, ecki eptir vissri (takmarkadri) mæl-
íngu. Fadirinn elskar Soninn, og 35.
hefir géfid honum allt í hendur.
Hvørr, sem trúir á Soninn, fær ei- 36.
lífst líf til eignar, en hvørr, sem þar

á móti trúir ecki Syninum, mun
ei siá lífid, en Guds hegníngar-
dómur verdur framvegis yfir honum.

3.) Sjálfur Jesús hefir stadfest Skrifarans
trúverdugleika, og sannad, ad rádvendni hans
var hafin upp yfir alla tortryggni og efasemd.

Matth. Gudsp. 11 Kap. v. 2-15.

2. En þegar Jóhannes í fángelsinu,
heyrdi hvad Jesús gjørdi, sendi hann
tvo af sínum lærisveinum, og lét
3. spyrja hann ad: ertú sá, sem koma
skal, eda megum vér vænta nockurs
4. annars?*) Jesús svaradi og sagdi
þeim: farid burt, og segid Jóhann-
5. esi hvad þér heyrid og sjáid! Blind-
ir fá sjónina aptur, og haltir gánga;
lík-þráir hreinsast og daufir fá heyrn
sína;

*) Til ad gjeta, hafa Jóhannesar lærisveinar, látid á sjer skiljast, ad þeir traudlega gjætu full-trúa verid um, ad Jesús af Nazareth væri hinn sanni Messias; máskje þess vegna, ad þeim þókti hann ei skipta sjer neitt af hans edal-lundada vini, þeirra Læri-meistara, sem nú ør-magnadist í fángelsi; en Jóhannes, sem vissi fyrir víst, ad Jesús best gat leidt þá úr skugga hjer um, sendi þá á hans fund, og ljet þá, ecki sín sjálfs, heldur þeirra vegna, spyrja hann hjer um, og þeir fengu strax andsvar, sem ad fullu sann-færdi þá.

sína; daudir uppvekjast, og volud-
um er Evangelíum prédikad; En 6.
sæll er sá, sem ecki hneixlast á mér.
Eu, sem þeir gengu burt, hóf Jesús 7.
ad tala til fólksins um Jóhannes:
hvád gengud þér út á eydimørku ad
sjá? reyr, sem vindurinn skékur til
og frá? Eda hvad gengud þér út til 8.
ad sjá? mann, klæddann fínum klæd-
um? sjáid! þeir ed bera fín klædi,
eru í Kónga-húsum. Eda hvad geng- 9.
ud þér út til ad sjá? spámann! vissu-
lega, eg segi ydur satt, meira mátti
þar sjá enn spámann; Því hann er 10.
sá, um hvørn skrifad er: sjá! eg sendi
minn sendi-svein á undan þér, sem
greida skal þinn veg (Malach. 3, 1.)
Eg segi ydur fyrir víst og satt: á 11.
medal þeirra, sem af qvinnum eru
fæddir, er enginn uppkominn, sem
meiri sé, enn Skírarinn Jóhannes;
engu ad sídur er sá minnsti í himna-
ríki honum meiri, (hinn kristni, þó hann
sé sá sásródasti, mun þó hafa ljósari og
ávaxtarsamari þeckingu, enn Skírarinn
gétur nú hast). En frá Jóhannesar 12.
Skírara døguin allt híngad til, hafa
menn átt rád á himnaríki, og krøpt-

uglega taka menn þad til sín (Messíæ
ríki er þegar birjad og fer dagvoxtum.)
13. Allir spámenn og løgmálid, hafa
bodad nockud, sem koma skyldi allt
til Jóhannesar (sem þar á móti bod-
adi, ad Messías, sem koma skyldi, væri nú
14. nálægur.) Og ef þér viljid mér trúa,
þá er enginn annar enn hann sá Æ-
15. lías, sem koma átti: Hvørr, sem
eyru hefir til ad heyra med, sá heyri!

# Fyrsta Dag Jóla.

## Adal-hugleiding.

Guds eingétni Sonur, Jesús Kristur, sem náqvæmlegast var sameinadur sínum himneska Fødur, ádur enn verøldin vard til, tók uppá sig mannlega náttúru, á þeim tíma, sem fyrirheitin áqvordudu, og kom til jardarinnar svo sem madur, med undrunarverdum hætti, med því ad fædast af Maríu Jómfrú.

Fyrsti

# Fyrsti Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Jesús Kristur, Guds eingétinn Sonur, var náqvæmlegast sameinadur sínum himneska Fødur, ádur enn hann vard madur manneskjunum til frelsis og farsældar.

1.) Adur enn veroldin vard til, var Guds eingétni Sonur hjá sínum himneska Fødur, og af honum eru allir hlutir skapadir, líka ályktadi hann eptir Fødursins rádstøfun, ad gjørast madur, til ad reisa hid fallna mannkyn á fætur úr þess spillingu.

Jóh. Gudsp. 1 Kap. v. 1-18.

Í upphafi var ordid (Kristur, sem flutti I.
oss ord Fødursins, eda útlaadi Fødursins
rádstøfun), og ordid var hjá Gudi, og
ordid var Gud. Þad var í upphafi 2.
hjá Gudi; vegna þessa (ords) eru allir
hlutir til ordnir. Og án þess er alls 3.
ekkért til ordid, af øllu því, sem skapad
er. Í þessu ordi var lífid (kraptur 4.
og framqvæmd til ad útbreida farsæld), og lífid var ljós mannanna
(ad leida þá til frelsis). Og ljósid skein 5.
í myrkrinu (hjá þeim sáfródu) og myrkr-

6. id greip þad ecki. Madur nockurr,
var sendur af Gudi, Jóhannes ad
7. nafni. Hann kom til ad bera vitn-
isburd, því hann átti ad vitna um
ljósid, svo allir mættu fyrir hann
8. fulltrúa verda. Ecki var hann sjálf-
ur ljósid, en hann kom til ad bera
9. vitni um ljósid: Nú var hid sanna
ljós, sem upplýsir alla menn, í heim-
10. inn komid. Pad var í verøldinni,
og verøldin er af því skøpud, en ver-
11. øldin vidurkénndi þad ecki: Hann
kom til sinnar eignar, en hans egin-
12. legu veittu honum ecki vidtøku. En
þar á móti, svo margir, sem hann
medtóku, þeim gaf hann rétt til ad
verda Guds børn, sem þeim er á
13. hans nafn trúa, hvørjir ei eru nátt-
úrlega fæddir, eda á líkamlegañ hátt,
edur ad mannlegum vilja, heldur af
14. Gudi. Og ordid (Kristur, Fødursins
túlkur) vard madur, og tók sér bók-
festu á medal vor, og vér sáum hans
dýrd, þá dýrd, sem ber Fødursins
eingétna Syni, og hann var fullur
nádar og sannleika (hann útbreiddi yf-
15. irgnæfanlega nádar-ríka kénníngu). Jó-
hannes vitnadi um hann, lét heyra
sína

sína roddu og sagdi: hann er þad,
um hvorn eg sagdi: sá, sem kémur
eptir mig var fyrr enn eg, því hann
var til, ádur enn eg; Og af hans 16.
fyllingu høfum vér allir hlotid nád
á nád ofan; Því fyrir Móses er 17.
løgmál géfid, en fyrir Krist er nád-
ar-ríkur lærdómur kominn. Eng- 18.
inn hefir nockrusinni séd Gud, en
hann, sá eingétni Sonur, sem er í
Fødursins skauti (sem er honum hjart-
kjær, og hans full-trúi), hefir kunngjørt
oss þad.

2.) Sonurinn, sem vard madur, til ad end-
urleysa syndugа menn, er hátt upphafinn yfir
þá yppurstu anda, hluttakandi med sínum
himneska Fødur í guddómlegum mætti og veg-
semd.

Páls Sendi-brjef til Ebr. 1 Kap. v. 1-14.

Þegar Gud optsinnis, og á marg- 1.
víslegann hátt hafdi fordum daga
talad vid fedur vora fyrir spámenn-
ina, þá taladi hann á þessum sídustu
døgum vid oss, fyrir Soninn, fyrir 2.
hann, hvorn hann setti til ad drottna
yfir øllu, og med hvørjum hann til-
bjó verøldina. Þessi (Sonur), sem 3.
er ljómi hans dýrdar, og rétt ímind
hans

hans veru, þar ed hann og vidheldur øllum hlutum, med sínum máttuga vilja, hefir setst hjá hátignarinnar hœgri hendi í hœdinni, eptir þad hann med sjálfum sér hafdi útvegad oss hreinsun af vorum syndum, og er svo ordinn þeim mun veglegrt enn englarnir, sem hann hefir
4.
5. ædri tign enn þeir til ad bera. Því vid hvørn af englunum mun hann nockrusinni hafa sagt: þú ert Sonur minn, eg ól þig í dag. (Ps. 2, 7.) og enn aptur: eg skal vera honum fadir og hann skal vera mér sonur,
6. (2. Sam. 7, 14., 16.) En þegar hañ í ødrum stad lætur hann frumgétna koma (svo sem Róng) í verøldina, segir hann: allir Guds englar hljóta einninn ad tilbidja hann (Ps. 97, 7.)
7. Ad soñn qvedur svo ad, ad því leiti sem áhrærir englana: vindana gjørir hann sér ad englum, og eldslogana
8. sér ad þjónum, (Ps. 104, 4.) en hvad Soninn snertir, er þar á móti svo ad ordi komist: þinn veldis-stóll, o Gud! varir eilíflega: þín veldis-spíra, er réttvís veldis-sproti, réttlætid elskar þú, en hatar ránglindin.

Vegna

Vegna þess, o Gud! hefir þinn Gud 9.
smurt þig med olíu fagnadarins
fram-yfir þína medbrædur! (Ps 45,
7. 8.) Og í ødrum stad: þú, Drott- 10.
inn! grundvalladir jørdina frá ond-
verdu, og himnarnir eru verk þinna
handa: þau munu forgánga, en þú 11.
varir; øll munu þau fyrnast svo sem
klædi; þú munt vefja þau saman, 12.
svo sem kápu, og þau verda ad um-
breytast; en þú verdur hinn sami og
þín ár eru endalaus (Ps. 102, 26. 28)
Já! vid hvørn af englunum mun 13.
hann nockrusinni sagt hafa: set þig
vid mína hægri hønd, þángad til eg
legg þína óvini ad skør undir fótum
þér! (Ps. 110, 1.) eru þeir ei hvørr 14.
med ødrum þjónandi andar, sendir
þeim til þjónkunar, sem frelsast ega?

Páls Sendi-brjef til Ebr. 2 Kap. v. 1-4.

Þess vegna ber oss med því meiri 1.
athygli fastheldnum ad vera vid þann
lærdom, sem vér heyrt høfum, svo ad
vér hlaupum ecki á oss. Því sé sá 2.
lærdómur stadfestur, sem kunngjørd-
ur var einúngis af englunum (á Sínaí
fjalli) og hafi øll afbrot og óhlýdni

þar

þar á móti, fengid makleg gjøld;
3. hverſu munum vér þá fá umflúid,
ef vér ei géfum gaum ad ſvo mikilli
heill, ſem fyrſt er oſs af ſjálfum
Drottni bodud, og ſídan ſtadfeſt fyr-
ir oſs af þeim, ſem hann heyrdu;
4. þar ed Gud einninn bar þeim vitni,
med teiknum og furdu-verkum, og
margskonar ſjaldgjæfum verkum,
og med útbýtíngu heilags anda gáfna,
eptir hans vilja.

3.) Sem Endurlauſnara, tilheyrir Syninum
hinn hellſti eignar-réttur mannkynſins, og hann
hefir ad ſér tekid ad bera hina framgvæmdar-
ſomuſtu umønnun fyrir heilſum ſinna frelſingja.

Páls Sendi-brjef til Ebr. 2. Kap. v. 5-18.

5. Gud hefir ecki géfid englunum á
vald, þá húſs-ſtjórn, ſem ſídarmeir
koma ſkyldi (þegar Meſſias kjæmi í heim-
inn), nefnilega þá, ſem vér umtølum
6. hér. Hvert á móti hefir einn ritari
þannig vitnad, og ſagt: hvad er
manneſkjan, ad þú minniſt hennar,
eda manneſkjunnar Sonur ad þú
géfir ſvo náqvæmlega gaum ad hon-
7. um? Þú létſt hann ad eins verda
englunum litlu ódri, þú krýndir
hann

hann med dýrd og vegsemd! þú
gjørdir hann ad Herra yfir þínum
handa-verkum; alla hluti lagdir þú 8.
undir hans fætur! (Ps. 8, 5. 6.) En
þegar hann gjørir alla hluti honum
undirgéfna, lætur hann eckert eptir
verda, sem ei sé honum undirgéfid,
þó sjáum vér ecki enn þá, ad honum
sé allt undirgéfid (ad því leiti, sem mañ-
eskjunum yfir høfud viðvíkur). Þar á móti 9.
sjáum vér, ad sá Jesús er dýrd og veg-
semd krýndur, sem um stundarsakir
var gjørdur lítilmótlegri enn engl-
arnir, vegna þess hann átti daudañ
ad lída, svo ad hann þanninn, eptir
Guds náduga vilja, gjæti þolad
daudann fyrir alla. Því þad sam- 10.
hýdur hans dýrd, ad leida þann gégn-
um hørmúngarnar ad takmarki hins
ædsta fullkomlegleika, hvørs vegna
allt er til, og fyrir hvørn allt er ordid
til, hvørr mørg børn átti til himna-
ríkis ad leida og vera høfundur
þeirra farsældar. Sá, sem forlíkadi, 11.
og enir forlíkudu, eru og samegin-
lega af einni ætt-qvísl, (álitnir svo sem
manneskjur á bádar sídur); hvørs vegna
hann fyrirverdur sig ecki ad nefna þá

brædur sína, þegar hann kémst svo
12. ad ordi: Þitt nafn vil eg kunngjøra
brædrum mínum, og midt í søfn-
udinum vil eg gøfga þig, (Ps. 22, 23),
og annarstadar: eg vil fulltreysta
13. honum. Sídan qvedur aptur svo
ad: sjá! hér er eg, og þau børnin,
sem Gud hefir géfid mér, (Es. 8, 17. 18).
14. Þar ed nú þessi børn øll saman hafa
hold og blód, hefir hann einninn tek-
id hlutdeild í sama, svo hann med
dauda sínum fengi svipt þann vald-
inu, sem med daudanum hafdi yfir-
rád fengid, nefnilega: djøfullinn,
15. og þanninn frelsad þá, sem þrældómi
vóru undirorpnir, med ótta fyrir
16. daudanum um alla þeirra æfi. Því
hann hefir ecki tekid englana ad sér,
en Abrahams afqvæmi añast hañ.
17. Þess vegna hlaut hann ad líkjast
brædrum sínum í øllu, svo hañ gjæti
medaumkunarsamur verid, og trú-
verdugur Høfudprestur, í því, sem
útrétta átti þeim til handa hjá Gudi,
nefnilega: ad forlíka fyrir fólksins
18. syndir; og þar ed hañ nú sjálfur hefir
reynt hvad er, ad eiga bágt, gétur hañ
eiñiñ komid þeim til hjálpar, sem á
líkañ hátt reyndir verda. Annar

# Annar Argángur.

## Høfud-lærdómur.

Guds Sonur er med undrunarverdum hætti madur ordinn, med því ad fædast af saklausri og hreinni Jómfrú.

1.) Engill bodar Jómfrú Maríu, ad Gud hafi valid hana til ad vera módir ad Messías, hvors mannlega náttúra tilverknadarlaust tilbúast skuli af heilögum Anda.

Lúc. Gudsp. 1. Kap. v. 26 - 56.

A hinum sjøtta mánudi (eptir þad 26.
Zacharías fadir Skírarans hafdi ødlast
fyrirheitum, ad honum skyldi sonur fædast),
var Gabríel engill af Gudi sendur
til þess stadar í Galíløa, sem Na-
zareth hét, til meyju nockurrar, er 27.
trúlofud var þeim manni, sem Jó-
seph hét, af Davíds ætt, og meyjan
hét María. Þegar engillinn kom 28.
inn til hennar, sagdi hann: sæl vert
þú, hin nád-gjædda! Drottinn er
med þér; blessud ert þú, medal qvenn-
anna! en þegar hún leit hann, skélfd- 29.
ist hún af hans ordum, og þenkti med
sjálfri sér, hvílík þessi qvedja vera
mundi. Þá sagdi engillinn vid hana: 30.

vertú óhrædd, María! því þú fanst
31. náð hjá Gudi. Sjá! þú munt þúng-
ud verda, og son fæda: hann skalt
32. þú Jesús nefna, hann mun mikill
verda, og nefnast Sonur hins hærsta;
og Drottinn Gud mun géfa hönum
33. veldis-stól síns födurs Davíds. Ei-
líflega mun hann drottna yfir af-
sprengi Jacobs, og hans ríkis-stjórn
34. endalaus verda. Þá sagdi María
vid engilinn: hvørninn gétur þetta
skéd, þar eg hefi af engum manni ad
35. segja? Engillinn svaradi henni og
sagdi: heilagur Andi mun koma yf-
ir þig, og kraptur hins hærsta mun
yfirskyggja þig! þess vegna skal og
þetta heilaga fóstur Guds Sonur
36. nefnast. Sjádú! ad Elizabeth
frænd-kona þín er ordin ólétt ad ein-
um syni í elli sinni, og er nú komin á
sjøtta mánud, þó hún søgd væri ó-
37. byrja. Því enginn hlutur er Gudi
38. ómáttugur. Þá sagdi María: sjá!
eg er þjónustu-qvinna Drottins, ræt-
ist þá á mér þad, sem þú sagdir!
39. sídan veik engillinn frá henni. En
um þessa daga bjó María sig og
ferdadist skyndilega ad fjallbygdinni
til

til Júda-borgar, hvar hún géck inn 40.
í hús Zacharíasar og heilsadi Eli-
zabethu. En svo bar vid, ad undir- 41.
eins og Elízabeth heyrdi qvedju
Maríu, hrærdist fóstrid hastarlega í
hennar qvidi, og Elízabeth vard
full heilags Anda (af Andans tilstilli frá
sér numin til hárra hugleidínga); og tók 42.
med hárri røddu svo til orda: blessud
sértú, á medal qvennanna! og bless-
adur veri þíns lífs ávøxtur! En 43.
hvørninn veitist mér sú virdíng, ad
módir míns Herra kémur á minn
fund? Því svo var, ad þá rómur qved- 44.
ju þiñar kom mér til eyrna, brá fóstr-
id hastarlega vid af gledi í qvidi mín-
um. Sæl er sú, sem trúdi (tók 45.
mark á bodun engilsins), því rætast mun
þad, sem henni var af Drottni lofad.
Þá sagdi María: sála mín gøfgar 46.
Drottinn mikilega, og minn andi 47.
fagnar yfir Gudi, Frelsara mínum;
því hann leit í nád til hans audvirdi- 48.
legu þjónustu-qvinnu. Og sjá! héd-
anaf munu allar ættir mig sæla kalla.
Dásemdar-verk gjørdi hann á mér, 49.
hann, sá máttugi! hans nafn er hei-
lagt! hans miskun, sem er útbreidd 50.

frá kyni til kyns, yfir þeim, sem hañ
51. óttast. Styrkleika sins armleggs
hefir hann sýnt. Hann hneckti þeim,
sem hófu drambsöm ráða-brugg.
52. Þeim voldugu steypir hann úr þeirra
háa sessi, en hefur upp lítilmótlega.
53. Orlátlega útbýtir hann sínum gáf-
um, medal hinna þurfandi, en vís-
ar hinum ríku tómhendtum frá.
54. Sinn þjón Israel hefir hann ad sér
tekid, til ad minnast eilíflega misk-
55. unar sinnar vid Abraham og hans
afkomendur, eins og hañ fyrirhét vor-
56. um fedrum. En þegar María hafdi
hjá henni dvalid hér um þrjá mán-
udi, ferdadist hún heim aptur.

2.) Jóseph, sem trúlofadur var Jómfrú Maríu, sannfærist um, ad hún hafi ei brotid trygd, heldur hafi Gud sjálfkrafa komid því til vegar, ad hún yrdi módir ad Messías.

Matth. Gudsp. 1 Kap. v. 18-25.

18. Um Jésu Krísts fædíngu, fór þann-
iñ: á medan módir hans María var
Jóseph trúlofud, reyndist þad, ad
hún var þúngud, ádur enn þau kom-
ust í hjóna-band. Þad var skéd af
heilögum Anda, (sem eptir engilsins bod-
un

un til Maríu, skóp Jesú Krists mañdóm-
legu náttúru í móðurlífi, einúngis með
sinni almættis verkun). En. Jóseph, 19.
hennar manns-efni, (hvorjum þetta var
óljóst), ásetti, með því hann var góð-
menni, og vildi ei gjøra henni opin-
bera vanvirðu, að skilja við hana í
kyrrþei. En á meðan hann velti 20.
þessu fyrir sér, sjá! engill Drottins
birtist honum í draumi, og sagði:
Jóseph! þú Davíðs son! vÿla þú
ecki fyrir þér að hafa Maríu heim
til þín, svo sem húsfreyju þína, því
hennar fóstur er af heiløgum anda
skapað. Son skal hún fæða, og Jes- 21.
ús skaltú hann nefna; því hann mun
frelsa sitt fólk af þess syndum. En 22.
allt þetta er svona skéð, svo að nú
framkjæmi það, sem Drottinn tal-
aði fyrir Spámanninn, þegar hann
sagði: Sjá! ein Jómfrú verður ólétt, 23.
og fæðir son, og hann skal Imman-
uel kallast, sem þÿðir, þegar það út-
legst: Guð er með oss, (Es. 7. 14.)
En, sem Jóseph vaknaði síðan af 24.
svefni, breytti hann eins og Drott-
ins engill bauð honum, og hafði hús-
freyju sína (Maríu) heim til sín.

 25.

25. En hann héldt sér frá henni þángad til hún fœdt hafdi sinn frumgétinn son; og hann nefndi hann þá Jesús.

3.) Eptir Guds fyrirheiti hjá Spámanninum Esajas, átti sú qvinna, sem yrdi módir ad Messias ad vera hrein og saklaus Jómfrú.

Es. Spád. b. 7 Kap. v. 1-16.

1. Þad bar undir á þeim tíma, þá Achas Kóngur, sonur Jóthams og Usíass' sonar sonur, stjórnadi í Júda, ad Rezin Kóngurinn af Sýrlandi, og Pekach, Remaliassson, Israels Kóngur, fóru med her sinn gégn Jerúsalem, til ad umsitja hana,
2. en þeim tókst ei hana ad vinna. En þá Davíds ættqvísl var þess vís ordin ad Sýrlendskir höfdu gjört samband vid Ephraims menn, skalf Kóngsins hjarta, og allt fólkid titradi, álíkt og skógar-trén, sem hristast til
3. og frá af storm-vindi. Þá sagdi Drottinn vid Esajas: far þú á móts vid Achas, þú og sonur þinn Schearjaschub, þarna vid enda vatnsrennunnar frá efsta dýkinu, á alfara veginn hjá bleikjara akrinum, og seg-
4. du honum: láttú þér segjast, og vert

þú

þú hughraustur. Vert óqvídinn!
lát ei hugfallast fyrir þessum tveim-
ur rjúkandi, og hartnær gjøreyddu
brøndum, fyrir Rezíns, eda Sýr-
lendskra og fyrir Remaliassonar
brennandi grimd! ad vísu hafa Sýr- 5.
lendskir tekid fyrir sig rádagjørd gégn
þér, og þér til tjóns, eins og Ephra-
íms menn, og Remaliassonur.
Látum oss, søgdu þeir: vada inn í 6.
Júda-land, og umturna því, og skipta
því milli vor! látum oss setja Tabe-
alsson til Kóngs í midju þess. En 7.
Drottinn Jehóvah segir: þad skal
ei stødugt standa, ecki takast! Da- 8.
maskus sé einúngis Sýrlands høf-
ud, og Rezín høfud yfir Damask,
en ádur sextíu og fimm ár lída, skal þó
Ephraim ecki framar eitt fólk vera:
Og þó Samaría sé Ephraims 9.
høfud, og sonur Remaliass' høfud
yfir Samaría, ef þér leggid ei trún-
ad hér á, skulud þér ei heldur fá stad-
ist. En Drottinn héldt áfram, ad 10.
láta tala vid Achas, og sagdi: bid þér 11.
eins teikns af Drottni Gudi þínum,
hvort heldur hér nidri í djúpinu, eda
á hædum uppi! Þá svaradi Achas: 12.

ei vil eg neins bidjast, ei vil eg freista
13. Jehóvahs. Þá mælti (Spámadurinn): heyrid þér þó, sem erud af húsi Davíds: mun ydur þykja oflítid, ad reyna hid ýtrasta á þolinmædi mannanna? viljid þér þaradauk gjörþreyta
14. þolinmædi míns Guds? nú géfur þá sjálfur Drottinn ydur eitt teikn: sjáid! ein Jómfrú verdur þúngud; hún fædir son; hann mun hún Im-
15. manuel kalla! Mjólkur og hunángs neytir hann (Spámannsins sonur Schearjaschub), þángad til hann lærir ad hafna því vonda, en útvelja hid góda.
16. En ádur enn þessi sveinn hefir lært ad hafna því illa og velja hid góda, skal landid yfirgéfid verda, sem þú ber qvídboga fyrir, vegna þeirra tveggja Kónga, sem nú eru í því*)

Þridji

*) Fyrst lofar Spámadurinn því í Guds orda stad, í hinu 14da versi, ad Davíds ætt skuli ei tortýnast, sem óvinirnir tilætludust, v. 6. fyrri enn ein Jómfrú af þessari ætt fæddi Messías. Sídan snýr hann málinu, í hinu 15da og 16da versi, til síns litla sonar Schearjaschub, sem hann ad Guds bodi med ser hafdi, leggur, til ad gjeta, hönd í höfud honum, og fullvissar fram-

# Þridji Argángur.

## Höfud-lærdómur.

**Þad er efalaust ad Jesús úr Nazareth, sem eptir Guds rádstøfun fæddist í Bethlehem, er einn Abrahams afkomenda og af Davíds ætt.**

1.) Jafnvel þó María búi í Nazareth, fædir hún þó sinn son í Betlehem, þar ed óvæntar kríngumstædur neyda hana þángad ad ferdast.

Lúc. Gudsp. 2 Kap. v. 1-21.

Um sømu mundir bar þad vid, ad 1.
Augústus Keisari gaf þad bodord út,
ad manntal takast skyldi yfir allt
landid: Þetta var hid fyrsta mann- 2.
tal, hvørt Cyrenius, Landsstjórnari
Sýrlands tók.*) Nú fór hvørr mad- 3.
ur

framar-meir Guds vegna, ad landid fríast skuli, frá þeirra tveggja fjandmanna ofríki, ádur enn þessi úngi sveinn kjæmi til vits og ára.

*) Hann vard fyrst Landstjórnari 12 árum sídar, en þá Lúcas skrifadi nefndist hann almennilega Sýrlands Landstjórnari, og nefnist þess vegna af honum med því brúkanlega nafni; þegar hann var ordinn rjettur Lands-foríngi, tók hann sídan

ur til síns fædíngar-stadar, til ad láta
4. skrifa sig. Þá fór og Jóseph úr Ga-
lílæa, frá stadnum Nazareth upp
til Júdæa, til Davíds borgar, sem
nefndist Bethlehem, því hann var
5. af húsi og kyni Davíds, til ad láta
skrifa sig, ásamt María heit-meyju
6. sinni, sem var þúngud. En á med-
an þau dvöldu þar, kom hennar tími
7. ad fæda, og hún fæddi sinn frumgét-
iñ son, reifadi hañ og lagdi í jötu: því
þau komust ei fyrir í gésta-herberg-
8. inu. En í sama bygdarlagi vóru
hyrdarar nockrir úti á mörkinni og
héldu nætur-vörd yfir hjörd sinni.
9. Og sjá! óforvarandis stód engill
Drottins hjá þeim og ljómi frá
Drottni leyptradi umhverfis þá, svo
10. þeir urdu mjög svo óttaslegnir. En
engillinn sagdi vid þá: verid ad eins
óhrædd-

an annad manntalid, þá skatturinn var um leid áqvardadur, med því Júdæa var þá ordin ad rómversku umdæmi; en vid fyrra manntalid var hann þar til hafdur, svo sem umbodsmádur þá verandi Landsstjórnara í Syrlandi, Saturníns; vóru menn þá einúngis uppteiknadir eptir þeirra ættum, án þess skattur væri þar fyrir á þá lagdur.

óhræddir! því sjáið! eg boða ydur
mikinn fögnuð, hvörs allt fólkið á að
njóta! Í dag fæddist ydur í Davíðs 11.
borg einn Frelsari, sem er Messías
Drottinn. En hafið það til merkis: 12.
Þér munuð finna barn reifum vafið,
og lagt í jötu. Í sama vetfángi var 13.
þar hjá englinum sveit mikil himn-
eskra herskara, sem vegsamaði Guð
og sagði: dýrð sé Guði í hæðinni! 14.
friður á jörðu! manneskjum náð og
hylli! Síðan bar það til, þá englarn- 15.
ir fóru frá þeim til himins, að menn
þessir, hyrðararnir, sögðu sín á milli:
látum oss gánga til Bethlehem, og
sjá það, sem þar hefir viðborið, og
Drottinn hefir látið oss kunngjöra.
Þeir komu því skyndilega, og fundu 16.
bæði María og Jóseph og barnið,
sem lá í jötunni. En þá þeir höfðu 17.
það sjeð, báru þeir út hvað þeim var
sagt um þetta barn, og alla, sem það 18.
heyrðu, undraði á því, sem hyrðararn-
ir frásögðu. En María setti það 19.
allt gaumgjæfilega á sig, og velti því
í huga sér. En hyrðararnir snéru 20.
aptur, lofuðu og vegsömuðu Guð
fyrir allt, sem þeir heyrt og sjeð

höfðu

høfdu, eptir því, sem þeim kuñgjørt
21. var. En, sem hinn áttundi dagur
kom, á hvørjum barnid umskérast
átti, var hann Jesús nefndur, eins
og engillinn tiltók, ádur enn hann
gétinn var í módurlífi.

2.) Gud hafdi fyrirfram auglýst ad Drottinsarinn Messias, sem øllu fólki koma skyldi til Guds réttu vidurkénníngar, ætti ad fædast í heiminn í Bethlehem.

Mich. Spád. 5. 5 Kap. v. 1-7.

1. Og þú Bethlehem Ephrata, ert
þú of lítilmotleg til ad teljast á medal
þeirra borga í Júdæa, sem leggja til
þúsund vopnada menn! en mér skal
þó út af þér koma væntanlegur
Drottnari Israels: hann á ætt
sína til elli-tímanna ad rekja, til
2. fornaldanna. En þángad til géfur
hann þá (Heidíngjunum) ad herfángi,
ad sá tími kémur, er sú sem fæda skal,
verdur módir, (Es. 7, 14) og þá skulu
hinir brædur hans (þjódir jardarinnar)
aptur hverfa til Israels barna,
3. (til ad dýrka hinn sanna Gud). En hañ
skal standast og hann skal stjórna fyrir
Drottins krapt, fyrir hid háleita
nafn Drottins Guds síns! þeir skulu
snúa

snúa aptur, því, þá verður hann mik-
ill og vegsamlegur allt til veraldar-
innar endimarka. Friður mun þá
og verða. En vilji Assur falla inn 4.
í land vort, og brjótast inn í hallir
vorar, þá setjum vér sjö Fursta, og
átta mannkynsins afbragðs-menn
móti honum. Assurs land slá þeir 5.
með sverði, slá Nimrods land með
nöktum vöpnum, og svo frímust vér
frá Assur, falli hann inn í land vort
og vaði yfir vor landamerki. (Guðs
kirkja mún aldrei þarfnast trúfastra og sig-
ursællra Forsvarsmanna). Þeir sem ept- 6.
ir verða af Jacob munu þá vera
mitt á meðal fólksins svo fjölmennir,
sem nátt-daggar-dropar frá Drottni,
sem droparnir á grasinu: hvörs eng-
inn maður hefir tilgétið, og engin
manneskja vonað. Á meðal þjóð- 7.
anna; mitt á meðal enna mörgu
þjóða munu þeir, sem eptir eru af
Jacob, vera, sem ljónið á meðal dýr-
anna í skóginum, svo sem úngt ljón í
sauða-hjörð, þegar það veður innan-
um, treður undir og sundur-rífur,
og enginn er sá eð frelsi.

3.) Jóseph hlýtur ad láta skrifa sig í hina opinberu ættartolu-bók, sem Jesú fødur, til ad fría hann ásamt módur hans frá vanvirdandi misgrun. En Jóseph átti kyn sitt ad rekja til Abrahams og Davíds gégnum Salómons ættlegg og var trúlofadur í sinni égin ætt.

Matth. Gudsp. 1 Kap. v. 1-17.

1. Þessi er ættar-tala Jesú Krists, hvørr ed var einn Davíds sona, sem
2. kominn var af Abraham. Abraham gat Ísak; Ísak gat Jakob; Jakob gat Júda og brædur hans.
3. Júda átti Perez og Serah vid
4. Tamar; Perez gat Hezron; Hezron gat Aram; Aram gat Aminadab; Aminadab gat Nahason;
5. Nahason gat Salmon; Salmon gat Bóas vid Rachab; Bóas átti Obed vid Ruth; Obed gat
6. Ísai; Ísai gat Davíd, Konúng; Davíd Kongur átti Salómon vid þeirri, sem var húsfreyja Uriasar;
7. Salómon gat Róbóam; Róbóam
8. gat Abía; Abía gat Assa; Assa gat Jósaphat; Jósaphat gat Jóram;
9. Jóram gat Osía; Osía gat Jótham; Jótham gat Achas; Achas
10. gat Ezechías; Ezechías gat Manasse;

nasse; Manasse gat Amon; A-
mon gat Jósias; Jósias gat Je- 11.
chonias og brædur hans, um þær
mundir, sem folkid var herleidt í þræl-
dóm til Babylon *). En eptir þá 12.
babyloníſku herleidíngu gat Jecho-
nias Selathiel; **) Selathiel gat
Zerúbabel; Zerúbabel gat Abi- 13.
ud; Abiud gat Eliakim; Elia-
kim gat Azor; Azor gat Sadok; 14.
Sadok gat Achim; Achim gat
Eliud; Eliud gat Eleazar; E- 15.
leazar gat Matthan; Matthan 16.
gat Jakob; Jakob gat Jóseph
mann Maríu: af henni fæddist Je-
sús, sem nefnist Kristur. Alls eru 17.



*) Það er almennt í Austur-landa ættar-tölum, að sleppa adskiljanlegum lidum vegna ymislegra orsaka, svo ad sonar sonurinn, eda sonar sonarins sonar sonur, er strax talinn eptir afa eda lángafa, sem þeirra sonur; svo er hjer milli Jórams og Osía sleppt þremur lidum, og einum á milli Jósías og Jechonías.

**) Þegar Spámadurinn Jeremías, Kap. 22, 30. segir fyrir, ad Jechonías skyldi barnlaus vera, er meint til eptirkomara í ríkis-stjórninni, hvørri ei skyldi framhaldið verda af neinum hans barna; og gjeckst það eptir.

því fjórtán ætt-lidir frá Abraham til Davíds, og frá Davíd til hinnar babyloniſku herleidíngar fjórtán ætt-lidir, og frá þeirri babyloniſku herleidíngu allt til Kriſts fjórtán ætt-lidir.

4.) María var komin af Davíd í Natthans ætt-legg, og Jeſús hennar ſonur, var í ſkyld-fólkſins heimuglegu ættar-tølum, ſkrifadur ſonur Elí hennar fødurs, med því venja var ad gèta ecki módur-nafnſins.

Lúc. Guđſp. 3. Kap. v. 23-38.

23. Enn þó Jeſús væri álitinn ad vera Jóſephs ſonur, (ſem fóſtradi hann í ſínu húſi), var hann øllu heldur Elí ſonur, (ſem var fadir Maríu, því afar og ømmur álitu barna børnin, ſem egin
24. børn ſín), hvørr ed aptur var ſonur Matthats, Leviſonar, Melchiſonar, Jannaſonar, Jóſephsſonar,
25. Matthatíasſonar, Amosſonar, Naumſonar, Esliſonar, Naggai-
26. ſonar, Maathſonar, Matthatíasſonar, Semeíſonar, Jóſephs-
27. ſonar, Júdaſonar, Joannaſonar, Reſaſonar, Sóróbabelſonar, Sa-
28. lathielſonar, Neríſonar, Melchiſonar, Addiſonar, Kóſamſonar,

El-

Elmodamsonar, Ersonar, Jó- 29.
sessonar, Eliezersonar, Jórim-
sonar, Matthatsonar, Levisonar,
Simeonsonar, Júdasonar, Jó- 30.
sephssonar, Jónansonar, Elía-
kimsonar, Meleasonar, Mainan- 31.
sonar, Matthathasonar, Na-
thanssonar, Davídssonar, Ísai- 32.
sonar, Obedsonar, Bóassonar,
Salmonsonar, Nahasonssonar,
Aminadabssonar, Aramsonar, 33.
Hezronssonar, Perezsonar, Jú-
dasonar, Jakobssonar, Ísak- 34.
sonar, Abrahamssonar, Thara-
sonar, Nachorsonar, Sarugson- 35.
ar, Reusonar, Pelegsonar, E-
bersonar, Salahsonar, Kainan- 36.
sonar, Arphachsadsonar, Sems-
sonar, Nóasonar, Lamechsonar,
Methúselahsonar, Enochsson- 37.
ar, Jaredsonar, Maleleelsonar,
Kainansonar, Enossonar, Seth- 38.
sonar, Adamssonar, Gudssonar.



# Annann Dag Jóla.

## Adal-hugleiding.

Med Jesú Kriſts híngadkomu i verøldina, eru Guds dáſamlegu fyrirheit uppfyllt, med hvørjum hann fordum gaf von um almennilegann velgjørara, ſem koma ſkyldi, og útbreida heillir og fárſæld medal ættqvíſla allra þjóda.

## Fyrſti Argangur.

### Høfud-lærdómur.

Guds loford, um hinn almennilega þjóda velgjørara, ſem af Abraham átti ad koma, er med Jeſú Kriſti uppfyllt ordid.

1.) Ad verdlaunum fyrir audſýnda trú og trauſt, gaf Gud Abraham þad loford, ad hinn almennilegi Þjóda-velgjørari ſkyldi af honum koma.

1 Móſ.

1 Mós. b. 22 Kap. v. 1-19.

Þar eptir bar það til, ad Gud reyndi 1.
Abraham, og sagdi vid hann:
Abraham! hann svaradi: hér er eg!
Þá sagdi hann: tak þinn son, þann 2.
einka son, hvørr þér er svo kjær, Is-
sak, og far til Mórlands, og offra
mér honum þar til brennu-fórnar, á
einu af þeim fjøllum, sem eg greini-
legar skal segja þér (Abrahams traust á
Gudi og hlýdni vid hann, átti ad útstanda
hordustu reynslu, sem nockurri manneskju
var møgulegt ad afbera, svo hann rétti-
lega mætti fyrir sjónir setjast, sem fadir
hinna trúudu). Þá reis Abraham 3.
árdegis upp, og sødladi asna sinn, og
tók med sér tvo únga menn, ásamt syni
sínum Issak, og þegar hann var bú-
inn ad kljúfa vidinn til brennu-offur-
sins, héldt hañ á leid þángad, sem Gud
baud honum. Hinn þridja dag leit 4.
Abraham upp, og sá stadiñ áleingd-
ar. Þá sagdi Abraham vid sína 5.
úngu sveina: bídid hér med asnañ,
en eg og sveinniñ viljum gánga þáng-
ad, til andaktar ockar, og komum svo
aptur til yckar. Sídan tók Abra- 6.
ham brennu-fórnar-vidinn, og lagdt

hann syni sínum Isak á herdar, en
sjálfur tók hann eld og kníf í hønd sér;
7. og þeir gengu bádir ásamt burtu. Þá
yrdti Isak á fødur sinn Abraham
og sagdi: fadir minn! hann svaradi:
hér er eg, minn son! þá sagdi hann:
sjá! hér er eldurinn og vidurinn, en
hvar er lambid til brennu-offursins?
8. Abraham svaradi: Gud mun kjósa
sér lamb til brennu-fórnar, sonur
minn! þá héldu þeir bádir lengra á-
9. fram. En þegar þeir komu til stad-
arins, sem Drottinn hafdi sagt hon-
um, byggdi Abraham þar altari, og
lagdi ad vidinn uppá því, sídan batt
hañ son sinn Isak og lagdi hann uppá
10. altarid ofan á vidinn. Þá útrétti
Abraham hønd sína, og tók til hníf-
sins, til ad offra syni sínum, (Páll gef-
ur oss ad skilja, ad hann hafi haft von um
ad Isak sonur hans mundi endurlífgast, svo
Guds fyrirheit uppfyllast mætti, Róm. 4, 17).
11. En engill Drottins hrópadi til hans
af himni, og sagdi: Abraham! A-
braham! hann svaradi: hér er eg!
12. hinn sagdi: legg ecki þína hønd á
sveininn, og gjør honum eckért mein!
því nú sanna eg ad þú óttast Gud, þar

ed

ed þú vildir ecki þirma þínum syni,
þínum einka syni. En, sem Abra- 13.
ham upphóf sín augu, og litadist um
kríng, sjá! þá var hrútur einn bak vid
hañ fastur á hornunum í einum ruñi,
þá géck Abraham þángad, tók hrút-
inn, og offradi honum til breñu-forn-
ar, í stad sonar síns. En Abraham 14.
nefndi þennann stad: Drottinn lít-
ur til! í stad þess, sem menn segja
nú þessar mundir: á því fialli, sem
Drottinn lét sjá sig. Þá hrópadi 15.
Drottins engill í annad sinn af himni
til Abrahams, og sagdi: eg sver vid 16.
sjálfann mig, segir Drottinn: vegna
þess þú gjørdir þetta, og þirmdir ei
syni þínum, þínum einka syni, vil eg 17.
ríkuglega blessa þig, og mjøg svo marg-
fjølga þínu afqvæmi, svo sem stjørn-
ur himins, svo sem sand vid sjáfar-
strøndu! afqvæmi þitt skal undir sig
leggja fasta-slot óvina sinna! Já! 18.
fyrir þinn afkomara, skulu einn-
inn allar þjódir á jørdunni bless-
ast! og allt þetta til endurgjalds fyr-
ir þad þú vildir hlýda bodi mínu. Þá 19.
snéri Abraham aptur til sinna úngu
sveina, og fóru þeir svo af stad og ferd-

nduſt aptur hvorr med ødrum til Berſaba; því um þær mundir bió Abraham í Berſaba.

2.) Það er efalauſt, ad Jeſús Kriſtur, er ſá almennilegi þjóda velgjørari, ſem Gud fyrirhét, og koma átti af Abraham.

Páls Sendi-brjef til Gal. 3 Kap. v. 6-29.

6. Med því Abraham hafdi ſtødugt trauſt á Gudi, og honum var þad
7. til réttlætis reiknad, megid þér þar af ráda, ad engvir nema þeir trúræknu, ſéu Abrahams børn (þeir líkjaſt honum ſvo ſem børn fedur ſínum, og eru réttir erfingjar bleſſunar þeirrar,
8. ſem honum var veitt). Því þar ed Ritníngin viſſi fyrir, ad Gud mundi taka þjódirnar til nádar, vegna þeirra trúar, var Abraham þetta fyrirheit géfid fyrirfram: fyrir þig ſkulu allar
9. þjódir bleſſaſt, (1 Móſ. b. 15, 6.); Því ødlaſt allir þeir, ſem trúræknir eru, bleſſinina áſamt hinum trúada A-
10. braham. En þeir, ſem reida ſig uppá verkin, eptir Móſis løgmáli, eru þarámóti bølvun undirorpnir. Því ſvo ſtendur ſkrifad: hvorr einn er bølvadur, ſem ei tekur ſífeldlega

vara

vara á øllu, sem fyrirlagt er í þessari
løgmáls-bók, né breytir þar eptir,
(5 Mós. b. 27, 26.); og ad enginn verdi 11.
med løgmálinu hjá Gudi síknsaka á-
litinn, er ljóst af þessum ordum: søk-
um trúar sinnar skal hinn réttláti lifa,
(Habac. 2, 4). En løgmálid skeytir 12.
ecki trunni; því þad qvedur einúngis
svo ad: hvør sú manneskja, sem þetta
gjørir, skal þar med lifa, (3 Mós. b. 18, 5).
Nú hefir Kristur leyst oss frá þessu 13.
løgmálsins banni, med því hann gjørd-
ist í vorn stad banninu undirorpinn;
Því skrifad er: hvørr sá sætir þýngsta
straffi, sem hengdur er á tréd, (5 Mós.
b. 21, 23). Á þann hátt hlaut því sú 14.
blessan, sem Abraham var fyrir-
heitin, Jesú Krists vegna, yfir þjódirn-
ar ad koma, svo vér fyrir trúna gjæt-
um andlegra fyrirheita hluttakendur
ordid. Brædur! eg skal upplýsa þetta 15.
efni med því, sem mætir í mannlegu
lífi: hvørt er nockurs manns hátíd-
lega stadfest rádstafan gjørd ad engu,
eda vid hana bætt nýjum skilmálum?
En nú eru þó þessi fyrirheit Abra- 16.
ham géfin og hans afqvæmi. Ritn-
íngin segir ecki: og hans afqvæm-

um, svo sem um mørg væri talad,
heldur einstaklega, svo sem þegar ad
eins um eitt er talad: og hans af-
17. qvæmi; sem er Messías .... Eg
álykta því þanninn: sú rádstafan, sem
af Gudi er fastsett, í tilliti til Mess-
íass' verdur ecki ógyld gjørd af Mo-
sís løgmáli, sem fyrst var géfid fjór-
um hundrudum og þrjáthgi árum síd-
ar, svo fyrirheitid ad engu verdi;
18. Því væri nú svo, ad þjódanna arf-
leifd eptir Abraham (hin fyrirheitna
blessan), mætti einúngis ødlast fyrir
Mósis løgmál, yrdi þad ecki søkum
neins fyrirheitis. En med fyrir-
heiti veitti Gud hana þó Abraham,
19. sem nádar gjøf! En til hvørs átti
þá Mósis løgmál ad gagna? því er
bætt vid søkum afbrotanna (svo þau
hindrast mættu eda réna), þángad til
þad afqvæmid kjæmi, sem fyrirheitid
midadi til, þad er ecki heldur uppá-
lagt nema fyrir englana umstilli, og
einum medalgángara fyrir því trúad,
20. (sem var Móses). En sá medalgáng-
arinn, (sem meint var til í fyrirheitinu til
Abrahams) er ei einúngis til alleina
handa einu fólki! líka er einúngis
einn

einn Gud til! (sem hlýtur ad vera øllum
þjódum hinn sami gódur fadir). Mun 21.
þá Mósis løgmál strída móti Guds
fyrirheitum? lángt frá! en sú er mein-
íngin: hefdi þad løgmál géfid verid,
sem fengi afrekad oss lífid, (eda frelsa
oss frá daudanum, sem er vort forþént synda-
straff, og gjøra oss farsæla). Væri þad 22.
sannarlega á røkum byggt, ad leita
hylli og nádar hjá Gudi med løgmál-
inu; en nú hefir þó sjálft hid skrifada
løgmál lýst því, ad allir menn væru
sakfallnir syndarar, svo fyrirheitid
(til Abrahams) verdur þess vegna géf-
id ad vera, med tilliti til trúarinnar
á Jesúm Krist, og verdur því þeim
ad gódu, sem trúa. Ádur enn trúar- 23.
lærdómurinn kunngjørdur var, vór-
um vér í løgmálsins vardhaldi, svo
sem fángar innilokadir, þángad til
tíminn kom, ad trúar-lærdómurinn
kunngjørast skyldi; svo ad Mósis 24.
løgmál var sem vor typtunar-madur,
sem med tímanum skyldi leida oss til
Krists, til þess ad vér mættum rét-
tlætast og takast til nádar vegna trú-
arinnar. En sídan lærdómurinn 25.
um þessa trú var kunngjørdur, erum

vér

vér ei framar undir typtunar-mann-
26. inn géfnir. Fyrir trúna á Krist erud
þér nú allir Guds born, (eins Gydínga
og heidíngja-kyns). Allir þér, sem skírd-
ir erud til trúarinnar á Krist, erud
undir eins ordnir náqvæmlega sam-
einadir Kristi. (og hafid því hlutdeild í
þeirri blessun, sem Abraham var fyrir-
28. heitin, í tilliti til hans) Hér er þá eckí
framar spurt: hvørt einn sé Gydíng-
ur eda Grískur, þræll eda frjáls,
karl eda kona, allir yfir høfud megid
þér álítast, svo sem einn (hvørr ødr-
um samlíkur) í sameiníngu vid Jesum
29. Krist. En ef þér tilheyrid Kristi,
þá erud þér og Abrahams afqvæmi,
og vegna fyrirheitisins, hans erf-
íngjar.

## Annar Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Hinn mikli þjódá velgjørari átti ad uppkoma medal Abrahams fjølmenna afsprengis af Davids ætt, hvørs afkomari Jesús Kristur einninn var, sem madur.

1.) Eptir Guds fyrirheiti, átti hinn mikli Þjóda velgjorari ad koma í ljós medal Abrahams afsprengis, af Davids ætt.

Esa. Spád. b. 11 Kap. v. 1-16.

Af Ísai stofni skal leggur uppvaxa, og qvisturinn, sem sprettur af hans rót, skal ávört bera (Ísai var fadir Davids). Yfir honum skal hvílast Andi Drottins, Andi vísdóms og skilníngs, Andi ráds og hugprýdis, Andi þeckíngar og gudhrædslu. Í Guds ótta reynir hann allt: ecki dæmir hann einúngis eptir því, sem hans auga sjer, ecki úrskurdar hann einúngis eptir því, sem hans eyra heyrir. (Því augu og eyru géta brugdist, en sá, sem þeckir hjartad, verdur ecki á tálar dreginn) Hann dæmir þá lítilmótlegu med réttvísi, og fellir saungjarnann úrskurd í málefni þeirra undirþrycktu í landinu; hann slær landid med munni sínum, eins og med vendi, og drepur hina seku med anda sinna vara. Réttvísina skal hann hafa, svo sem belti um sínar lendar, og hreinskilnina, sem band um lífid. Ulfurinn gengur þá inn til lambsins, og Pardus-dýrid liggur í kyrrdum hjá kidinu, kálfurinn, ljónid

1.
2.
3.
4.
5.
6.

og

og feitur uxi, verda þá í hóp, og lítill
7. drengur skal reka þau. Kýrin og
bjarn-dýrid verda á beit saman og
afqvæmi þeirra hvíla hvort hjá ødru,
8. ljónid etur gras svo sem uxi. Brjóst-
barnid leikur sér hjá nødru-bælinu,
og þad barn, sem vanid er af brjósti,
réttir hønd sína inn í høggorms hrīd
(afmálan í eptirlíkingum, á velgjørandi
9. fridsemi). Hvørgi fremja mēn fram-
ar íllt eitthvad, á øllu mínu heilaga
fjalli, né granda neinu; því hin saña
Guds þecking breidist út á jørdunni,
álíkt og votnin hylja sjáfar-botninn.
10. Þá mun þad tilbera, ad rót Isai
standi uppreist, svo sem merki
fólksins: þjódirnar skulu sér til
þess snúa; mikil vegsemd skal vera
þar, sem hún rótgróin og óhult stend-
11. ur. Um sømu mundir ber þad vid,
ad Drottinn útréttir í annad-sinn,
hønd sína, til ad leida til sín hitt
fólkid sitt, sem enn þá er vardveitt,
svo þad verdi aptur leidt frá Assyria,
Egyptalandi, Pathros, frá Æ-
tiopia (Blockumanna) og Persa-landi,
frá Sinear og Hamath, og frá
12. fjærlægum sjáfar-sídum. Handa
þjód-

þjódunum mun hañ merki uppreisa,
og ad sér safna þeim útreknu af Ís-
rael, og samansafna þeim tvístrudu
af Júda, frá fjórum skautum jardar-
innar. Öfund Ephraims mun þá 13.
hverfa, og hatur Júda gjör-eydast.
Ephraim skal ei framar öfunda
Júda, og Júda ecki framar æsa hat-
ur vid Ephraim. Hastarlega munu 14.
þeir vada inn í landamerki Philistæ-
anna í vestur-átt; undir eins munu
þeir ræna þjódir fyrir austan sig;
þeir munu útrétta sinn armlegg móti
Edom og Móab, og Ammons börn
verda þeim hlýdin. En Drottiñ mun 15.
bannfæra svo hinn ægyptska sjáfar-
botn, ad aldrei verdi þad aptur tekid,
og í geisanda stormvidri mun hañ
reida upp sinn armlegg gégn fljótinu
Euphrat, og sundur-skipta því í
sjø læki, svo gánga megi þurrum fót-
um yfirum. (Afmálan, dregin af fólks-
ins eldstu sögu, til ad útmála þess vænt-
anlegu frelsi frá því ad rása um kring, med-
al framandi þjóda, þegar þad um sídir
vidurkennir Messias). Þá mun vegur 16.
greidast hinu af hans fólki, sem eptir
verdur af Assyria, svo sem fordum

var fyrir Israel þá hann ferdadist
út úr Ægyptalandi. Og á þeim
sama tíma skalt þú segja:

Es. Spád. 6. 12 Kap. v. 1-6.

1. Drottinn! þig vil eg vegsama, jafn-
vel þó þú hafir verid mér reidur, svo
er þó nú þín reidi frá mér horfin, og
2. þú huggar mig. Sjá! Gud er mitt
frelsi; þess vegna verd eg hughraust-
ur og óttast ecki. Já! sá Drottinn,
Drottinn, er mín vegsemd, og mitt
lof-qvædi: mér vard hann ad frelsi;
3. og þegar þér hjarta-gladir ausid vatn-
id úr farsældarinnar uppsprettu, munn-
4. ud þér segja: þackid Drottni, vegsam-
id hans nafn, víd frægid hans stór-
virki medal þjódanna, kénnid þeim
ad minnast á hvørsu hár hann er.
5. Lofid og vegsamid Drottinn, því hvad
undrunarverdt er hefir hañ fullkomn-
ad; øllum heimi er þad kunnugt.
6. Sýng há-stofum, og sýng þú med
gladværd, sem býr í Zíon, því sá
hinn heilagi Israels, er mikill í þín-
um augum.

2.) Þad var alkunnugt Gydíngum ad Je-
sús var af Davíds ættum.

Matth. Gudsp. 20 Kap. v. 29-34.

En, sem þeir gengu út frá Jeriko 29.
fylgdi honum fjøldi fólks. Og sjá! 30.
tveir blindir, sem vid veginn sátu,
hrópudu og søgdu, þegar þeir heyrdu
ad Jesús géck fram hjá: Herra! þú
Davids son! miskuna þú þig yfir oss!
En fólkid hastadi á þá, svo þeir 31.
þegdu; en þeir hrópudu samt þess
meir, og søgdu: Herra! þú Da-
vids son! miskuna þig yfir oss!
Þá stód Jesús vid, kalladi til 32.
þeirra og sagdi: hvad viljid þid ad
eg gjøri yckur? þeir svørudu: Herra! 33.
ad vor augu gætu opnast! Jesús, sem 34.
kénndi innilega í brjósti um þá, snart
þá augu þeirra, og undir eins fengu
þeir sjónina aptur og fylgdu honum
svo eptir *).

3.) Jesú uppruni af Davíds ætt, kémur saman vid Guds sérlegu umønnun fyrir Gydinga lýd.

J Post.

*) Á medal þessara tveggja blindu, var annar nafnkunnugur madur, sem Bartimæus hjet, þess vegna gjetur Marcus hans í frásøgu sinni um þetta, Kap. 10, 46-52. en þegir um hinn, eins og Lúcas, Kap. 18, 35-43. vegna þess hann var minna nafn-kjenndur.

Post. G. b. 13 Kap. v. 13-25.

13. J Paphos sté Páll aptur á skip,
med sínu förunegti, og héldt yfir um
til Perge í Pamphylia; en Jó-
hannes (ad vidurnafni Marcús) tók
sig frá þeim, og sneri aptur til Je-
14. rúsalem. Frá Perge ferdudust þeir
áfram lengra um landid, og komu til
Antiochia í Pisidia, hvar þeir
géngu inn í samkunduna á Sabbaths-
15. degi og settust nidur. Þegar búit
var nú ad lesa í lögmálinu og spá-
mönnunum, sendu forstjórar sam-
kundunnar til þeirra, og létu segja
þeim: brædur! ef þér viljid tala
nockud fólkinu til uppfrædíngar, þá
16. látid þad í ljósi. Þá stód Páll upp,
og þegar hann hafdi bendt sér hljóds
med hendinni, sagdi hann: þér Js-
raels menn! og þér, sem heidnir er-
ud ad uppruna, en nú dýrkid hinn
17. sanna Gud! géfid gaum ad: sá Gud,
sem þessi Jsraels lýdur tilbidur, út-
valdi fedur vora, og medan þeir vóru
í útlendíngskap á Egypta landi,
fjölgadi hann fólkinu nærsta mjög,
og leiddi ad lyktum út þadan med upp-
lyptum armleggi (med miklu veldi).

Sid-

Sidan umbar hann þeirra breytni 18.
hér um fjørutýgi ár í eydimørkinni;
og þegar hann svo upprætt hafdi sjø 19.
þjóda-kynqvíslir í Canaans-landi,
skipti hann landinu eptir hlut-kesti
milli þeirra. Svo setti hañ Dómara 20.
yfir þá um fjøgur hundrud og fimtýgi
ára tíma bil, allt til Spámannsins
Samúels. Þar eptir bádu þeir um 21.
Kóngs, og Gud gaf þeim Saul
Kisson, sem var madur af Benja-
mins ætt, í fjørutýgi ár. En þegar 22.
Gud útskúfadi honum, hóf hann upp
David til þeirra Kóngs, og gaf hon-
um þar hjá þeañ vitnisburd: eg hefi
fundid ad David Isaison, er madur
eptir mínu gédi, sem framqvæma skal
minn vilja í øllu! Af hans nidjum lét 23.
Gud Jesúm upprísa, eptir sínu fyrir-
heiti, til ad vera Israels Frelsari.
En, ádur eñ hañ gaf sig opinberlega 24.
fram, prédikadi Jóhannes fyrirfram
ydrunar skírn øllu Israels fólki;
Og, sem Jóhannes hafdi nær því 25.
endad sitt skeid, vitnadi hann: eg er
ecki sá, sem þér ætlid mig vera; en sjá-
id! sá kémur eptir mig, hvørs skó eg
jafnvel er óverdugur ad leysa af fót-
um hans. I 2 Þridji

## Þridji Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Rétt á þeim tíma, sem heimsins mikli velgjørari átti, eptir áqvørdun Guds fyrirheita ad sýna sig, kom Jesús Kristur í heiminn og framqvæmdi sitt erindi.

1.) Þad var fyrirfram kunngjørt, ad Messías, heimsins mikli velgjørari, skyldi leggja grundvøllinn til ad gjøra trúar-brøgdin þjód-kunnug, og láta líf sitt á jørdunni, med því ad leggja þad í sølurnar til mannanna frelsis, ádur enn stjórnar-form Gydínga, þá því ad lyktum hnigna tæki, væri fullkomlega kollvarpad.

Dan. Spád. b. 9. Kap. v. 1-27.

1\. Fyrsta árid, sem Daríus Ahasverí sonur af medískri ættinni fékk ríki
2\. Chaldæiskra undir vald sitt; á þessu fyrsta ári hans ríkis-stjórnar, tók eg, Daniel, í helgu bókunum eptir þeim ára fjølda, sem Drottinn gat um vid Jeremías spámann, nefnilega: ad Jerúsalems edilegging skyldi á sjøtýgi árum til lykta leidast (Jér. 25, 11.
3\. 29, 10). Þá snéri eg mér til Drottinns Guds og leitadi hans med bæn og audmjúku ákalli, med føstu í seck

og

og óſku. Eg andvarpadi til Drott- 4.
ins míns Guds, játadi og ſagdi: æ!
Drottinn! þú mikli og hátignar-fulli
Gud! ſá Gud, ſem haldin-ordur er
í ſínum fyrirheitum og audſýnir þeim
miſkun, ſem elſka hann, þeim, ſem
vardveita hans bodord! Vér høfum 5.
ſyndgad og illa breytt, framid hid
vonda og verid þverbrotnir, og høf-
um vikid frá bodordum þínum og
ſetníngum. Ecki gégndum vér Spá- 6.
mønnunum, þénurum þínum, ſem
tøludu í þínu umbodi til vorra
Kónga, vorra Furſta, vorra fedra
og til alls fólkſins í landinu. Þú 7.
Drottinn, ert réttlátur, en vér meg-
um blygdaſt, hvad einninn er nú vort
hlutſkipti, bædi Júdæ manna og Je-
rúſalems borgara, og alls Israels,
bædi nær og fjær, øllum þeim lønd-
um, um hvør þú tvíſtradir þeim, ſøk-
um þvermódſku þeirra gégn þér. Vér, 8.
Drottinn! megum ſkammaſt vor,
vorir Kóngar, vorir Furſtar, vorir
fedur, vegna þeſs vér ſyndgudum
móti þér. En, miſkun og fyrirgéfn- 9.
íng er þó eñ þá til hjá Drottni vorum
Gudi, jafnvel þó vér høfum honum

 10.

10. þverbrotnir verid. Ecki høfum vér hlýdt røddu vors Guds, svo vér lógudum vora breytni eptir hans bodum, sem hann lét þó sína þénara,
11. Spámennina, bjóda oss. Allur Israel hefir brotid þitt løgmál og afvega gengid, og ecki viljad heyra þína røddu; þess vegna hefir hin stránga, eidfesta bølvan yfir oss dunid, sem skrifud stendur í Mósis Guds þénara løgmáli, því vér høfum syndgad
12. gégn honum. Efnt hefir hann ord sín, sem hann taladi á mótt oss og dómurum vorum, þegar hann hótadi oss, ad láta svo mikla eymd yfir oss koma, ad hvørgi undir himninum hefdi jafnmikil hendt og sú, sem kom-
13. in er yfir Jerúsalem. Øll þessi hørmúng, svo sem hún útmálud er í Mósis løgum, er yfir oss komin; vér høfum ecki bedid svo audmjúklega fyrir þínu augliti, Drottinn vor Gud! ad vér um leid snérum oss frá vorum syndum, og gaumgæfdum
14. þína kénníngu. Þess vegna var Drottinn og reidubúinn med þetta volædi, sem hann leiddi yfir oss; því Drottinn vor Gud, hefir rétt fyrir sér í øllu,

í ǫllu, sem hañ gjǫrt hefir: Vér hof-
um ecki viljad hlýda hans rǫddu. Og 15.
nú, Drottinn vor Gud! þú, sem med
voldugum armlegg útleiddir þitt fólk
af Egypta-landi, og gjǫrdir þitt
nafn ógleymanlegt allt til þessa dags!
vér hǫfum syndgad; vér erum sekir.
Eñ, Drottinn! snú þó nú þíñi mis- 16.
þocknun og þinni straungu hegníngu
frá borg þinni Jerúsalem, og frá
þínu heilaga fjalli, sǫkum þíñar miklu
miskunar; því bædi vegna vorra eg-
in synda, og afbrota fedra vorra er
Jerúsalem og þitt fólk ǫllum vorum
nábúum ad athlátri ordid. Heyr því, 17.
Gud vor! harmþrúngid andvarp
þíns þénara, og lít nádarsamlega til
þíns eydilagda helgidóms, vegna sjálfs
þíns. Minn Gud! hneig þitt eyra 18.
og heyr, uppljúk þínum augum, og
lít á vorar eydileggíngar, á stadiñ,
sem eptir þínu nafni er heitiñ! því,
vér berum ecki vort réttlæti fyrir oss,
þegar vér framberum vorar audmjúku
beidni fyrir þitt augliti, heldur þína
egin miklu medaumkun. Drottiñ, 19.
heyr! Drottinn, fyrirgéf! Drottinn,
géf gjætur ad! gjǫr þad! skjót því ei

á frest! og þad sjálfs þíns vegna,
Gud minn! því borg þín, og þitt fólk
20. er nefnt eptir þínu nafni. A medan
eg enn þá taladi og bad og vidurkénndi
synd mína, og míns fólks Israels
synd, og lagdi nidur fyrir Drottins
míns Guds auglit fyrirbón mína
fyrir míns Guds heilaga fjalli,
21. (hvar musterid stadid hafdi). Þá, á
medan eg taladi þanninn og bad ná-
lægt qvøld-offurs-tíma, snart hann
mig, sá Gabríel, sem eg þegar í
øndverdu einusinni sjed hafdi í sýn, og
22. féll eg þess vegna í ómegin; Hann tal-
adi skilmerkilega vid mig og sagdi:
Daníel! eg er nú útgenginn til ad
flytja þér sanna og skiljanlega útlegg-
23. íngu. Strax, sem þú tókst ad bidja,
útgéck sú skipan, sem eg kém nú til ad
kunngjøra þér; því þú hefir mikla
hylli. Géf því gjætur ad ordinu, og
24. íhuga sýnina. Optar sjøtigi (ár)
eru ágvørdud þínu fólki, og þinni hei-
løgu borg, á hvørjum komid skal verda
í veg fyrir fráfall, en synda-offur fær-
ast, sektin afmást, hin forna réttvísi
hverfa til baka, Spámannanna spá-
dómar innsiglast og hid allrahelgasta

á ný

ă ný innvígjast. Vita skaltú því og 25.
taka eptir: frá þeim tíma, á hvørjum
skipan útgengur, ad láta þá aptur
koma og byggja Jerúsalem á ný,
til Drottnarans Messias's eru
sjøtýgisinnum sjø (ár) og sjøtýgi (ár)
og sextýgi og tvø (ár), borgin skal á
ný med flýtir uppbyggjast í ørdugum
kríngumstædum. En undir lok þeirra 26.
sjøtýgi og þeirra sextýgi og tveggja
(ára), skal Messias rudt verda
úr vegi, þó ecki søkum sjálfs hans,
og Drottnarans fólk (her Rómverja,
sem Messias brúkadi fyrir verkfæri, til
ad framqvæma Guds straff yfir Gydíngum),
skal koma, og umturna borginni
og helgidóminum, og þeirra eydilegging
skal brjótast fram svo sem
vatnsflód, og stríd skal haldast til
hins ýtrasta, og endast med eydileggíngum.*) Fyrirheitid (sem Abraham 27.



*) I venjulegum Biblíu útleggíngum er ad lesa sjøtýgi vikur, v. 24. en med því ad granskoda fornar útleggíngar, hafa lærdir menn uppgøtvad ad lítilfjørleg skrif-villa, sem á seinni tímum hefir skotist inn í høfud-textann, hefir leidt til ad hugsa um vikur, þar þó Spámadurinn hvert

**var gefid) skal hann (Messias) á einni viku stadfesta fyrir marga, í midri**

þvert á móti talar um ár, sem flýtur af því, sem hann öndverdlega umgjetur. Hann hefir skrifad sjøtýgi sinnum sjø, og þar med bendt til ára; sem adgreindra frá þeim sjøtýgi þjáníngar-árum, hvar um hann taladi í hinu ødru versi. Þessi sjøtýgi sinnum sjø strekast v. 25, og þar vid bætast sjøtýgi, sem einnin eru ár, sem ei skyldu verda fólkinu jafn-farsæl, líka sextýgi og tvø, einninn ár, á hvørjum fólkid komast skyldi á fallanda fót. Hann skiptir því frásøgu Gydínga-fólks, frá því þad var aptur heimkomid úr þeim babyloniska þrældómi í þrjú tíma-bil, er koma sem nágvæmast saman vid þá tilburdi, sem sídar á komu vid daginn; hjer af sjáum vjer þá, med ørruggustu fullvissu, ad Gud einn hinn alvitri, gat á øllu þessu svo skýlauslega frædt Spámanninn, sem lifdi 600 árum ádur enn allt þetta rættist. Um hid fyrsta tíma-bil, sem var sjøtýgi sinnum sjø, edr 490 ár, var fólkid engum undirgjefid, og hafdi sína egin ríkis-stjórn; á hinu ødru tíma-bili, sem innihjeldt 70 ár, var fólksins Kóngur undirgjefinn Róma-veldis yfirrádum, og vid lok þessa tíma-bils kom Messias, Jesús Kristur í heiminn; á hinu þridja tíma-bili, sem innihjeldt 62. ár, var hid eginlega Gydínga-land undir valdi Rómverja; svo sem umdæmi ríkisins,

var

í midri vikunni skal hann slátrunar= og mat=offur aftaka (Messias opliar med sinni fórnfæringu, fyrir allar þjódir, adgáng til huggunar=ríkrar fullvissu, um Guds födur=ást og kjærleika; einkis annars forlíkunar=offurs er framar þörf), og karm svívirdínganna (musterid, sem í stridinu fylltist ógnunum,) mun eydileggjarinn yfirfalla, og gjöreyda. Sífelld umturnan skal vera yfir hinni eydilagda!

2.) Jesús Kristur vitnar ad Daniels spádómur skúli fullkomlega rætast, med musterisins og landsins umturnun, skommu eptir hans burtför úr veroldinni, hvad einnin er framkomid.

Matth. Gudsp. 24 Kap. v. 1 - 35.

Sídan géck Jesús út úr musterinu, 1.
og héldt á burt þadan. En hans
lærisveinar nálgudust hann til ad koma
honum til ad athuga hús musterisins.
Þá sagdi Jesús þeim: allt þetta sjá- 2.
id þér nú gloggt fyrir ydar augum!
en eg segi ydur þad satt og víst: ad

hér

var því stjórnad af rómverskum Landshöfdingjum, uns fólkid, eptir þad Messías, Jesús Kristur, á midju þessu tíma=bili var líflátinn, hreifdi óróa, og vard svo eydilagt med landi, borg og musteri.

hér skal ecki standa steinn yfir steini,
3. sem verdi órifinn nidur. En þegar
hann sídar settist nidur á Olíu-fjall-
inu, gengu hans lærisveinar í ein-
rúmi til hans og søgdu: æ! seig
oss hvønær þetta muni ské, og hvørt
merki sé komu þinnar og heims-end-
irsins, (sem haldid var ad strax yrdi ad
4. fylgja eydileggingu musterisins). En Jes-
ús svaradi þeim og sagdi: varist ad
5. láta nockurn leida ydur afvega! Því
margir munu koma, sem taka sér mitt
nafn, og segja: eg er Messías! og
6. marga munu þeir tæla. Þér mun-
ud heyra stirjøld og strídsfregnir, en
látid þad ecki skélfa ydur; því allt
þetta hlýtur ad ské, og eñ þá er þó ei
endirinn (Jerúsalems ending) kominn.
7. Ein þjód mun rísa upp gégn annari,
og hvør ríkis-stjórnin hinni, dýrtíd
og drepsóttir og jardskjálftar munu
8. verda á ýmsum stødum. En allt
þetta er þó ecki nema upphaf hørm-
9. unganna. Um sømu mundir mun-
ud þér ofurseldir verda í allskonar
þreyngíngar, deyddir og af øllum
þjódunn ad hatri hafdir søkum míns
10. nafns. Margir munu þá og falla
frá,

frá, og svíkja hvørr annann, og beita
fjandskap hvørr gégn ødrum (svo sem
Páll qvartar yfir í sendi-bréfinu til hinna
Ebreska, ad skéd hafi í Gydínga-landi,
medan á rádsins ofsóknum stód). Marg- 11
ir fals-spámenn munu þá líka upp-
rísa og leida marga afvega, og vegna 12
þess gudleysid hefir nád yfirhendi, mun
margra kjærleiki kólna. En hvørr, 13
sem stødugur stendur allt til enda,
mun verda frelsadur. Svo skal og 14
gledirík bodan um himnaríki hver-
vetna berast um veroldina, til upp-
frædíngar øllum þjódum, og þá mun
endirinn koma. Þegar þér sjáid þá 15
vidurstyggdina, sem eydileggíngunni
fylgir, um hvorja Spámadurinn Da-
niel svo adqvedur, ad hún standi á
hinum heilaga stad: (hinn rómverski
Hershøfdíngi Cestius Gallus brautst inn
í Jerúsalem, en var hrakinn burt aptur,
og um leid gafst færi á ad flýja.) Hvørr
þad les, taki mark á því! Flýi þá 16
til fjalla, hvørr, sem er staddur í Jú-
dæa, og hvørr, sem heldur sig á rjáfri 17
(sem flatt er í Austur-løndum, svo bædi
er bordad og sofid á því), gángi sá ei
ofan til ad taka nockud med sér úr húsi
18

18. sínu! og hvørr, sem er úti á mørk-
inni snúi ei aptur til ad sækja klædi
19. sín! Vei þúngudum og þeim, sem
20. hafa børn á brjósti, á þeim tíma! En
biðjið, ad ydar flótti komi ecki uppá
um vetur, ei heldur á Sabbathsdegi
(þar menn eptir Gydinga hugar-fari álitu
samvitsku-póst ad fara lengra burt eñ eina
Sabbaths-gaungu (sitla bæarleid) í lengsta
21. lagi). Því svo mikid volædi skal þá
verda, ad frá veraldarinnar upphafi
allt til þessa, hefir eckert þvílíkt verid,
22. mun ei heldur hédanaf verda. Og
yrdu þessir dagar ecki styttir, mundi
enginn manneskja frelsast, en sökum
þeirra, sem útvaldir eru (til ad fjølga
fólkinu), skulu þeir styttast. (Rómverski
Keisarinn Titus vann borgina og myrter-
id skjótlegar enn hann siálfann vardi, og
líf margra þúsund manna, sem annars
hefdu af húngri dáid frelsadist, og út af
23. þeim lifnadi sólkid, seinna meir). Segdi
á þeim tíma einhvørr vid ydur: sjá-
id! hér er Messías, edur hér er hañ!
24. þá trúid því ecki; því Fals-Messías-
ar og Fals-spámenn munu uppkoma,
(nockurr egyptskur, nockurr Jónathas og
nockurr Bár Chocab, og fleiri þesshattar),
og þeir munu bera fyrir sig mikil
teikn

teikn og furduverk, svo jafnvel út-
valdir, væri þad mögulegt, kynnu
afvega ad leidast. Sjáid! eg sagdi 25.
ydur þad fyrir. Þar fyrir, ef sagt 26.
er vid ydur: sjáid! hann er á eydi-
mörku, þá gángid ecki út þángad; sjá-
id! hann er í hinu innsta húsi, þá trú-
id því ecki. Því svo sem leyptur 27.
glampar fram úr austri og tindrar
allt til vesturs, svo (hastarlega) mun og
verda tilkoma mannsins Sonar.
Hvar sem hræ er, þángad safnast 28.
grip-fuglarnir (land og lýdur ega straff
skilid). En strax eptir þreyngíngar 29.
þessara tíma, (sem gánga undan hinni
sídustu eydileggíngu) mun sólin formyrk-
vast, og túnglid ei lýsa, og stjörnurn-
ar munu hrapa af himninum, og
himin-hnettirnir skjálfa.*) Þá er 30.
Manns-

*) Utmálan í samlíkingum Jerúsalems skjelfilegu endalyktar, ad sid Spámannanna: Es. 13, 10. 24, 18-23. Ezech. 32, 7. 8. Jóel 3, 4. Amos 8, 9. sem afmála ríkja umturnun med miklum jardskjálftum, svo loptid þyckni svo mjög af uppstígandi dömpum, ad hvorki sól eda túngl sjest gjegnum þad skinid, og þegar einstök stjarna sjest hjer og hvar á bliki, er svo ad sjá, sem hún reyki

Mañsins Sonar strídsmerki á himni ad líta, (því eptir hans stjórnun framfylgdi herlid Rómverja Guds hegníngardómi yfir því gudlausa fólki), og allar kynqvíslir í landinu veina, þegar þeir sjá Mannsins Son koma þá á skýjum himins med miklum krapti og dýrd, (þeir smádu hann í hans lífi á jördunni, og vildu ecki medkenna ad hann væri Messias, nú finna þeir til med skélfíngu, ad hann, svo sem himneskur Stjórnari, hefir vald til ad halda í gyldi vegsemd sinni).

31. En, þá útsendir hann engla sína med hinn sterk-rómada lúdur, og þeir munu samansafna hans útvöldum frá fjórum heims-skautum, frá einum jadri himins til annars. (þeir, sem hann sendi til ad boda Evangelium, fá nú betri hentugleika, þá ofsóknar-anda Gydínganna tekst ei lengur ad hamla þeim ad útbreida hans lærdóm medal allra þjóda, og leida marga rádvanda til sannleikssins vidurkénníngar).

32. Takid samlíkíngu, af fíkju-trénu til frekari upplýsíngar: þegar þess qvistir taka vokvafullir ad verda, og blöd-

reyki fram og aptur, eins og hún ætli ad detta, kjett í því jördin ákafast skjelfur undir fótunum.

blødin springa út, þá vitid þér ad sumarid er í nánd. Alltad einu, 33
þegar ydur géfur allt þetta á ad líta, (hvørsu þad, sem fyrirsagt er, framkémur hvad eptir annad). Þá vitid
ad nú vofir tíminn yfir, eg segi yd- 34
ur þad satt og víst, ad þeir menn, sem nú lifa, skulu ecki allir daudir vera, ádur enn allt þetta vidber; himin og jørd munu forgánga, en aldrei mitt ord (hvad eg sagt hefi, verdur engannveginn óuppfyllt*) Marc. 13, 1-31. Lúc. 21, 5-36.

R Sunnu-

*) Sagnaskrifarinn Flavíus Jóseph Gydíngur ad ætt, hefir eptir sig látid skilmerkilega frásøgu um Gydínganna stríd vid Rómverja, sem lesa má í Prófastsins Rejersens dønsku útleggíngu á Jósephs skrifum, í hinum þridja partinum. Þar hørfa menn á hvørsu náqvæmlega sjerhvad hefir eptirgengid, sem Jesús fyrirfram kunngjørdi. En í sídari parti rædu sinnar Matth. 24, 36-51. 25, 1-46. ansadi Jesús spurníngu lærisveinanna um heims endirinn, og gaf þær áminníngar, sem þar til hlýddu, hvad lesa má á sínum stad.



# Suñudag milli Jóla og Nýárs.

## Adal=hugleiding.

A sinu æsku=skeidi lifdi Jesús í kyrrdum, þángad til hann var þrítugur ad aldri, þá tók hann opinberlega ad framqvæma sitt erindi, sem lærimeistari, en hafdi þó þess á milli nafnfrægur ordid, sem Spámadur, kjörinn til einhvørs sérlegs.

## Fyrsti Árgángur.

### Höfud=lærdómur.

Vegna Guds sérlegu umönnunar, frelsadist Jesús í æsku sinni úr mikilli hættu, og þad var um hann bodad, sem gaf til kynna, ad hann var til mikils áqvardadur.

1.) Hinn grimmi Heródes sat forgéfins um Jesú líf allra fyrst í hans barndómi.

Matth.

Matth. Gudsp. 2 Kap. v. 1-23.

Þegar Jesús var fæddur í Bethle- 1.
hem í Júdæa, á døgum Heródesar
Koníngs, sjá! þá komu spekíngar
nockrir frá Austur-landi til Jerúsa-
lems, og spurdu: Hvar er sá Kon- 2.
úngur Gydínga, sem nú er fæddur?
Því vér sáum hans stjørnu í Austur-
landi, og erum nú komnir þess erind-
is ad veita honum lotníngu.*) En 3.
þegar þetta kom fyrir Heródes
Kóng, skélfdist hann, og gjørvøll Je-
rúsalem med honum. Þess vegna 4.
lét hann samansafna øllum hinum



*) Þessir spekíngar hafa verid lærdir Gydíngar úr Arabía, sem rjedu af skrifum spámannanna, ad komid var ad þeim tíma, ad Messías koma skyldi, og rjett um sømu mundir, var altalad um allt Róma-ríki, ad voldugur Fursti skyldi upprísa í Gydínga-landi, sem koma mundi øllum heimi undir sitt veldi. Hvervetna vóru menn og þeirrar meiníngar, ad einhvørr merkilegur tilburdur stædi til, þegar hala-stjarna sást; hún átti einninn ad boda fædíngu nafn-frægra Konúnga. Strax og hinir lærdu Gydíngar urdu varir hala-stjørnu, ályktudu þeir jafnskjótt, ad hún væri fyrirbodi fædíngar hins væntanlega Messíasar.

yppurstu Prestum (bædi þeim reglu-
legu, og hinum sem einúngis hofdu nafnid),
ásamt fólksins skriftlærdu, og spurdi
þá ad: hvar Messías fædast skyldi?
5. þeir svorudu: í Bethlehem í Júdæa,
því svo stendur skrifad hjá spámann-
6. inum: þú Bethlehem í Gydínga-
landi, þú ert eingannveginn hin aud-
virdilegasta medal Júdæ merkis-
borga; því af þér skal Fursti fram-
koma, sem stjórna skal fólki mínu Is-
7. rael, (Mich. 5, 1.) Þá lét Heródes
spekíngana leynilega til sín kalla, og
grenstadist hjá þeim kostgjæfilega ept-
ir tímanum, á hvorjum stjarnan
8. birtst hefdi. Sídan lét hann þá ferd-
ast til Bethlehem, og sagdi: ferdist
nú þángad, og spyrjist náqvæmlega
fyrir um barnid; en þegar þér hafid
fundid þad, þá látid mig vita þad,
svo eg geti einninn komid, og sýnt því
9. lotníngu. En, sem þeir heyrt hofdu
Konúngsins vilja, fóru þeir leidar
sinnar; og sjá! stjarnan, sem þeir
sáu í Austur-landi, hafdi fyrir
þeim gengid, þángad til hún nam
stadar þar uppyfir sem barnid

var.

var.*) En þá þeir stjørnuna sáu 10.
urdu þeir harla gladir. Og þegar 11.
þeir komu inn í-húsid (sem hala-stjarnan
sýndist bera rétt yfir,) fundu þeir barn-
id ásamt **Maríu** módur þess, vørp-
udu sér nidur, og veittu því lotníngu,
opnudu sídan hirdslur sínar, og færdu
því gáfur, gull og reykelsi og Myrrhu.
En eptir þad Gud í draumi varadi 12.
þá vid ad snúa aptur til **Heródesar**,
snéru þeir annann veg heim aptur í
sitt land. Þegar þeir burtviknir 13.
vóru, sjá! þá birtist engill Drottins
**Jóseph** í draumi, og sagdi: bú þig til,
og tak barnid og módur þess, og flý til
**Egypta**-lands, og vert þar, uns eg
eñ framar býd þér hvad þú gjøra skul-
ir; því **Heródes** ætlar ad láta leita
upp barnid, til ad deyda þad. Svo 14.
ferdbjó hann sig, og tók á náttar-þeli
barnid og módur þess, og flýdi til **E-
gypta**-lands. En þar dvaldist hañ 15.
uns **Heródes** dó, ad hér skyldi eins
rætast hvad Drottinn segir fyrir spá-



*) Hala-stjarnan hjeldt áfram medan hinir lærdu úr **Arabía** ferdudust til **Jerúsalem**, og var nú komin svo langt sudureptir, ad hún sást uppyfir **Bethlehem**.

manninn, þegar hann kémst svo ad
ordi: eg kalladi son minn til baka frá
16. Ægyptalandi, (Hos. 11, 1.). Þeg-
ar Heródes sá nú, ad hann var gabb-
adur af spekíngunum, vard hañ mjøg
reidur, sendi út og lét slá í hel øll svein-
børn í Bethlehem, og øllu héradinu
þar umhverfis, sem vóru árs og dags
gømul og ýngri, allt eptir þeim tíma,
sem hann svo náqvæmlega hafdi út-
17. spurt hjá vitríngunum. Þá rættist
þad, sem Jeremías spámadur segir,
18. þegar hann svo ad ordi kémst: Í
Rama heyrdist vein, grátur, harma-
qvein og óp mikid, Rachel grét børn
sín og vildi ecki huggast láta, þvíad
útgjørt var um þau, (Jerm. 31, 15.)
19. En þegar Heródes var daudur, sjá!
þá birtist Jóseph í draumi engill
Drottins á Ægypta-landi, og sagdi:
20. bú þig, tak barnid og módur þess og
far til Israels lands, þvi þeir eru
daudir, sem sátu um líf barnsins.
21. Svo bjóst hann til ferdar, tók barnid
og módur þess og ferdadist til Isra-
22. els lands. En þegar hañ heyrdi ad
Archelaus stjórnadi í Júdæa, í stad
Herodesar fødur síns, óttadist hañ

þángad ad ferdast, þó veik hann í Ga-
lilæu lands-álfur, med því hann var
gjørdur þess vísari í draumi, af Gudi.
Hañ kom þá í borg eina, sem kalladist 23.
Nazareth, og tók sér þar bólfestu, svo
þannveg uppfylltist og þad, sem spá-
mennirnir fyrirsøgdu, ad hañ skyldi
Nazaræus kallast, (sem eptir talshætti
Gydínganna um þessar mundir merkir for-
aktadann og smánadann mann).

2.) Þegar í barnæsku vard Jesús nafnfrægur, svo sem sá, er af Gudi væri áqvardadur til einhvørs meir enn almennilegs.

Lúc. Gudsp. 2 Kap. v. 22-40.

En þá tími var til ad þau hreinsast 22.
skyldu (módirin og barnid) eptir løg
máli Mósis var hann fluttur til Je-
rúsalem*), til ad bera hann fram 23.
fyrir Drottinn, svo sem bodid er í
løgmáli Drottins, ad sérhvad frum-



*) Frá Nazareth var hann upp þángad hafdur, 6 vikna gamall, med því flóttinn til Egyptalands, og apturkoman þadan til Nazareth, skjedi á fyrirfarandi 3 eda 4 vikum, (Mátth. 2, 13-23), nú áræddi Jóseph einninn ad ferdast upp til Jerúsalem, vegna þess Archelaus var farinn til Róm, til ad sækja um stadfestíngu stjórnar sinnar.

gétid, sem karlkyns var, skyldi helgast
24. Drottni, (2 Mós. b. 13, 2). Einninn
til ad fórnfæra, eptir Drottins laga
fyrirmælum, tveimur Turtil-dúfum,
eda tveimur Dúfu-úngum (3 Mós. b.
25. 12, 6. 8.). En, sjá! í Jerúsalem var
madur Simeon ad nafni; réttvís
og gudræktinn, og þreydi hann eptir
Israels huggun (Messíasi), og
26. heilagur Andi var yfir honum. Honum
var og af heilögum Anda birt,
ad hann skyldi ei fyrri deyja, enn hann
27. fengi ad sjá Drottins Messías. Þá
kom hann af andans tilhlutun í musterid,
rétt í því foreldrarnir báru
barnid Jesúm inn, til ad gjöra sama
vid hann, og venjulegt var eptir lög-
28. málinu. Þetta barn tók hann þá
sér í fadm, lofadi Gud, og sagdi:
29. Drottinn! nú lætur þú þénara þinn
fara hédan í fridi, eptir þínu lofordi;
30. því eg hefi sjed med mínum augum
31. þetta þitt frelsi, sem þú tilreiddir öll-
32. um þjódum: ljósid, sem ágvardad er
til Heidíngjanna upplýsíngar, og til
ad gjöra þinn lýd Israel vegsamleg-
33. ann. En Jóseph og hans módir
undrudust yfir því, sem hér var um

hann

hann sagt. Þá blessaði Símeon 34.
þau og sagði við María móður hans:
sjá! þessi er mörgum í Israel til
falls og viðréttíngar settur, og fyrir
takmark mótmælanna! þess vegna 35.
munu huldir þánkar margra í ljós
leiðast; qvøl mun og gégnum-nísta
þitt eigið hjarta. Sømuleiðis var 36.
þar spá-kona nockur, Hanna að
nafni Phanúelsdóttir, af Assers
ætt-qvísl, og hún var há-øldruð.
Eptir meyjar-stand sitt, lifði hún í
sjø ár saman við mann sinn, en var 37.
nú eckja, og hafði hérum fjóra um
áttrædt; hún veik ei úr musterinu,
heldur lofaði Guð nótt og dag með
føstu og bæna-gjørð. Samstundis 38.
kom hún og þángað, vegsamaði
Drottinn, og talaði um þetta barn,
til allra í Jerúsalem, sem endur-
lausnar biðu. En, sem þau høfðu 39.
allt til lykta leidt, eptir Drottins
løgmáli, sneru þau aptur að Galílæa,
til borgar sinnar Nazareth; en 40.
barnið óx upp, og fór því fram í
anda-gift, og fylltist það vísdómi,
og Guðs náð var yfir því.

# Annar Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Þegar Jesús í úngdæmi sínu hafdi sýnt sjaldgjæf merki uppá vísdóm og gudrækni, inngéck hann, med há-tídlegri skírn, á besta manndóms-skeidi sitt gudómlega Lærimeistara-embætti, og vottadi strax sína rádvendni, med fyrirtaks stödugglyndi í hördustu freistíngum.

1.) Strax í úngdæmi sínu vakti Jesús undrun hjá hinum lærdu yfir hans grundvallada skilníngi, og áköfu gudrækni.

Lúc. Gudsp. 2 Kap. v. 41-52.

41. Hvört ár ferduduft hans foreldrar
42. upp til Jerúsalem á páskunum. En þegar hann var tólf ára gamall og þau vóru ad venju sinni komin upp
43. til Jerúsalem á hátídinni, og höfdu dvalid þar hátídar-dagana út, og vóru snúin heim í leid, hafdi barnid Jesús ordid eptir í Jerúsalem, og hvörki Jóseph né módir þess höfdu tekid ept-
44. ir því. Þared þau hugsudu nú ad hann væri í fylgd þeirra, héldu þau eina dagleid áfram; leitudu hans

sídan medal frænda og kunníngja.
En þegar þau fundu hann ecki, snéru 45.
þau aptur til Jerúsalem, til ad leita
þar ad honum; og þá bar svo vid, ad 46.
þau fundu hann á þridja degi í must-
erinu, sitjandi medal kénnendanna,
heyrandi þeim og adspyrjandi þá.
En alla þá, sem hann heyrdu, furd- 47.
adi yfir hans vitsmunum og and-
svörum. Þegar nú foreldrarnir sáu 48.
hann, brá þeim vid; en módir hans
sagdi vid hann: Son minn! því
gjördir þú ockur þetta? sjá! fadir
þinn og eg leitudum harmþrúngin ad
þér! hann ansadi þeim: því skylduð 49.
þér þanninn ad mér leita? var það
ecki vitanlegt, ad eg vard ad vera í
fødur míns erinda-gjördum! en þau 50.
skildu ecki hvad þad var, sem hann
vid þau sagdi. Svo vard hann þeim 51.
samferda, og kom til Nazareth og
var þeim hlýdinn, en módir hans
setti allt þetta vel á sig. Og Jesús 52.
þroskadist eins ad vísdómi og verti
og hafdi bædi Guds og manña hylli.

2.) Þegar Jesús birja vildi sitt opinbera
Lærimeistara-embætti, lét hann sig skíra af Jó-
hannesi í ánni Jórdan, og var sídan med

dýrd-

dýrdlegúm hætti af himnum auglýstur ad vera Sonur Guds.

Matth. Gudsp. 3 Kap. v. 1-17.

1. Á þeini tíma, (sem Jesús enn lifdi í kyrrdum í Nazareth) gaf sig fram Skírarinn Jóhannes og predikadi opinberlega í eydimørku Júda-
2. lands, og sagdi: snúid ydur, því himna-ríki, (ríki Messíæ) er í nánd.
3. En hann var sá, sem meint er til hjá Esajas, þegar hann segir: heyra má hrópandans røddu í eydimørku: greidid Drottni veg, og sléttid hans
4. gøtur! (Es. 40, 3.) Jóhannes þessi hafdi klædnad úr úlfbalds-hári, og ól-ar-bellti um sínar lendar; fæda hans var engi-sprettur og skógar-hunáng (sem fátækir menn næra sig tídum á í
5. Austur-álfunni). Þángad kom nú fólk til hans úr Jerúsalem, og allri Júdæa, og allri byggdinni vid Jórdan;
6. Og þeir, sem vidurkénndu syndir sínar vóru af honum skírdir í Jórdan.
7. En þegar hann sá, ad margir af Pharísæum og Sadusæum komu til hans skírnar, sagdi hann vid þá: þér nødru-úngar, (órádvøndu) hvørr kénndi ydur ad umflýja yfirhángandi

hegn-

hegníngu? Berid þá þvílíka ávexti, 8.
sem vid apturhvarf ega. En leidid 9.
ydur ecki í hug, ad þér fáid reidt ydur
uppá í eginn huga: Abraham er vor
fadir! því eg segi ydur víst og satt, ad
Gud gétur reist Abrahami upp børn
af þessum steinum. Þar ad auk nem- 10.
ur øxin þegar vid rætur trjánna; sér-
hvørt tré, sem ecki ber gódann ávøxt
verdur því upphøggvid, og í eld kastad.
Eg skíri ydur ad sønnu med vatni til 11.
apturhvarfs; en sá, sem eptir mig
kémur, hann er voldugri enn eg; og
eg er ecki verdugur ad bera skó hans,
eptir honum; hann mun skíra ydur
med heiløgum Anda (med því ad veita
hans nádar-gáfur,) ellegar med eldi
(med því ad senda hirtíngar). Sína kast- 12.
skóflu hefir hann sér í hendi, og mun
hreinsa kornid á sínu þreskíngar-plátzi.
Þá mun hann samansafna hveitinu í
forda-hús sitt, en stángirnar brenna
med óslockvanlegum eldi. Um sønnu 13.
myndir kom Jesús úr Galílæa ad
Jórdan, til Jóhannesar, ad skírast
af honum. En Jóhannes synjadi 14.
honum þess og sagdi: eg hefi þorf á
ad þyggja skírn af þér, þó kémur þú

til

15. til mín! Jesús svaradi og sagdi hon-
um: láttú þad nú eptir! þvíoss hæfir,
einninn á þennann hátt, ad breyta
16. eptir øllu, sem rétt er. Þá leid hañ
honum ad skírast, og þegar búid var
ad skíra Jesúm, sté hann strax upp úr
vatninu. En sjá! himininn opnad-
ist yfir honum, og hann sá Guds Anda
17. koma ofan, sem Dúfu yfir hann. Og
sjá! rødd heyrdist af himni, sem sagdi:
þessi er sonur minn hinn elskulegi, á
hvørjum eg velþóknun hefi*). (Marc.
1, 9-11. Lúc. 3, 21. 22.

3.) Jesú skírn fylgdi strax á eptir freistíng, sem honum mætti í einni eydimørku, hvar traust hans á Gudi, og hans rádvendni var hid ytrasta reynd; en hann beid sigur, og geymdi dygd sína óskerdta.

Matth.

*) Eptir Lúcasar frásøgu Kap. 3, 21. 22, var Jesús, þegar hann fyrir hátídlega skírn hóf sitt Lærimeistara embætti, hjer um þrítugur ad aldri, hañ gjørdi bæn sína, rjett í því himininn opnadist yfir honum; og andinn birtist, fyrir Jóhannesar augum, í útvortis ásýnd, sem áþeck var Dúfu; máskje þess vegna ad Dúfan var í fyrndinni iminndunar-teikn, uppá gjøf speki og máttar af hædum.

Matth. Gudsp. 4 Kap. v. 1-11.

Þar eptir kom Jesús af andans 1.
ladan í eydimørku, svo ad hans
freistad yrdi af djøflinum; og þeg- 2.
ar hann hafdi fastad í fjørutýgi daga
og fjørutýgi nætur, húngradi hann
loksins mikilega; þá géck freistarinn 3.
til hans og sagdi: sértu Guds Sonur
þá bjód þú ad steinar þessir verdi ad
braudi! en hann svaradi og sagdi: 4.
skrifad stendur: manneskjan lifir ecki
af einsømlu braudi, heldur af øllu
því, sem Gud þar til áqvardar,
(5. Mós. b. K. 8, 3). Sídan tók djøfull- 5.
inn hann med sér til hinnar heiløgu
borgar (Jerúsalem, hvar Gydínganna
adal guds-dyrkan tídkadist) og setti hañ
á eiñ karm musterisins (hús vid hlid-
ina, sem var med flotu þaki, uppá hvørt menn
gengu til ad skémta sér vid hina føgru útsjón),
og sagdi svo vid hann: ef þú ert 6.
Guds Sonur, þá varpa þér sjálfum
hér ofan af! því skrifad stendur: hañ
mun bjóda sínum englum um þig, og
þeir skulu þig á høndum bera, svo þú
steytir ecki fót þinn vid nockrum steini.
(Ps. 91, 11 12.) Jesús svaradi hon- 7.
um: líka stendur skrifad: þú skalt

ecki

ecki freista Drottins Guds þíns!
8. (5. Mós. b. 6, 16). Aptur tók djøfullinn
hann med sér uppá mjøg hátt fjall,
og leiddi honum fyrir sjónir øll ríki
veraldarinnar og þeirra vegsemd,
9. og sagdi vid hann: allt þetta skal
eg géfa þér, ef þú vilt falla fram
10. og tilbidja mig. Þá sagdi Jesús
vid hann: vík frá mér Sathan! því
skrifad stendur: Drottinn Gud þinn
skalt þú tilbidja, og dýrka hann einann.
11. (5 Mós. b. 6, 13). Þá yfirgaf djøf-
ullinn hann, og sjá! englar komu
til, og þjónudu honum*). (Marc. 1,
12. 13. Lúc. 4, 1-13).

Þridji

*) Matthæus, svo sem Jesú Lærisveinn, hefir heyrt frásøguna um þessar freistingar af Jesú eginn munni, því hafa þær mætt í þeirri rød, sem hann segir frá. Lúcas gjetur um hinar sømu freistingar med sama hætti; þó er sá munurinn, ad freistingin á armi musterisins er seinast talin. En Lúcas hefir ei skeytt nema efninu sjálfu, án þess ad gjefa gaum ad tímans nidur-rødun, sem hann sjaldnast gjefur sig ad.



# Þridji Argàngur.

## Höfud-lærdómur.

Jesús tekur lærisveina til uppfrædingar og fer til opinberlega í þeirra samfélagi ad kénna fólkinu.

1.) Strax þá Jesús kom aptur úr eydimörkunni tók hann sér lærisveina, sem fljótt álitu hann ad vera Messias.

Jóh. Gudsp. 1 Kap. v. 37-51.

En, sem tveir (Skírarans) lærisvein- 37.
ar heyrdu hann segja, þegar hann sá
Jesúm gánga vid Jórdan, sjá! þad
er Guds lamb! fylgdu þeir honum
eptir. En Jesús veik sér vid, og þeg- 38.
ar hann sá ad þeir fylgdu sér eptir,
sagdi hann vid þá: hvad viljid þér?
þeir ønsudu honum: Rabbi! sem
merkir, sé þad útlagt, lærimeistari:
hvar átt þú heima? hann sagdi þeim: 39.
komid og sjáid. Þeir komu og sáu
hvar hann dvaldi, og vóru hjá honum
þann dag; en þad var nærri tíundu
stundu. Andrés, bródir Símon- 40.
ar Péturs, var añar þeirra tveggja,
sem heyrdi þetta til Jóhannesar, og

41. fylgdi hönum eptir. Hann finn-
ur fyrst **Símon** bródur sinn, og
segir vid hann: vér høfum fundid
Messías! sem þýdir Krist, sé þad
útlagt; og hafdi hann til Jesúm.
42. En, sem Jesús leit hann, sagdi hann:
þú ert **Símon Jónasson**; þú skalt
**Kephas** (klettur) heita, sem Pét-
43. ur er á Grycksja túngu. Daginn eptir
vildi Jesús áfram halda ferd sinni til
Galíläa, þá verdur Philippus fyr-
ir honum, hvørjum hann segir:
44. Fylg þú mér eptir! en Philippus
var úr Bethsaida, úr sama þorpi,
45. sem Andrés og Pétur. Philipp-
us hittir Nathanael, og segir vid
hann: vér høfum fundid þann, sem
Móses skrifadi um í løgmálinu og
Spámennirnir, Jesúm Jósephsson
(sem hann var haldinn) úr Nazareth.
46. En Nathanael ansadi honum:
mun nockud gott géta frá Nazareth
komid? Philippus segir vid hann:
47. kom og skoda! en þegar Jesús sá
hvar Nathanael kom til hans, sagdi
hann um hann; sjá! þetta er vissu-
lega sá Israels madur, med hvør-
48. jum engin svik búa. Nathanael
segir

segir við hann: hvörninn þeckir þú
mig? Jesús svaraði honum og sagði:
áður enn Philippus kallaði á þig,
þegar þú varst undir fíkjutrénu, sá eg
þig. Nathanael ansaði honum og 49.
sagði: Rabbí! þú ert Sonur Guðs!
þú ert Kóngur Israels! Jesús 50.
gégndi honum og sagði: þú trúir af
því eg sagði þér, að eg hefði séð þig
undir fíkju-trénu! eitthvað, sem
meira er í varið enn þetta, mun þér
þó gésa að líta. Síðan sagði hann
honum: eg segi yður satt og víst:
hédanaf munuð þér sjá himininn
opnaðann, og engla Guðs líða upp
og ofan yfir Mannsins Syni.*)



*) Í draumi sá Jakob Drottinn framkoma af himninum, svo sem væri honum upplokið, og englana, hans þjenara, um leið upp og ofan stíga, svo sem reiðubúna að framqvæma hans skipanir; og heyrði hann ítrekaða fullvissun um Guðs sjerlegu varðveitslu, 1 Mós. b. 28, 10-15. til þessarar fyrirmindar lítur Jesús, og vill því sagt hafa, að Guð muni víðfrægja hann, með einstökum merkjum æðstu luckn og liðveitslu, til staðfestíngar um það, hann væri hinn fyrirheitni Messías, sá Mannsins Sonur, sem settur er fyrir sjónir, í sýninni hjá Daniel,

2.) Jésús útbreidir lærdóm sinn fyrst og fremst í Galilæa, og tekur sér fleiri lærisveina.

Matth. Gudsp. 4. Kap. v. 12-25.

12. Þegar Jesús heyrdi Jóhannesi var
í fángelsi varpad, fór hann yfir í
13. Galilæam, en yfirgaf Nazareth,
og veik á burt til ad stadnæmast í
Capernaum vid sjóinn á landa-
merkjum Zabúlons og Neptha-
14. líms, svo þá rættist þad, sem sagt
var af spámanni Esajas, þegar
15. hann kémst svo ad ordi: þú Zabú-
lons land og Nepthalíms land
strandlengis med sjónum hjá Jórd-
ans bæckum, þú Galilæa Heidíng-
16. janna! fólk þad, sem í myrkrunum
sat, sá ljós mikid og þeim, sem bjuggu
í skuggalegu daudans landi rann ljós-
id upp, (Es 9. 12). Eptir þad tók
Jesús opinberlega ad prédika og á-
minna: snúist, því himnaríki er í
18. nánd. En, sem Jesús einusinni géck
hjá sjónum í Galilæa, sá hann tvo
brædur, Símon, sem nefndist Pét-
ur

e l, Kap. 7, 13-14. sem medtakandi vald yf-
ir öllum jardarinnar þjódum, med sjálfs Guds
hátídlegri afhendíngu.

ur, og Andrés bródur hans, þegar
þeir vóru ad leggja net sín í sjóinn,
því þeir vóru fiski-menn. Nú sagdi 19.
hann vid þá: komid og fylgid mér,
þá skal eg gjora ydur ad manna-fisk-
urum (í fiska stad, skulud þér manneskjur
til ydar draga, med ydar uppfrædingu).
Strax yfirgáfu þeir netin og fylgdu 20.
honum. En, sem hann géck lengra 21.
áfram, sá hann adra tvo brædur Ja-
kob Zebedæison og Jóhannes
bródur hans, í skipinu hjá fødur þeirra
Zebedæus, hvar þeir løgudu net sín,
þessa kalladi hann einninn; og þeir 22.
yfirgáfu strax bædi skipid og fødur
sinn og fylgdu honum. Þá ferdad- 23.
ist Jesús um alla Galílæam, kénndi
í samkundu-húsum þeirra, og prédik-
adi gledi-bodskapinn um himnaríki:
(Messíasar ríki, eda þá nádar-stjórnun,
sem Messías stipta átti á jordunni, eptir
Guds rádstøfun, syndurunum til frelsis),
hann læknadi og svo allskonar sjúk-
dóma og lasleika manna á milli. En 24.
hans rykti barst út um allt Sýr-
land; og menn færdu honum alls-
konar sjúklínga, sem haldnir vóru
ýmsum qvillum og sárum sjúkdóm-

um, jafnvel óda, og túnglsjúka og
25. iktsjúka, og hann læknadi þá. Hon-
um fylgdi og mikill mann-fjøldi úr
Galílæa og Decapólis, líka úr Je-
rúsalem og Júdæa, hinumegin
Jórdanar ad. (Marc. 1, 14-20. Lúc.
4, 14 15)

3.) Jesús vÿladi ecki fyrir sér ad velja sér lærisveina af þeim, sem audvirdilegastir vóru manna á milli, og gésur undir eins tilkynna, ad Gud fari ecki eptir útvortis áliti, heldur hugar-farsins ásigkomulagi.

Matth. Gudsp. 9 Kap. v. 9-17.

9. Þá héldt Jesús burt lengra (frá Ca-
pernaum), og, sem hann sá mañ nock-
urn Matthæus ad nafni (Levi ad vid-
urnefni), sem sat í tollbúdinni, sagdi
10. hann vid hann: fylg þú mér! jafn-
skjótt stód hann upp, og fylgdi hon-
um; en svo bar vid, þegar hann sat
ad bordi þar í húsinu, sjá! þá vóru
margir toll-heimtarar og syndarar
(illa ræmdir menn), komnir þángad,
rétt þess erindis ad sam-neyta Jesú
11. og hans lærisveinum. Og, sem Pha-
rísæarnir litu þetta, søgdu þeir vid
hans lærisveina: því neytir Meist-
ari

ari ydar med tollheimturum og
hrakmennum? en Jesús, sem þetta 12.
heyrdi, sagdi vid þá: heilbrygdir hafa
ei læknarans þörf, heldur þeir sjúku!
Þér ættud ad fara og læra ad skilja 13.
hvad þetta merkir: miskun þócknast
mér, en ecki offur (Hos. 6, 6). Því eg
er ecki kominn til þess ad kalla rétt-
láta heldur syndugа til yfirbótar.
Eptir þad komu lærisveinar Jóhañ- 14.
esar til hans og sögdu: hvörsvegna
föstum vér og Pharísæarnir svo
mjøg, en þínir lærisveinar fasta ecki?
Jesús svaradi þeim: mun brúd- 15.
kaups-fólkid syrgja, medan brúd-
guminn er hjá því? (fasta, sem er sorg-
ar-merki, á ecki saman vid gledina) en
þeir munu dagarnir koma, ad brúd-
gumanum verdur frá þeim kippt, og
þá munu þeir fasta. Enginn 16.
leggur bót af nýju óþæfdu klædi
á gamlann kyrtil; því annars glidn-
ar nockud af kyrtlinum út med
henni, og rifan vestnar. Ecki 17.
láta menn heldur nýtt vín á gamla
belgi; því annars springa belgir-
nir, en vínid spillist, og belgirnir
verda ónýtir; en nýtt vín láta

menn á nýja belgi, og þá heldst hvørttveggja vid.*) (Marc. 2, 14-22; Lúc. 5, 27-39.)

# Nýárs Dag.

## Adal-hugleiding.

Vors Guds fødurlega umhyggja fyrir oss mønnunum, ætti ad uppvekja oss til innileguſtu þacklátsemis, og hræra oss til ad hlýdnast honum þess fúslegar, med því vor sanna farsæld eblist og best á þennann hátt.

Fyrsti

*) Jesús vill láta þá ráda af þessum eptirlíkingum, ad hann ei hafi ásett ad halda vid nockrum eptirstødvum af Pharísæanna setningum, eda hinni gømlu hjá-trú, í sínum betri trúarbrøgdum, sem honum bæri ad útbreida, med því sannleikurinn sjálfur yrdi þar med halla ad lída.

# Fyrsti Árgángur.

## Höfud-lærdómur.

Sjálfum oss er hugsvølun og gledi ad því, ad offra Gudi lofi og þackargjørd fyrir hans velgjørnínga.

1.) Allri verold ber ad vegsama Gud og dýrka hann med hátídlegu lof-qvædi.

Ps. 67, v. 1-8.

Psálmur orktur af David til ad 1.
leika á hljódfæri vid. Gud sé oss 2.
líknsamur og blessi oss! sitt blída
auglit láti hann lýsa yfir oss! Sela!
svo menn kanniſt vid þinn veg (þína 3.
stjórnun) á jørdu, og allar þjódir þína
frelsun. Gud! þig lofar fólkid, þig 4.
lofar allt fólk. Þjódirnar gledjast og 5.
sýngja fagnandi; því þú stjórnar
manneskjunum med réttvísi, og leidir
kynqvíslir þjódanna á jørdu; Sela!
Gud! þig lofa þjódirnar: þig lofa 6.
allar þjódir. Jørdin bar sinn ávøxt. 7.
Blessad hefir oss Gud vor Gud.
Blessi oss Gud! og øll takmørk 8.
jardarinnar óttist hann!

2) Sjálfum oss er huggunarsamlegt, ad minnast ydulega med þacklæti og lofgjørd, á Guds mørgu fødurlegu velgjørdir. L 5 Ps.

Ps. 103, v. 1-22.

1. Sála mín, vegsama Drottinn! allt
mitt hjarta-þel lofi hans heilaga
2. nafn! sála mín, lofa Drottinn! og
lát þér ecki úr minni líða, hans morgu
3. velgjørnínga! hann fyrirgéfur þér
allar þínar syndir, og læknar allann
4. þinn veikleika. Hann frelsar þitt
líf frá tjóni, og umgirdir þig med náð
5. og miskun. Þér til sadníngs fyllir
hann þinn munn gjædum, og svo sem
6. ørnin yngist þú upp. Drottinn frem-
ur réttvísi; þá undirokudu lætur hann
7. ná þeirra rétti. Móses lét hann
þeckja vegu sína, og Israel ydju sína.
8. Medaumkunarsamur er Drottinn
og nádugur, þolinmódur og mjøg svo
9. miskunsamur; hann vill ecki æfin-
lega gánga í réttlætisdóm vid oss,
og ecki heldur sífeldlega minnast þess
10. umlidna. Hann vill ei breyta vid
oss eptir vorum syndum, og ei end-
urgjalda oss eptir vorum misgjørd-
11. um. En svo hátt, sem himininn er
yfir jørdunni, svo hátt lætur hann
sína miskun stíga yfir þeim, sem ótt-
12. ast hann, og svo lángt, sem austrid
er frá vestrinu, svo fjærlæg oss gjør-
ir

ir hann vor afbrot. Svo medaumk- 13.
unarsamann, sem nockurr fadir aud-
sýnir sig børnum sínum, svo miskun-
samur er Drottinn þeim, sem hann
óttast; því hann veit hvørninn vér 14.
erum skapadir, og hann minnist þess
ad vér erum einúngis dupt. Í til- 15.
liti til æfi sinnar, er madurinn eins
og grasid; svo sem jurtin á mørkinni
blómgast hann. Vindur þýtur yfir 16.
hann, og hann er ei framar til, og
stadurinn, hvar hann stód, veit ei
framar af honum. En Drottins 17.
miskunsemi vid þá, sem hann óttast,
heldst vid frá eilífd til eilífdar, og
hans trúfesti nær til barna barnañá,
ef ad þau vardveita hans sáttmála og 18.
láta hans bodord sér hugføst vera til
eptirbreytnis. Drottiñ hefir grund- 19.
vallad sinn veldis-stól á himnum, og
hvervetna drottnar hann. Lofid 20.
Drottiñ, þér englar hans (hans sendi-
bodar) þér hinir voldugu, sem fram-
qvæmid hans skipanir og gefid gaum
ad því, sem hañ býdur! Lofid Drott- 21.
inn, allir hans herskarar, þér þjón-
ar hans, sem gjørid hans vilja!
Lofid Drottinn, øll hans verk um 22.
allt

allt hans ríki! lofa þú einninn Drottinn sála mín!

3.) Vor bæn til Guds, á ad vera sameinud vid lof- og þackar-gjörd af þacklátu hjarta.

Ps. 138, v. 1-8.

1. Psálmur Davíds: þér vil eg þacka af öllu mínu hjarta; hátídlegann lofsaung vil eg syngja þér, í hinna
2. voldugu vidurvist. Eg sný mér til þíns heilaga musteris og tilbid, og vegsama þitt nafn fyrir mildi þína og trúfesti; því eptir þínu lofordi, hefir þú gjört nafn þitt vegsamlegra
3. enn allt. Þegar eg ákalla þig, þá bænheyrir þú mig, þú styrkir mig
4. og gjörir mig stødumikinn. Drottinn! öllum Konúngum jardarinnar ber ad vegsama þig, þegar þeir
5. heyra um þín fyrirheit. Syngja ber þeim um Drottins dásemdarverk; því mikil er dýrd Drottins.
6. En svo hár, sem Drottinn er, lítur hann þó nidur til hins lága; svo hátt, sem hann upphafinn er, sjer hann þó
7. hid fjærlæga! Þegar eg ráfa midt í ángistinni, endurhressir þú mig; þú útréttir þína hønd mér til varnar

móti

móti reidi óvina minna: þín hægri
hönd frelsar mig; Drottinn mun
standa fyrir mínu máli. Drottinn! 8.
þín miskun varir eilíflega; virdstú
ad yfirgéfa ecki þín handa-verk.

## Annar Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Hvörsu, sem framfer í heiminum, sýn-
ir þó margháttud reynsla, ad Gud lídur
ecki, ad hinir gódu sífeldt fari allrar hug-
svölunar á mis, eda ad hinir vondu bídi
ætíd sigur í þeirra gudleysi.

1.) Þó hinn gudrækni, hljóti um stundar-
sakir andstreymi ad lída, þarf hann ecki ad
sjá offjónum yfir skamvinnri skin-végsemd ó-
gudlegra.

Ps. 37, 1-40.

Davíds Psálmur: gremst ecki yfir 1.
hinum vondu, og öfundast ecki yfir
þeim glæpafullu. Því hastarlega 2.
skrælna þeir upp, svo sem grasid, og
visna burt, eins og grænar plöntur.
Set þitt traust einúngis til Drott- 3.
ins og kappkosta hid góda, þá muntú í
land-

landinu med fridi búa, og óhultur
4. vera. Lát Drottinn vera þinn fögn-
ud! hvad hjarta þitt eptirlángar mun
5. hann veita þér. Varpa þinni á-
hyggju uppá Drottinn, og reid þig
uppá hann! hann mun því vel til
6. vegar koma! Sakleysi þitt lætur
hann sjást, svo skjært, sem ljósid, og
sýnir þinn rétt, í fullum middegis
7. glansa. Vertú ad eins hæglátur
fyrir Drotkni, og set þína von á
hann; sjá ei offsjónum yfir þeim, sem
luckast allt hans áform, yfir honum,
sem tekst ad framqvæma illfús fyr-
8. irtæki. Lát reidi renna, lát óvild
hverfa, gremst ecki; því annars
9. syndgar þú. Vissulega kémur þó
ad því, ad þeim ógudlegu útrýmt
verdi, en þeir, sem Drottni treysta,
skulu ad landinu sitja (óhultir og far-
10. sælir lifa). Bíd eitt augnablik enn
og þá er hinn ógudlegi ecki framar
til! þú munt svipast ad hans stöd-
11. vum og ecki finna. En hinir undir-
þryckti sitja þá ad landinu og gled-
12. jast yfir miklum fridi. Hinn ógud-
legi hugsar upp tálsvik gégn hinum
rádvanda, og nístir tönnum yfir hon-
um

um. En Drottinn gjørir gis ad 13.
honum, þvi hann veit ad hans enda-
lykt nálægist. Hinir ránglátu bregda 14.
sverdi, og spenna bogann til ad fella
hinn fátæka og undirokada til ad
myrda hinn rádvanda; En sverd 15.
þeirra smýgur gégnum þeirra egid
hjarta, og bogi þeirra brestur í sund-
ur. Þad lítid, sem hinn grandvari 16.
á, er betra, enn audæfi margra ó-
gudlegra; því Drottinn mun leggja 17.
hinum rádvanda lid, þegar hañ sund-
urmolar armlegg hins rángláta.
Drottinn minnist lífdaga hiña hrein- 18.
skilnu, og eignr þeirra munu láng-
gjædar verda. Á sorgar-tímanum 19.
verda þeir ecki til minkunar, og í
húngurs-neydinni hafa þeir nóg til
sadníngar. En þeir andvaralausu 20.
munu fyrirfarast, mótstødu-menn
Drottins munu gjøreydast, svo sem
fornar-dýrin; þeir verda ad reyk. Sá 21.
ógudlegi verdur ad taka til láns, en
getur ecki borgad, en hinn rádvandi
getur gjøfum útbýtt, og ølmusu géf-
id; því hluttakendur Guds blessun- 22.
ar, sitja ad landinu, en þeir, sem eru
hans banni undirorpnir, verda ad

upp-

23. upprættast. Drottinn styrkir þess
fótstig, sem framgengur honum til
24. velþóknunar; og þó hann rasi, skal
hann þó ecki flatur falla, því Drott-
25. inn heldur fast í hönd honum. Eg
var úngur, en er gamall ordinn, en
ecki sá eg hinn rádvanda yfirgéfinn,
og ecki heldur börn hans ad betla sér
26. braud. Däglega géfur hann og lán-
ar, og hans afqvæmi blessast.
27. Fordastú þad vonda, en ástunda hid
góda, þá skalt þú sífeldlega óhultur
28. búa í landinu; því Drottinn elskar
réttvísina, og mun ecki yfirgéfa hina
dygdugu: eilíflega skulu þeir vernd-
adir verda, en hvert á móti mun af-
qvæmi hins ógudlega útrýmt verda.
29. Hinir rádvöndu skulu ega landid,
skulu sífeldt med fridi í því búa.
30. Munnur hins dygduga talar vislega
og hans túnga mælir, hvad rétt er.
31. Lögmál sins Guds vardveitir hann í
sínu hjarta; þess vegna skridnar hon-
32. um ecki fótur. Sá ógudlegi sitúr
um hinn rádvanda, og leitast med
undirferli vid ad ráda hann af dög-
33. um; en Drottinn géfur hann ecki
honum á vald, og fordæmir hañ ecki,
þeg-

þegar hann dæmir hann. Vona þú 34.
á Drottinn og haldt hans bodord, þá
mun hann upphefja þig, og láta þig
eiga landid, og þú munt sjá hvørsu þeir
vondu tortýnast. Eg sá einn ógudleg- 35.
ann, sem voldugur var; hann grænk-
adi og blómgadist, sem innlendt tré í
sinni egin jørdu. Aptur géck eg þar 36.
um, og sjá! hann var ei framar til;
eg leitadi ad honum, en hann fannst
hvørgi. Gádu ad hinum dygduga, 37.
géf gjætur ad hinum rádvanda, hvørt
hann hreppir ecki farsæld ad lyktum;
en yfirtrodslu-menn afmást hvørr 38.
med ødrum, og hin seinasta umbun
ógudlegra, er eydilegging. Þeir rád- 39.
vøndu ødlast frelsun af Drottni;
vørn þeirra er hann á neydar-tíman-
um. Drottinn hjálpar þeim og frels-
ar þá: hann frelsar þá frá þeim and-
varalausu, hann frelsar þá, því þeir
hafa traust á honum einum.

2.) Þad er fávíslegt ad dæma um farsældina eptir útvortis áliti, sem skjótlega folnar, en sannarlegrar farsældar ber ad leita, med því ad hafa umgengni med Gudi einum.

Ps. 73, 1-28.

1. Asaphs Psálmur: Gud er þó Is-
rael hid ædsta góda, þeim, sem hrein-
2. hjartadir eru! minn fótur rasadi
nær því, og hardt nær vard eg glidsa,
3. vegna þess eg fylltist øfundar yfir
þeim andvaralausu, þegar eg sá
hvørsu vel þessum ógudlegu vegnadi.
4. Engin bønd halda þeim, þeir eru
heilbrygdir, hraustir og styrkvir;
5. þeir mæta engu andstreymi, sem
adrir daudlegir, ecki leggja þeir hardt
6. á sig, sem adrir menn: því er hof-
módurinn þeirra skart, og miskunar-
7. leysi þeirra prýdi. Ur þeirra feita
kroppi framleypptrar skadagjarnt
auga, og þeirra hjørtu qveda svo upp-
8. úr. Med spélnum vørum hallmæla
þeir ødrum, og ógna med ofbeldi,
9. svo sem ofan ad. Þeirra tal, er sem
væri þad af sjálfum himni komid,
og túnga þeirra býdur yfir øllu land-
inu, því hnígur allt fólkid ad þeim.
10. Hjá þeim skal þad fá yfirfljótanlegt
vatn ad drecka (endurnærast af mædu sinni,
og fá hugsvølun, eins og þyrstur og or-
magna gaungu-madur finnur endurnær-
ingu, hjá rennandi lind í hinum heitu løndum.)

Menn

Menn segja: hvorninn er þessu var- 11.
id! mun Gud vita nockud af þessu?
mun hann, sem býr í hædinni, géfa
gaum ad þessu? sjá! þessir stórbrota- 12.
menn eru ætíd svo luckugéfnir, og
græda audæfi! þad er víst: ad for- 13.
géfins hreinsa eg hjarta mitt, og þvæ
hendur mínar í sakleysi! eg armædist 14.
þó allann daginn, og hvørr morgun
færir mér nýja mædu. Hefdi eg 15.
þanninn viljad tala og álykta, sjá! þá
hefdi eg svikſamlega úrættst frá børn-
um þínum. En eg yfirvegadi betur, 16.
til ad komast ad rauninni, þó sýndist
mér þad of hriggilegt vera, uns eg 17.
ad lyktum géck inn í helgidóm Guds,
og gaf gjætur ad þeirra endalokum.
Þad er víst, ad þú hefir sett þá á hálañ 18.
stig, þú lætur þá steypast í afgrunn.
Hvørsu voveiflega tortýnust þeir! 19.
þeir hvurfu! þeir fengu skélfilega
endalykt! eins og menn hlæa ad 20.
draumi, þegar menn vakna, svo gjør-
ir þú, Drottinn! skugga þeirra ad
skimpi í borginni. Medan hjarta 21.
mitt gramdist, og eg innvortis skarst
af ángist, þá var eg skynlaus, og hafdi 22.
enga þeckingu: svo sem dýr mátti eg

 23.

23. sýnast í þínum augum. En nú er
24. eg fastheldinn við þig. Þú tekur
í hønd mér, þú leidir mig eptir þínu
ráði; vegsemd kémur að lyktum: þú
25. tekur mig til þín! hvørr mundi sá
á himnum vera, eda hvørr á jørdu,
sem eg mætti gledjast vid, svo sem þig?
26. þó sála mín og líf ormagnadist, þá er
þó Gud eilíflega minn verndari, og
27. mitt ædsta góda; því sjá! þeir, sem
frá þér falla verda að tortýnast. Þú
28. eydileggur alla svikara; en mér er
það heill, Gudi ad tilheyra, og ad
fulltreysta þeim Drottni, Drottni,
þegar eg tel saman øll þín verk.

## Þridji Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Gudhrædsla og dygd, greidir oss hinn óhultasta veg til lucku og blessunar.

1.) Hvørr, sem óttast Drottinn, og gjørir það rétt er, þarf ecki að skélfast fyrir óhamíngju, né efast um að leyfilegir atburdir fái farsæl afdrif.

Salóm. Ordsqv. 3, v. 1-35.

1. Vísdómur segir: son minn! gleym ei kénníngu minni, lát hjarta þitt

vard-

vardveita mín bodord. Því þau 2.
munu abla þér lángrar og luckusæll-
ar æfi og allrar æskileguſtu farsæld-
ar. Rádvendni og trúmennska skilji 3.
aldrei vid þig! bind þær, sem skart
þér um háls og skrifa þau á spjald þíns
hjarta! þá ødlast þú hylli og nád í 4.
Guds og manna augum. Fulltreyst 5.
þú Drottni af øllu hjarta, en reid þig
ecki á þín egin hyggindi. Lít þú ein- 6.
úngis til hans á øllum þínum vegum,
hann mun vissulega greida þína gøtu. 7.
Lát þér ei þykja, ad þú sért vís, en ótt-
ast Drottinn, og fordast hid illa.
Þad er læknismedal líkama þínum, 8.
og vøkvi þínum beinum. Brúka þín 9.
efni Gudi til dýrdar, og frumgróda
þíns ávartar: þá munu hlødur þínar 10.
yfirgnæfanlega fyllast, og muungát
flóa útúr þínum pressu-kérum. En ó- 11.
nýt ei heldur, son minn! Drottins aga,
og vert ei óþolinmódur þá hann refsar;
því hann, sem Drottinn elskar, agar hann, 12.
og breytir álíkt og sá fadir, sem vill
syni sínum vel. Sæl er sú manneskja, 13.
sem finnur vísdóm, sú manneskja, sem
grefur upp hyggindi; því þau eru 14.
betri vara enn sylfur, og betra hlut-
M 3 15.

15. skipti eñ gull; og dýrmætari eru þau-
enn perlur, og enginn hlutur, sem
þú gétur kostid þér, kémst í samjøfnud
16. vid þau: þau hafa lánglífi í hægri
hendi, ríkdóm og heidur í hinni vinstri.
17. Vegirnir, á hvørja þau leida eru
yndælir vegir, og fridurinn drottnar
18. um alla þeirra ferla; svo sem lífs-
ins tré eru þau þeim, er eptir þeim
sækja, og farsæll er sá, sem kostgjæf-
19. inn er í því. Med vísdómi grund-
valladi Drottinn jørdina, og tilbjó
20. himininn med hyggindum. Med
skynsemi sinni lét hann þau djúpu
votn velta fram, og náttfall drjúpa
21. nidur úr skýjunum. Son minn!
þessi meiníngar-yrdi mega ei hverfa
þínum augum! vardveit þú ráddeild
22. og hyggindi: þad er líf sálar þinnar,
23. og skart á hálsi þínum. Þá fer þú
óhultur leidar þinnar, og fót þinn
24. steytir þú ei. Þegar þú leggst til
hvíldar, muntú engu þurfa ad qvída,
heldur máttú hvílast og svefninn
25. verdur þér vær. Ecki þarft þú ad
óttast voveiflega skélfíngu, ecki þad
ófall, sem dynur yfir hina vondu;
26. því Drottinn er þín ørugga hjálp, og
hann

hann varðveitir þinn fót, svo hann
tælist ecki í snörur. Hlidra þér ecki 27.
hjá ad veita velgjordir þeim nauð-
stadda, ef þú átt kost á ad veita þær.
Seig ecki vid þinn náúnga: far burt 28.
og kom aptur á morgun, þá skal eg
géfa þér, ef þú gétur géfid honum strax.
Brugga þínum náúnga enga ógjæfu; 29.
því hann má géta óhultur hjá þér búid.
Hef þú ecki orsakalaust þráttun vid 30.
nockurn, hafi hann eckért gjört á hluta
þinn. Vert ecki ófyrirlátsamur vid 31.
ójafnadar-mann, og tak ecki heldur
fyrir þig ad gánga á hans vegum.
Því hinn undirföruli er andstygd 32.
fyrir Drottni, en þeir hreinskilnu
njóta hans trúnadar. Drottins bann 33.
er yfir húsi hins rángsleitna, en hýbýli
ens réttláta blessar hann. Spottar- 34.
ana mun hann í stadinn ad spotti
gjöra, en audmjúkum veitir hann náð.
Þeir vísu munu sæmd ødlast, en dár- 35.
arnir upphefjast med smán.

2.) Lángt er frá því, ad hinn óguðlegi sé farsæll vegna sinna yfirfljótanlegu næota, en þvert á móti er hinn réttvísi gladur og hug-hraustur midt í örbyrgð sinni.

Salóm. Orðsqv. B. 15 Kap. v. 6-19.

6. Yfirfljótanlega miklar nægtir eru í
húsi hins ráðvanda; en iñtektum ógud-
legra fylgir eitthvað, sem sóar þeim.
7. Varir hins spaka útdreifa nytsamri
þeckíngu, en fávísra hjarta er óstödugt.
8. Ad offri hinna ógudlegu er Gudi and-
stygd; en bæn hins frómlundada, er
9. honum gédfeld. Háttalag þess ógud-
lega, er vidurstygd í Guds augliti; en
hvørr, sem sækist eptir ráðvendni, er
10. honum kjær. Púngri hirtíngu sætir
sá, sem víkur af réttum vegi; og sá, sem
vidvørun hatar, hlýtur ad tortýnast.
11. Grøf og afgrunn, eru opin fyrir aug-
um Drottins; hvørsu miklu framar
heimuglegir þánkar maña barna!
12. Ógjarnan þyggur spottariñ ad menn
áminni hann; þess vegna kémur hañ
13. ecki á fund hygginna manna. Ró-
samt sinni gjørir mann gladlegañ; en
innvortis hugraun, gjørir lundernid
14. módlaust. Hinn hyggni ástundar ad
ná skilníngi; en augu hinna heimsku
hafa einúngis heimsku-vør fyrir
15. augna-mid. Pó allir dagar hins fá-
tæka séu erfidir; er hann í daglegu
géstabodi, hafi hann ánægt hjarta.

Betra er lítilrædi med ótta Drottins, 16.
eñ nægtir miklar ásamt hugsýki. Eiñ 17.
réttur græn-grasa med vinsemd, er
betri eñ feitt eldis-naut, þá hatur er
ødrumegiñ. Brádlyndur madur vek- 18.
ur klf, en hiñ hógværi kémur á sáttum.
Hinum lata þykir vegurinn þyrni- 19.
veggjum girdtur, en stigur rádvandra
er ruddur.

# Sunnudagur eptir Nýár.

## Adal-hugleiding.

**Jesús kénnir opinberlega, svo sem sá, sem beinleidis væri af Gudi sendur, til ad kuñgjøra hans vilja, og fullkomna þad hann ályktad hafdi, um frelsi syndaranna.**

## Fyrsti Argángur.

### Høfud-lærdómur.

**Þad er gagnstædt Jesú eiginn vitnis-burdi, ad tileinka mann-viti hans, þann**

vísdóm, sem hann bodadi, þared hann sífeldlega vottadi, ad sér væri hann af sjálfum guddóminum meddeildur.

1.) Jesús vitnadi hátídlega fyrir fólkinu, ad hann kénndi ecki eptir eiginn hug-þótta sínum, heldur hvad Gud hefdi sér bodid, frá hvorjum hann sendur væri.

Jóh Gudsp. 7 Kap. v. 14-36.

14. En þá Lauf-skála-hátídin stód hærst, géck Jesús upp í musterid og kénndi (ad venju, í forbyrginu hvelfingar nockurrar).
15. En Gydíngarnir undrudust og sogdu: hvørsu er hann svo lærdur ordinn, þared hañ hefir ecki ydkad bókmentir?
16. Jesús svaradi þeim og sagdi: minn lærdómur er ecki af sjálfum mér, held-
17. ur frá þeim, er mig sendi. Vilji nockurr gjøra hans vilja, mun hann, hvad kénnínguna snertir, komast ad raun um, hvort hún er frá Gudi, eda
18. hvørt eg tala af sjálfs dádum. Hvørr, sem talar af sjálfum sér, leitar eiginn vegsemdar. En hvørr, sem þvert á moti leitar einúngis þess vegsemdar, sem hann sendi, er sannsøgull, og fer
19. ei med vél. Gaf Móses ydur ecki løgmál? en enginn ydar lagar sig þó

eptir

eptir løgmálinu! því leitist þér vid
ad slá mig í hel? fólkid svaradi og 20.
sagdi: djøful-ódur ert þú! hvørr leit-
ast vid ad slá þig í hel? Jesús svaradi 21.
þeim og sagdi: eg gjørdi eitt verk, yfir
hvørju þér allir féllud í furdu (Jesús
læknadi á Sabbaths-degi hinn iktsjúka,
sem veikur hafdi verid í 38 ár, Jóh. 5, 1-16).
Pad er þó svo, ad Móses gaf ydur 22.
umskurnina; ecki ad umskurnin í
sondverdu sé frá Móse, heldur frá
fedrunum og umskérid þér þo mañ-
eskjur, jafnvel á Sabbaths-degi. Ef 23.
nú manneskja má á Sabbaths-degi
umskurn hljóta, svo ad Mósis løg-
mál sé ei brotid, því erud þér þá svo
uppæstir gégn mér, vegna þess eg á
Sabbaths-degi gjørdi alla mannesk-
juna hrausta og heilbrygda. Dæmid 24.
þó ecki eptir útvortis áliti, heldur
fellid réttann dóm! Pá søgdu nockr- 25.
ir af Jerúsalems innbyggjurum: er
hann ecki sá, sem menn leitast vid ad
slá í hel? en sjáid! hann kénnir þó op- 26.
inberlega, og enginn ákjærir hann
med einu ordi þar fyrir! mun þá Yf-
irvaldid vita nú fyrir víst, ad hann sé
Messías í raun og veru? eñ … meñ 27.
bera

bera þó kénnslu á hann, hvadan hañ
er; en þegar Messías kémur, veit
enginn hvadan hann er ad, (sem nockrir
28. lærdir medal Gydínga hermra vildu). Jes-
ús, sem kénndi í musterinu, hóf nú
upp røddu sína og sagdi: þid þeckid
mig þá, og vitid hvadan eg er ad! af
sjálfum mér til er eg þó ecki kominn;
en hann, sem mig sendi, er haldinn-
ordur (med því ad senda mig, endir hann
hvad hann lofad hefir vidvíkjandi Messías):
29. Þér þeckid hañ ecki, (skiljid ecki hans til-
gáng), en eg þecki hann; því eg er frá
honum kominn, og hann sendi mig.
30. Þá ætludu menn ad handtaka hann;
þó lagdi enginn hendur á hann, því
31. hans tími var enn þá ecki komiñ. Þó
settu margir af alþýduñi trú til hans,
og søgdu: mun Messías, þá hann
kémur, gjøra fleiri krapta-verk enn
32. þessi gjørir? En þegar Pharísæun-
um barst til eyrna ad alþýdan qvísadi
þvílíkt um hann, sendu bædi Pha-
rísæarnir og þeir yppurstu Prestar
33. lidsmenn út, til ad grípa hann. En
Jesús sagdi vid þá: eg verd ei fram-
ar nema stutta stund hjá ydur, og þá
34. fer eg til þess, sem sendi mig. Þá
munud

munud þér leita mín, en ecki fiña; því
hvar eg verd, þángad gétid þér ecki
komist. (þegar hörmúngarnar tóku ad
dynja yfir fólkid, mundu margir ydrast
eptir, ad ei hefdu skipast látid betur vid
hans ord, og óska ad hann væri nú aptur
nálægur þeim, en þá væri þad um seinna)
Þá sögdu Gydíngar sín á milli: 35.
hvört mun hann ætla sér, fyrst vid
egum ecki ad géta fundid hann? skal
hann ætla ad ferdast til þeirra, sem út
eru tvístradir medal Gryckja, og
kénna þeim Grysku? hvad mun þad 36.
þó þýda þad hann segir: þér skulud
leita mín, og ecki finna; og hvar eg
verd, þángad gétid þér ecki komist?

2.) Jesús útleggur og sannar, hvörsu ná-
qvæmlega hann, svo sem Guds Sonur, sé sam-
einadur Gudi, sínum fødur, svo engin er or-
søk ad efast um, hvört hans lærdómur egi
guddómlegur ad álitast.

Jóh. Gudsp. 10 Kap. v. 22-42.

Þá kom musteris vígslu hátíd í Jerú- 22.
salem og vetur stód yfir. Jesús 23.
var á gángi til og frá í musterinu í
Salómons þakta gángi. Þá um- 24.
kríngdu Gydíngar hann, og sögdu:
hvörsu lengi ætlar þú ad láta oss í ó-
vissu?

vissu? sértú Messías, þá seig oss
25. það med ljósum ordum! Jesús ans-
adi þeim: eg hefi sagt ydur það, en
samt trúid þér ecki; þau verk, sem eg
gjøri í nafni fødur míns, vitna um
26. mig; en þér trúid ecki; því þér erud
ecki af mínum saudum, sem eg er
27. búinn ad segja ydur. Mínir saudir
heyra mína røddu og eg þecki þá,
(svo sem hyrdirinn þeckir sína egin saudi,
og kallar á þá med nafni, þegar hann
leidir þá út í hagann, og ber náqvæma
umhyggju fyrir rækt þeirra), og þeir
28. fylgja mér. Eg géf þeim hid eilífa
lífid, og eilíflega skulu þeir ei glatast,
og mér úr hendi skal enginn hrífsa þá.
29. Fadir minn, sem gaf mér þá, er vold-
ugri enn allir, og enginn orkar ad
30. hrifsa þá úr fødur míns hendi: vid
31. fadir minn erum eitt!*). Þá tóku
Gyd-

*) Jesús hefir fullvissad þá, sem hann einlæglega viðurkjenna, um óhulta vernd undir sinni umsjón, v. 27. og um eilífa sælu í ødru betra lífi, vegna sinnar nádar-ríku og kroptugu umønnunar, v. 28, þeim til trúar-styrkingar, ad þetta loford skuli efnt verda, gjetur hann þess, ad það se vilji og rádstøfun síns almáttuga føðurs, ad hann

Gydíngar aptur upp steina, til ad
grýta hann. Þá sagdi Jesús vid þá: 32.
mørg þýrdleg verk hefi eg látid ydur
sjá, frá Fødur mínum: fyrir hvørt
af þessum verkum, ætlid þér nú ad
grýta mig? Gydíngar svørudu hon- 33.
um og sogdu: vér grýtum þig ecki
fyrir neitt dýrdlegt verk, heldur søk-
um þess þú spottar Gud, og rétt fyr-
ir þad, ad þú, sem ert madur, gjørir
þig sjálfann ad Gudi. Jesús ansadi 34.
þeim: stendur ecki skrifad í ydar løgbók
(hinum helögu bókum): eg sagdi þér er-
35.

hann skuli efla þeirra farsæld, og ad Fadirinn vilji þess vegna sjálfur vernda þá. En Fødursins vald se hid allramesta, enginn óvinur gjeti stadist fyrir honum, þeim se öldúngis óhætt í hans umsjón, v. 29. og þá segir hann: fadirinn og eg, vid erum eitt; Í sambardi vid þad undangengna, verdur ecki hugsad til annars nákomnara, enn ad Sonarins vald se sama og Fødursins. Sonurinn annast rjettskickada játendur sannleiksins, eins volduglega og Fadirinn, því vald Fødursins tilheyrir Syninum einninn, þeir samverka med jöfnum krapti, til verndar þeim gudræknu og þad er efalaust ad Fadirinn hefir sama tilgang og Sonurinn, en textinn gjetur ei þess einúngis, eptir kríngumstædunum.

35. ud Gudir! (Ps. 82, 6). Kalli hún
nú þá Gudi, (Fursta og Yfirvöld) til
hvørra Gud þó bodord útgaf, (sem eru
þess vegna þjónar Guds) — en Ritn-
36. íngin má ei raskast ... hvørsu megid
þér þá segja vid þann, sem Fadirinn
útkjøri, og sendi í heiminn: þú spott-
ar! af því eg sagdi: eg er Sonur
Guds? (þó hann væri einúngis madur,
spottadi hann samt ei, þared sjálf Ritn-
íngin setur þá menn í Guda tølu, sem
ad Guds vilja settir vóru til ad vid-
halda rétti og reglu manna á milli. En
þarhjá gésur hann strax ad skilja, ad miklu
náqvæmari og ædri sameiníng sé Guds
og hans á milli, sem verk hans leida í ljós).
37. Gjøri eg ecki verk Fødur míns, þá
38. trúid mér ei; en gjøri eg þau, þá
trúid þó verkunum, jafnvel þó þér
viljid ei trúnad til mín setja, svo þér
þanninn gjætud skilid og trúad ad
Fadirinn er í mér, (mér náqvæmlegast
sameinadur) og eg í honum (eins náqvæm-
39. lega sameinadur honum). Þá leitudust
þeir aptur vid ad grípa hann, en hann
40. slapp úr þeirra høndum. Þá gékk
hann á ný yfirum Jórdan, þángad
sem Jóhannes í øndverdu skírdi, og
dvaldi

hvaldi þar: margir komu þá til hans, 41.
og søgdu: Jóhannes gjørdi ad sönu
engin krapta-verk, en allt hvad Jó-
hannes sagdi um þennann mann, er
satt. Og í því bygdarlagi trúdu 42.
margir á hann.

# Annar Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Hvørr, sem lítils metur Jesú lærdóm, lætur undir eins í ljósi, forakt gégn Guds egin rádstøfun, og leidir yfir sig ansvar fyrir Gudi, søkum þvermódsku sinnar.

1.) Med því ad skeyta ei Jesú lærdómi, lætur vantrúad hjarta heimskulega þvermódsku í ljósi, og spillir fyrir sjálfum sér þeim miklu gjædum, sem Gud hefir fyrir Jesúm áqvardad syndurunum til lausnar.

Jóh. Gudsp. 8 Kap. 12-47.

I annad sinni taladi Jesús vid Pha- 12.
rísæana og sagdi: eg er ljós heimsins!
hvørr, sem fylgir mér, skal ecki ráfa
í myrkri, heldur hafa ljós (undan sér
á veginum) til lífsins. Þá søgdu Pha- 13.
rísæarnir vid hann: þú vitnar um
sjálfann þig! þitt vitnisburdur er ecki

 14.

14. merkur. Jesús svaradi þeim og sagdi:
jafnvel þó eg beri sjálfum mér vitni,
er minn vitnisburdur þó merkur;
því eg veit hvadan eg kominn er, og
hvört eg fer, en þér vitid hvörki hvad-
15. an eg er, eda hvört eg fer. Þér dæm-
id eptir útvortis áliti; en þanninn
16. dæmi eg engann. En þegar eg dæmi,
er minn dómur merkur; því einn er
eg ecki, en bædi er eg hér, og Fadirinn
sem mig sendi (hvörs almættis samverkun
auglýst ist í Jesú krapta-verkum, Jóh. 5, 36).
17. Nú stendur þó skrifad í ydar lögum:
ad vitnisburdur tveggja manna sé
18. gyldur, (5 Mós. 6. 19, 15). Eg er þá
hér, og ber vitni um sjálfann mig, en
Fadirinn, sem sendi mig, ber mér einn-
19. inn vitni. Þá sögdu þeir vid hann:
hvar er fadir þinn? Jesús svaradi
þeim: hvörki þeckid þér mig né
födur minn; ef þér þecktud mig, þá
20. þecktud þér einnin minn födur; þessi
ord taladi Jesús hjá Guds-kistunni, í
því hann kenndi í musterinu; en eng-
inn greip hann, því enn þá var hans
21. stund ecki komin. Í ödru sinni sagdi
Jesús vid þá: eg fer burt, og þá munud
þér leita mín, en þér skulud deyja í ydr-
ar

ar synd, (hegningin fyrir ydar blygdun-
arlausu vantrú og gudleysi skal vissulega yf-
ir ydur koma) þángad sem eg fer gét-
id þér ecki komist. Þá søgdu Gyd- 22.
íngar: skal hann þá ætla ad drepa
sjálfann sig, fyrst hann segir: þángad,
sem eg fer, gétid þér ecki komist? Þá 23.
sagdi hann vid þá: þér erud hér ad
nedan, eg er ofanad; þér erud af þess-
um heimi, eg er ecki af þessum heimi.
(ydar jardneska sinnislag veldur því ad
þér skiljid ecki minn andrika lærdóm, og
játid ecki ad eg sé sá, sem eg er). Þess 24.
vegna sagdi eg ydur, ad þér deyja
skyldud í ydar syndum; því ef þér trú-
id ecki ad eg sé sá, (sem á ad koma),
hljótid þér ad deyja í ydar syndum.
Þá spurdu þeir hann: hvørr ertú þá? 25.
Jesús svaradi þeim: rétt sá sami og
eg sagdi ydur frá ǫndverdu, (ljós ver-
aldar, Fødursins sendibodi). Mikid hefdi 26.
eg ad segja og dæma um, í tilliti til yd-
ar: trúverdur er og sá, sem sendi mig,
og hvad eg af honum heyrdi, þad segi
eg um verøldina (vantrú þeirra, og hvørju
þeir hardsvíradir vóru, mátti hann Guds
vegna med rétti bera þeim á brýn, og
vara þá vid forþéntu straffi.) En þó 27.

tóku þeir ei eptir ad hann nú taladi
28. vid þá um Fødurinn. Þess vegna
sagdi Jesús enn framar vid þá: þegár
ydur hefir tekist ad upphefja Manns-
ins Son (á krossinn) þá skulud þér
vidurkénna ad eg er sá (sem á ad koma;)
og af sjálfum mér, tekst eg eckert á
hendur, en eg tala þad, sem minn
29. Fadir kénndi mér. Sá, sem sendi
mig, er og med mér; Fadirinn lét
mig ecki einmana vera, vegna þess eg
ætid gjøri þad, sem honum er þóckn-
30. anlegt. Og, sem hann taladi svo,
31. festu margir trú til hans. Þá sagdi
Jesús vid þá Gydínga, sem fest høfdu
trú til hans: séud þér fastheldnir
míns lærdóms, þá erud þér í rann og
32. veru mínir lærisveinar. Þá munud
þér sannleikann vidurkénna, og
33. sannleikurinn skal frelsa ydur. Þeir
svorudu honum: vér erum Abra-
hams afsprengi, og høfum aldrei
nockurs manns þrælar verid; hvorsu
mátt þú þá segja: þid skulud frjálsir
34. verda? Jesús svaradi þeim: eg segi
ydur þad satt og víst, ad hvørr sá, sem
drýgir synd, er þræll syndarinnar.
35. En þrællinn verdur ecki ætíd í húsinu;
son-

sonurinn þaránjót verdur þar jafnan.
Fái þá sonurinn frelsad ydur, verdid 36.
þér sannarlega frjálsir (ad ødrum kosti
ser ydur, sem þverbrotnum þrælum, ad
Herrann kannast ei framar vid þá, og burt-
hrekur þá og lætur fyrirfarast í þeirra sjálf-
skapar vítum). Mér er alkunnugt 37.
ad þér erud Abrahams afsprengi;
en þó leitist þér vid ad ráda mig af
døgum, þvi þér viljid ecki veita mín-
um lærdómi vidtøku. Um þad tala 38.
eg, sem eg sá, hjá fødur mínum, svo
gjørid þér og þad, sem þér sánd hjá fød-
ur ydar. Þá svørudu þeir honum 39.
og søgdu: Abraham er vor fadir!
Jesús ansadi þeim: værud þér Abra-
hams børn, (líkust honum ad lund-
erni og hjartalagi,) þá gjørdud þér A-
brahams verk. En nú kappkostid 40.
þér, ad ráda mig af døgum, mann,
sem sagdi ydur sannleikann, sem eg
heyrdi hjá Gudi; þvílíkt gjørdi
Abraham ecki. En þér gjørid verk
ydar fødurs. Þá svørudu þeir hon- 41.
um: hórgétnir erum vér ecki, einn
fødur egum vér, sem er Gud.*) En 42.
N 3 Jes-

*) Ritningin setur fall Gydinga, frá hinum sanna Gudi til heidínglegrar afgudadýrkunar, fyrir

Jesús gégndi þeim aptur: væri Gud
fadir ydar, hefdud þér orsøk til ad
elska mig, því eg er útgenginn og kéin
frá Gudi; frá sjálfum mér kom eg ecki,
43. en hann sendi mig. En vegna hvørs
mundud þér ei skilja mína rædu?
vegna þess þér standist ecki ad heyra
44. minn lærdóm. Sá fadir, af hvør-
jum þér erud, er djøfullinn (hvørs sinni
þér líkist); og þad, sem fødur ydar
gédjast, viljid þér gjøra; mordíngi
var hann frá øndverdu (med því hann
var orsøk til ad manneskjan, sem lét hann
tæla sig til syndarinnar, vard dauda sek,)
og vid sannleikann héldt hann ecki:
enginn sannleikur er í honum. Þeg-
ar hann lýgur, talar hann af eginn
ramleik; því hann er lygari, og lýg-
innar Fadir. (Þad sem hann sagdi vid
45. qvinnuna vóru einber ósannindi). Vegna
þess

sjónir, svo sem álíka ótrygd, og látin er í hósi med
hórdómi í ektaskap; Jesú tilheyrendur, tóku hans
advørun fyrir brixli um afgudadýrkun, sem þeir
erst hefdu af fedrum sínum; frá þessu afsaka
þeir sig, en forgjefins, med því hann hafdi ann-
ad augnamid, sem hann strax á eptir þurfti ad
segja þeim berlega, vegna þess þeir vildu ecki
skilja til hvørs hann bendti.

þess eg hvert á móti segi satt, þá
trúid þér mér ecki. Hvørr ydar gét- 46.
ur sannad ad eg sekur sé nockurrar
syndar, en segi eg sannleikann, því
trúid þér mér þá ecki? hvørr, sem á 47.
Gud fyrir fødur, heyrir Guds ord;
en þér heyrid þad ecki, af því þér er-
ud ecki Guds børn.

2.) Med því Jesú lærdómur er ei mannleg uppáfinning, heldur Guds egid rád, syndgum vér beinlínis móti sjálfum Gudi, og hljótum ad gjøra grein á því fyrir hans dómstóli, ef vér hvørádarsamlega og af illgyrni skeytum honum ei.

Jóh. Gudsp. 12. Kap. v. 44-50.

Þar eptir hóf Jesús upp røddu sína 44.
og sagdi: trúi nockurr á mig, þá trú-
ir hann ecki á mig (einasta vegna mín
sjálfs, edur einúngis ad mínum eginn vilja)
heldur á þann, sem sendi mig. Því 45.
hvørr mig sjer (og gaumgjæfir mín ord
og verk) sá sjer og þann, sem mig út-
sendi (Þared hans guddóms-kraptur aug-
lýsir sig hér svo berlega). Svo sem 46.
ljós kom eg í heiminn, svo ad hvørr,
sem á mig trúir sé ecki framar í myrkr-
inu. Ef nú einhvørr heyrir minn 47.
lærdóm, og trúir honum ecki, vil eg

þó ecki dæma þann; því eg kom ecki
til ad dæma heiminn, heldur til ad
48. frelsa hann. Engu sídur hefir þó
sá, er skeytir mér ei, og medtekur
ecki minn lærdóm, sinn dómara;
ordid, sem eg taladi, skal dæma hann
49. á hinum sídasta degi; því eg taladi
ecki af sjálfum mér, en Fadirinn, sem
sendi mig, lagdi sjálfur fyrir mig
hvad eg segja skyldi, og hvad eg tala
50. skyldi; og eg veit, ad þessi hans
fyrirsögn, greidir veginn til eilífs
lífs; þess vegna hvad eg tala, tala
eg eins og Fadir minn baud mér.

## þridji Árgángur.

### Höfud-lærdómur.

Sjálfur Jesús hafdi þá allra fullkomnustu vissu um, ad hann væri náqvæmlegast sameinadur sínum himneska Fødur, ad guddóms-krapti og dýrd, og ad sá lærdómur, sem hann útbreiddi, væri sannur og guddómlegur.

1.) Eins og frá upphafi, héldt Jesús áfram allt til enda, ad sannfæra sína lærisveina um

ad

ad hans lærdómur væri þess himneska Fød-
ursins egin rádstafan.

Jóh. Gudsp. 14 Kap. v. 1-14.

Jesús sagdi vid lærisveinana í sinni 1.
skilnadar-rædu: látid ydur ad eins
ei hugfallast! trúid á Gud! og trúid
á mig! mørg hýbýli eru í míns Fød- 2.
urs húsi, annars hefdi eg géfid ydur
adra undirvísun, eg fér þá burt, ad til-
reida ydur stad. En þegar eg er far- 3.
inn burt og fæ tilbúid ydur stad, kém
eg aptur, og mun taka ydur til mín
svo þér séud og þar, sem eg er.
(sanntrúadir mega vænta hinna ríkuglegs-
ustu nádar-launa fyrir Jesúm og hjá hon-
um, í annari betri veraldu hvar Gud gétur
útbýtt yfirfljótanlegri farsæld børnum sínum).
Þér vitid hvørt eg fer, og veginum 4.
þángad erud þér líka kunnugir. Þá 5.
sagdi Thómás vid hann; Herra!
ecki vitum vér hvørt þú fer: hvørsu
gétum vér þá þeckt veginn? Jesús 6.
svaradi honum: eg er vegurinn og
sannleikurinn og lífid! enginn kém-
ur til Fødursins neina fyrir mig.
(Jesús alleina, svo sem guddómlegur sann-
leiksins kénnari, leidir oss óhult til eilífrar
sáluhjálpar). Hefdud þér þeckt mig 7.

þá hafid þér og þeckt Fødur minn; (með því að álykta rétt um Messías, hefðu þeir einninn fengid rétt álit um Fødursins rádstøfun og vilja), en hédan í frá þeckid þér hann, og hafid sjed hañ (Jesú dauði, og þar eptirfylgjandi upprísa átti að leiða þá til ljósari skilnings
8. um Guðs Føðurs ályktanir). Þá sagdi Philippus vid hañ: Herra! sýn oss Fødurinn! og það skal þá vera oss nóg (hann vildi guddómurinn birtast skyldi með
9. yfirnáttúrlegum ljóma). Jesús svaradi honum: hef eg þá verið svo lengi hjá ydur, og þó þeckir þú mig ecki, Philippus! hvørr, sem mig hefir sjed, hefir líka sjed Fødurinn, (að því leiti, sem Faðirinn má sjást eda þeckjast af sínum almættis-verkunum, hvørjar og
10. ljómudu af Jesú furdu-verkum). Eñ hvørsu mátt þú þá segja: sýn oss Fødurinn! trúir þú ecki að eg sé sameinadur Fødurnum, og Fadirinn mér? lærdóminn, sem eg boda ydur, leidi eg ei fyrir sjónir af sjálfum mér, og Fadirinn, sem ætíd er mér sameinadur, framqvæmir sjálfur verkin.
11. Trúið mér: eg er sameinadur Fødurnum og Fadirinn mér; en ef þér tak-

takid mín ord ecki trúanleg, þá trúid
mér þó søkum þeirra verka. Eg segi 12.
ydur øldúngis satt og víst: einnin sér-
hvørr (ydar á milli), sem á mig trúir
skal géta gjørt þau verk, sem eg gjøri,
og jafnvel þau, sem taka þessum fram,
skal hann gjøra (hann skal lángtum vid-
ar útbreida sannleiksins lærdóm, og á-
vinna enn fleiri játendur hans) því nú
fer eg burt til Fødur míns (þared
mínu erindi á jordunni er lokid), og hvad, 13.
sem þér bidjid þá um í mínu nafni,
skal eg utrétta, svo Fadirinn megi
Sonarins vegna dýrdlegur verda.
Þegar þér bidjid nockurs í mínu 14.
nafni, skal eg framqvæma þad.

2) Undir þad Jesús gaf sig í daudann, gjørdi hann þá mikilvægu játníngu fyrir augliti síns himneska Fødurs, ad hann hefdi ecki annad kénnt, enn þad honum var af Fødurnum á hendur falid, og ad honum tilheyri þeir miklu yfirburdir í raun og veru, sem hann vitnadi um, til sannfæríngar um ad hann væri af Gudi sendur.

Jóh. Gudsp. 17 Kap. v. 1-26.

Sem Jesús hafdi nú lyktad sína rædu 1.
(ad skilnadi vid lærisveinana), hóf hann
sín augu upp til himins, og sagdi:

Fad-

Fadir! tíminn er kominn (hinnar sídustu þjáníngar), vegsama þinn Son, ad þinn Sonur megi einninn vegsama
2. þig. Med því þú hefir einninn lénad honum vald yfir ollu mannkyni, svo ad hann veita megi ollum, þeim þú
3. géfur honum, hid eilífa líf. En þetta sjálft er eilíft líf (óforgengileg farsæld) ad þeir þecki þig hinn einasta sanna Gud (upphafinn yfir allt, sem annars kallast guddómur í verøldinni); og þann, sem þú útsendir, Jesúm Krist. (þann fyrirheitna Sáluhjálpara).
4. Þig hefi eg vegsamad á jørdu: þad verk hef eg til lykta leidt, sem þú fólst mér á hendur ad framqvæma (med því ad útbreida
5. og stadfesta sannleikann). Gjør mig nú og vegsamlegann fyrir sjálfum þér, med þeirri vegsemd eg átti hjá þér,
6. ádur verøldin vard til. Þeim mønnum, sem þú gafst mér í verøldinni, hefi eg kunngjørt þitt nafn: þeir vóru þínir, en þú gafst mér þá, og þeir hafa
7. vardveitt þitt ord. Nú játa þeir, ad allt, sem þú gafst mér, er frá þér;
8. því þá lærdóma, hvørjum þú útbýttir mér, hefi eg afhendt þeim, og þeir hafa veitt þeim vidtøku, og einlæglega vidur-

vidurkénnt, ad eg sé frá þér útgenginn,
og þeir trúa ad þú hafir sendt mig.
Fyrir þeim bid eg! ecki bid eg fyrir 9.
heiminum (hinum vantrúudu, gudlausu
manneskjum, sem ecki geta tekid á móti
þeim andlegu velgjørningum, um hvørja
hér er bedid), heldur fyrir þeim, sem
þú gafst mér, því þeir heyra þér til.
Allt hvad mitt er, er einninn þitt, og 10.
hvad þitt er, er og mitt og fyrir þá 11.
verd eg vegsamlegur. Lengur verd
eg ecki í heiminum, en þeir verda í
heiminum, eg fer þar á mót til þín.
Heilagi Fadir! haldt þeim, er þú
gafst mér, fastlega vid nafns þíns vid-
urkénníngu, ad þeir megi vera eitt,
eins og vér (upplifgast af jafn-samtaka
fylgi í utbreidslu sannleikans). Med- 12.
an eg var hjá þeim í heiminum, héldt
eg þeim fast vid nafns þíns vidurkénn-
íngu: eg geymdi þá, sem þú gafst mér,
og enginn tortýndist, nema hin gjør-
spillta manneskja, svo ad Ritníngin
uppfylltist. En nú kém eg til þín, og 13.
segi þetta medan eg er í heiminum,
svo þeir megi minnar gledi fullkom-
lega hluttakandi verda. Eg hefi af- 14.
hendt þeim þitt ord; en heimurinn
hat-

hatar þá, vegna þess þeir eru ecki af
heiminum (eru ecki eins sinnadir, og
hinu gálausi múgur manna), eins og
eg ecki heldur er lundadur líkt heim-
15. inum. Ecki bid eg þig um ad taka
þá burt úr heiminum, heldur ad þú
16. virdist ad vernda þá frá því illa; þeir
hafa ei heimsins lunderni, eins og eg
er ecki heldur eptir heiminum lyndur.
17. Helga þá þíns sannleiks vegna!
18. þitt ord er sannleikur. Eins og þú
sendir mig til heimsins, svo sendi eg
19. þá og út um heimiñ; og þeirra vegna
legg eg sjálfañ mig í sölurnar, ad þeir
megi allteins fórufæra sig sannleik-
20. anum; þó! eg bid ecki einúngis fyrir
þessum, heldur og fyrir þeim, sem
þeirra uppfrædíng á ad leida til ad
21. trúa á mig, ad allir þeir megi eitt
vera, allteins og þú, Fadir! ert eitt
med mér, og eg med þér, svo ad þeir
megi einninn eitt med oss vera
(sama sinnis, sem stefni til sama takmarks),
svo ad heimurinn trúa megi, ad þú
22. hafir sendt mig; og þeirrar vegsemd-
ar, sem þú gafst mér, unnti eg þeim
einninn, ad þeir megi eitt vera, svo
23. sem vér erum eitt, eg med þeim, og
þú

þú med mér, svo ad þeir fullkomlega megi eitt verda (inntektir af sama anda og somu laungun, til fullvissu þar um, ad eg brúki þá fyrir medal, svo sem þú mig), svo heimurinn megi vidurkénna ad þú hafir sendt mig, og ad þú elskir þá, eins og þú elskar mig. Fadir! 24.
eg vil, ad hvar eg er, séu einninn þeir hjá mér, sem þú hefir mér géfid, svo þeir megi sjá mína dýrd, hvorrar þú unntir mér; þú elskadir mig, ádur enn grundvollur veraldarinnar var lagdur. Trúfasti Fadir! ad sonnu 25.
þeckir heimurinn þig ecki, en eg vidurkénni þig, og þessir vidurkénna, ad þú séndir mig. Þitt nafn hefi 26.
eg kunngjort þeim, og skal kunngjora, svo ad sá kjærleiki, med hvorjum þú elskar mig, megi einninn yfir þeim vera, og ad eg megi svo líka vera í sameiníngu vid þá.



# I^ta Suñudag eptir Prettánda.

## Adal-hugleiding.

Oraskanléga hefir Jesús stadfest med sínum krapta-verkum, ad hann sé frá Gudi sendur og verki med gud-dóms krapti.

## Fyrsti Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Pad var naudsynlegt, ad Jesús, svo sem guddómlegur Frædari, gjørdi sig nafnfrægann med yfirnáttúrlegum verk-um, ef holdlegar manneskjur ættu ad uppvekjast til ad heyra hann med gaum-gæfni og sannfæríngu.

1). Pegar med sínum fyrstu furdu-verkum leiddi Jesús berlega í ljós, sinn guddómlega mátt og sitt vald, svo hans uppfræding fengi því fljótlegar móttöku hjá hans holdlega sinn-udu tilheyrendum.

Jóh:

Jóh. Gudsp. 2 Kap. v. 1-25.

Á hinum þridja degi (frá því Jesús 1.
ferdadist frá Jórdan, hvar Skírarinn
vitnadi um hann), var brúdkaup hald-
id í *Kana*, sem var í *Galílæa*;
og Jesú módir var þar stødd
(svo sem ættingi brúdhjónanna). En Jesús 2.
var og bodinn ásamt hans lærisvein-
um til brúdkaupsins. En þá vínid 3.
þraut, sagdi módir Jesú (í sorglegu ráda-
leysi) vid hann: þeir eru vínlausir!
Jesús svaradi: qvinna! (á vora túngu: 4.
módir gód*) hvad kémur þetta vid þér
eda mér? (því skyldum vid láta þetta
gánga svo nærri ockur eins og einhver
stór ólucka hefdi tilfallid?) þar fyrir ut-
an er mín stund ecki enn þá komin.
Þó sagdi hans módir vid frammi- 5.
stødu-mennina: gjørid þér einúngis,
hvad hann býdur ydur. Nú vóru 6.
þar sex vatnskér úr steini, sett til ad
þvo sér úr ad sid Gydínga (med því
menn ydduglega þvodu hendur og fætur,
O svo

*) Hjá Gydíngum og Gryckjum, var qvinnu nafnid vegsamlegt, svo þad var brúkad þá menn heilsudu Drottníngum, eda tøludu vid þær. Þann dag í dag er, giefa Enskir Drottníngum sínum sama nafn.

svo þeir hreinir væru eptir lögmálinu),
og hvort eitt kér tók tvo eda þrjá
mælira (hvorr mælir reiknadur fyrir tólf
7. pott-flöskur) Jesús sagdi vid þá: fyll-
id þessi kér med vatn! þau vóru því
8. fyllt á barma. Sídan baud hann
þeim: ausid nú, og færid sida-man-
9. inum, (sem stód fyrir veitslunni). Þá
var þad framborid; en, sem sida-
madurinn smackadi vatnid, sem ad
víni var ordid, og vissi ecki hvadan
þad var, en þénararnir, sem vatnid
jusu vissu þad, þá kalladi sida-mad-
urinn á brúdgumann og sagdi hon-
10. um: hvorr madur skenkir fyrst betra
vínid, en þá menn gjörast ølvadir, hid
lakara; en þú hefir geymt til þessa
11. hid besta vínid. Þanninn hóf Jes-
ús ad gjöra furdu-verk sín í Kana,
sem var í Galílæa, og leiddi dýrd sína
(sinn guddóms krapt) í ljós, og hans
lærisveinar trúdu á hann (svo sem sann-
12. ann Messias). Eptir þad ferdadist
hann ofan til Kapernaum, bædi
sjálfur hann, módir og brædur hans
(synir Jósephs) og hans lærisveinar;
en dvøldu þar þó ecki marga daga;
13. því Páska-hátid Gydínga var nálæg,
og

og Jesús ferdadist upp til Jerúsa-
lem. Par fañ hann fólk í musterinu 14.
(néfnilega í forgardinum), sem hafdi uxa,
saudi og dúfur til sølu (til offurs),
einnig þá er skipti høfdu á peníngum
(sitjandi vid bord, med allskonar myntir,
sérílagi Sekilmyntina, í hvørri hinn ár-
legi musteris skattur líkast átti, svo vid-
komendur gætu fengid hann í skiptum fyr-
ir adra mynt). En þá gjørdi hann 15.
sér svipu úr bøndunum (sem peníngur-
inn var bundinn med), og rak þad allt,
bædi naut og saudi hvørt med ødru
út úr musterinu, og rugladi saman
penínga-hrúgum þeirra, er penínga-
skipti høfdu (svo hvor myntin fór sam-
an vid adra) og hratt um bordum
þeirra: (þegar þeir hofdu burttekid þeirra
sambløndudu myntir, svo þeir skyldu ecki
ad vormu spori byrja prang sitt á ný).
Sømuleidis sagdi hann vid þá, er 16.
feldu dúfur: takid þvílíkt burt héd-
an, og gjørid þó ecki hús Fødur míns
ad verdslunar-húsi!*) en þá kom hans 17.

 læri-

*) Guds musteri kallar Jesús hús síns Fødurs, og gjefur þannveg tilkynna, ad hann, svo sem Sonur Guds, hefdi vald til ad halda gudsdýrkunar-
inn-

lærisveinum í hug, ad svo var skrif-
ad: vandlæting um þitt hús tærir
18. mér, (Ps. 69, 10). Þá tóku Gydíng-
ar til orda, og spurdu hann: hvada
teikn sýnir þú oss, til stadfestu ad þú
megir þvílíkt adhafast? (því eckért var
ámóti hast ad Spámadur mætti þad
19. gjora af heilogu vandlæti). Jesús svar-
adi þeim og sagdi: brjótid þér ad eins
nidur þetta musteri! (og þá lagdi hann
um leid hondina á brjóst sér), eg skal
ad þriggja daga fresti byggja þad
20. upp á ný. Þá søgdu Gydíngar: í
fjørutýgi og og sex ár hefir þetta
musteri í smídum verid (um hvørn tíma
øll musteris byggíngin, sem byggd var
eptir þad fólkid kom aptur frá Babý-
lon, var á Heródesar døgum, og eptir
hans dauda í smáu og stóru endurbætt
og prýdd), og þó ætlar þú ad byggja
21. þad á þremur døgum? en musterid,
sem

innar vegsemd vid. En ad hann baud þeim, er
dúfur seldu, ad bera sjálfir fuglabúr sín á burtu,
í stad þess ad ljúka þeim upp og láta dúfurnar
fljúga burt, sýnir angljóslega, ad hann vildi eckí
gjora nockurri manneskju neinn skada; og eng-
inn verulegur skadi hlautst af neinu því, er hañ
hjer tók ser fyrir hendur.

sem hann umtaladi, var hans eginn
líkami (svo sem hÿbÿli guddóms dÿrd-
ar og hátignar, Col. 2, 9). Sídar 22.
meir þegar hann var af dauda upp-
vakinn, minntust hans lærisveinar
þess ad hann hafdi þetta talad, og
lögdu trúnad á Ritnínguna og þau
ord, sem Jesús taladi. En medan 23.
hann var í Jerúsalem um þessa
Páska-hátíd, fengu margir trú á
hans nafni (ad hann væri hinn sanni
Messias) þegar þeir sáu þau teikn, er
hann gjördi. Þó trúdi Jesús þeim 24.
ecki fyrir sér, því hann þeckti alla;
því honum var ecki þörf á, ad láta 25.
vitna fyrir sér um nockurn mann,
því sjálfur vissi hann yfir hvörju
madurinn bjó.

2.) Heimugleg vantrú hefir svo mikid vald
yfir hjarta mannsins, ad sannleikurinn mundi
litid ávinna, nema sérleg merki guddómlegrar
samverkunar gjöri hann vegsamlegann.

Jóh. Gudsp. 4 Kap. v. 43-54.

Eptir þá tvo daga (sem Jesús dvaldi hjá 43.
þeim Samverskum) fór hann burt þadan
og géck til Galílæa; (ecki til Naza-
reth) því Jesús hafdi sjálfur fullyrdt 44.

ad spámadur sé einkis metinn í sínu
45. egin føðurlandi. En, sem hann
kom nú til Galílæa, tókn Galílæar
honum vel, vegna þess þeir høfdu
sjed allt, sem hann um hátídina
gjørt hafdi í Jerúsalem, því þeir
høfdu og verid þar um sømu hátíd.
46. Þá kom Jesús aptur til Kana, sem
var í Galílæa, hvar hann gjørt hafdi
47. vatn ad víni. En kónglegur Yfir-
madur var í Kapernaum, hvørs son-
ur sjúkur lá. Þegar hann nú heyrdi,
ad Jesús væri kominn aptur, frá
Júdæa til Galílæa, fór hann á
hans fund, og bad hann virdast ad
koma ofan (til Kapernaum) og lækna
son sinn, því hann var adkominn
48. dauda. En Jesús sagdi vid hann:
þér trúid ecki, nema þér sjáid teikn
og furdu-verk fyrir augum. (madurinn
hafdi ad sonnu heyrt mikid um Jesú
furdu-verk, en var þó efablandinn, og
kom einúngis til ad sækja hann, svo hann
forsómadi eckert, sem fólk gjæti eptir á
legid honum á hálsi fyrir, ef sonur hans dæi).
49. Hinn konúnglegi embættis-madur
sagdi vid hann: Herra! kom þó of-
an eptir, ádur enn barnid mitt and-
ast!

ast! þá svaradi Jesús honum: far 50.
þú heim, sonur þinn lifir. Nú lagdi
madurinn trúnad á þessa fullvissu,
sem Jesús gaf honum og géck heim.
Um þessar mundir, medan hann var 51.
enn á heimleid, mættu þénarar hans
honum og báru honum þá fregn:
barnid þitt lifir! þess vegna spurdi 52.
hann þá hvenær honum hefdi batnad?
þeir svörudu honum: í gjær um sjö-
undu stundu hvarf kaldan frá honum.
Fadirinn kannadist þá vid, ad þetta 53.
var rétt á sömu stundu, sem Jesús
sagdi vid hann: sonur þinn lifir! og
hann sjálfur trúdi og allt hans hús-fólk
(ad Jesús væri Messías). Þetta var 54.
nú þad annad teikn, sem Jesús gjordi,
eptir þad hann var kominn frá Jú-
dea til Galílea.

3.) Svo lyndadir menn finnast þó, sem láta
eckert yfirnáttúrlegt teikn, vekja sig til skyn-
samlegs eptirþánka.

Lúc: Gudsp. 17 Kap. v. 11-19.

Svo bar vid, þegar Jesús var á ferd- 11.
inni til Jerúsalem, og helt áfram
veginn um landa-merkin milli Sa-
maría og Galílea, ad tíu líkþráir 12.

menn mættu honum, rétt í því hann
ætladi ad gánga inn í þorp nockurt,
en stódu þó vid lángt frá (því likþrá var
13. nœmur sjúkdómur), og kölludu hárri
röddu: Jesú, Meistari! hjádu aum-
14. ur á oss! en, sem honum vard litid
til þeirra, sagdi hann vid þá: farid
burt og látid Prestana skoda ydur
(sem fyrst áttu ad granskoda hvorn þann,
sem: læknadur vard af likþrá, ádur enn
hann var hreinn álitinn), og þá bar svo
vid, þegar þeir gengu burt, ad þeir
15. urdir eins urdu hreinir. En einn þeirra
sneri aptur (til Jesú), þegar hann vard
þess var, ad hann var heilbrygdur
ordinn, og lofadi Gud med hárri
16. röddu; féll sídan fram á sína ásjónu
fyrir fætur hans, og þackadi honum;
og sá hinn sami var Samverskur.
17. En Jesús svaradi og sagdi: urdu
þeir ecki allir tíu hreinir! hvar eru
18. þá hinir níu? fannst þá enginn, sem
aptur vildi snúa, til ad géfa Gudi
dýrdina (med tilfinníngarsömu þacklæti),
19. nema þessi framandi? sídan taladi
hann til hans: statt upp, og far í
burtu, þitt traust hjálpadi þér.

---

# Annar Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Þad var ómøgulegt, ad nockur manneskja gæti med nockrum náttúrlegum medølum framqvæmt þau furdu-verk, sem Jesús gjørdi.

1) Jesús læknadi þá ólæknanleguſtu ſjúkdóma, jafnvel ſjarlægur, ſvo ſem ſá, er vald átti ad bjóda yfir heilbrygdi og líſi, án þeſs ad nota ſér nockurt læknis-medal.

Matth. Gudſp. 8 Kap. v. 1-22.

Þegar Jesús var kominn ofan af 1.
fjallinu, (hvar hann héldt hina laungu áminníngar-rædu), fylgdi honum margt
fólk. Og ſjá! þá kom þar einn lík- 2.
þrár, féll fram fyrir honum og ſagdi:
Herra! ef þú vilt, þá gétur þú hreinſ-
ad mig. Þá útrétti Jesús hønd ſína, 3.
ſnart hann og ſagdi: eg vil; verdtú
hreinn! og ſtrax vard hann hreiñ af
ſinni líkþrá. En Jesús ſagdi vid 4.
hañ: varaſtú ad tala vid nockurn um
þetta (ſvo fregnin ſkyldi ecki fyrifram koma óróa af ſtad medal Preſtanna, og koma þeim til, ad bera á móti lækníngu hans, ſøkum haturs til Jesú); en far

burt, og lát Prestinn skoda þig, og lúk þad offur, sem Móses tilték, (3 Mós. b. 6, 14, 1-20) til vitnisburd-ar móti þeim (ef þeir eptir á kynnu ad neita, ad þú vissulega sért hreinn ordinn).
5. Sídan þegar hann géck inn í Ka-pernaum, kom Hofuds-madur nockurr til hans (sem var í þénustu hjá Heródes Antipas) og bad hann, segjandi:
6. Herra! þénari minn liggur heima í nidurfalls-sótt, og er sár-þjádur.
7. Jesús svaradi honum, eg vil koma og lækna hann, en Hofuds-madurinn
8. svaradi og sagdi: Herra! eg er þess ecki verdugur, ad þú komir inn fyrir minn þrepskjold (vegna þess Heidingjarnir vóru álitnir óhreinir, hélt hann ecki ad svo heilagur madur mætti virda sig þess ad heimsækja sig, hvorja virdíngu engir Pharísæar gjordu honum, svo ad þeir saurgudust ecki), virdstu einúngis ad tala eitt ord! þá verdur
9. þénari minn heilbrygdur. Því jafnvel eg, madur, sem er ædra Yfirvaldi undirgéfinn, hefi þó yfir strídsmonnum ad segja, og þegar eg segi vid einn; far þú! þá fer hann; eda vid annan: kom þú! þá kémur hann;

og

og ef eg segi vid þénara minn: gjør
þetta! þá gjørir hann þad (þú hefir
vald yfir sjúkdóminum, eins og eg yfir
strids-monnunum; eptir þinum minnstu á-
vísunum, verdur hann ad hlýda þér).
Þá Jesús heyrdi þetta, undradist hañ, 10.
og sagdi vid þá, sem fylgdu honum:
eg segi ydur satt og víst, svo mikid
traust hefi eg ecki fundid í Israel.
En eg læt ydur vita, ad margir munu 11.
koma úr austri og vestri og sitja til
bords med Abraham, Isak og Ja-
kob í himnaríki (Heidingjar frá fjær-
læguſtu jardarinnar plátsum munu hlut-
takandi gjorast hjá Messía í allri þeirri
farsæld, sem fedrunum var fyrirheitin).
Þar á móti skulu ríkisins egin børn 12.
(Gydingarnir, sem hjá Messías høfdu
beinasta adgáng til farsældar, sem þeim í
sjálfum fyrirheitunum kunngjørt var)
útkøstud verda í myrkrid, þar fyrir
utan; þar mun verda óp og tanna-
gnístran (þeir forsmá Messías, en er þeir
verda hann vidskila, hljóta þeir ad nidur-
sockva í angistar-fullt volædi). Þá sagdi 13.
Jesús vid Høfuds-manninn: far þú
burt, verdi þér eptir trú þinni, og
þénari hans vard heill heilsu á sømri
stundu. En þegar Jesús kom í hús 14.
Pét-

Péturs, sá hann ad tengda-módir
hans lá sjúk, og hafdi megna køldu.
15. En, sem hann tók um hennar hønd,
hvarf kaldan frá henni, og hún stód
16. upp og géck fyrir þeim. Þegar þá
qvølda tók, fluttu þeir marga oda til
hans, og hann rak andana út med
einu ordi, og læknadi alla þá, sem
17. sjúkir vóru. Svo hér rættist þad,
sem Spámadurinn Esajas um mæl-
ir, þegar hann kémst svo ad ordi: hann
burtók vor veikindi, og rak sjúkdóma
18. vora á burt, (Es. 53, 4). En þegar
Jesús sá þad marga fólk, sem um-
kríngdi hann, baud hann ad fara yf-
19. irum sjóinn ad hinu landinu. Þá
veik einn skriftlærdur til hans, og
sagdi: Meistari! eg vil fylgia þér
20. hvört sem þú fer. Jesús svaradi
honum: Refar ega sér greni og fugl-
ar loptsins hreidur, en Mannsins
Sonur hefir ei svo mikid, sem halla
21. megi ad høfdi sínu. Sídan sagdi
annar hans lærisveinn vid hann:
Herra! leyfdu mér fyrst ad fara
22. og jarda fødur minn. En Jesús
svaradi honum: fylg þú mér!
og lát þá daudu grafa þeirra
daudu

daudu*). (Marc. 1, 29-34. Lúc. 9, 57-60).

2.) Jesus stadfesti med verkunum, ad hann væri náttúrunnar Herra, jafnvel yfir sjálfum öndunum, og ad eckert væri honum ofhátt eda torveldt.

Matth. Gudsp. 8 Kap. v. 23-34.

Þá sté Jesús á skip, og hans lærisvein- 23.
ar fylgdu honum, En sjá! geisileg- 24.
um stormi skélldi á sjóinn, svo skipid
huldist af öldunum, og svaf hann á
medan. Þá gengu hans lærisveinar 25.
til hans, vöktu hann og sögdu: Herra!
frelsa þú oss! vér forgaungum! hañ 26.
svaradi þeim: því erud þér svo ístödu-
lausir? þér lítiltrúadir! sídan reis
hann

*) Lærisveinninn leitadi einúngis lags, ad [illegible] ser undan ad fylgja Jesú: hefdi hann gjefid sig vid greptruninni, var hann ecki einúngis óhreinn eptir lögmálinu, og hefdi þá þurft stund og tíma til ad koma hreinsun sinni til vegar, eptir því, sem fyrirskrifad var; líka myndu ættíngjar hans um þennann tíma hafa leitast vid ad gjöra hann leidann á Jesú samfjelagi. Í tilliti til þeirra dofna sinnislags, kallar Jesús þá dauda, med því þeir enganveginn þecktu hversu dýrmætur sannleikurinn var, og skeyttu þess vegna lítid eda eckert hans kjenníngu.

hann upp, hastadi bædi á vind og sjó,
27. og lá-deydu gjørdi. En menniruir
féllu í furdu, og sögdu: enn hvílíkt
mikil-menni hann vera má, því bædi
28. vindur og sjór hlýda honum. En, sem
hann kominn var yfirum hinumegin
ad landi Gadarena, mættu honum
tveir ódir, sem rétt í því komu úr gröf-
unum (opnum greptrúnar-holum í klett-
unum) og vóru ólmir úr hófi, svo eng-
inn gat komid áfram ferd sinni um
29. þann veg. En sjá! þeir kölludu nú
og sögdu: Jesú, þú Guds Son! hvad
höfum vid og þú saman ad sælda? ert
þú híngad kominn ad qvelja oss fyrir-
30. fram? um þetta skeid, var mikil svína-
hjørd lángt frá þeim, á beit um mörk-
31. ina; en andarnir (vondir andar) bádu
hann, segjandi: rekir þú oss út, þá
32. lát oss fara í svína-hópinn! Jesús
svaradi þeim: farid þá burt! þá viku
þeir út, og fóru í svína-hópinn; og sjá!
öll svína-hjørdin fleygdist ofan fyrir
backann í sjóinn, og fórst í vatninu *).
En

*) Í Gadarena-landi, bjó mikill fjøldi Heidíngja, medal hverra Gydíngar høfdu verslun med svín, sem

Enn smalarnir flýdu, komu í þorpid, 33.
og sögdu frá öllu, og hvørsu farid
hafdi fyrir þeim ódu (sem nú høfdu
aptur fengid skynsemi sína). Og sjá! 34.
allt þorpid gêck nú á móti Jesú; enn
þegar þeir sáu hann, mæltüst
þeir til ad hann vildi fjarlægjast
þeirra lauda-merkjum (því þeirra
vonda samvitska kom þeim til ad óttast,
ad fleiri hirtingar mundu þeim sendar
verda, og til einkis þókti þeim minna
koma, enn upplýsingarinnar, af hans kénn-
ingu, Marc. 5, 1-20. Lúc. 8, 26-39).

Matth. Gudsp. 9 Kap. v. 1-8.

Þess vegna sté hann aptur á skipid 1.
og fór yfirum, og kom í sína egin
: 2.

sem þeim var ei bannad. Það er efalaust, ad egendurnir hafa á annann hátt, fengid bertann skada sinn; og þar fyrir utan þurftu þeir ad uppvekjast, med einhvørri minnisstædri advørun, til ad leggja af órjettvíst okur. T. d.: þegar Gud leyfir, ad elding eydileggi hús og heimili, eda ad næmir sjúkdómar tortýni fjenadinum, ber það ætíd vid í því tilliti, ad annad meira almennilegt gott eblist á þann hátt. Svo leyfdi og Jesús, ad þeir vondu andar fyrirfæru svínunum, því hann sá, ad sú hrædsla, sem menn vid þá høfdu, skyldi, þvert á móti þeirra tilgángi, þar vid minka, med því nú vard øllum augljóst, ad hann var þeim máttkari, og ad ofríki þeirra var yfirbugad.

2. borg. En sjá! madur var til hans
hafdur, sem hafdi nidurfalls-sótt, og
sem lá á sæng, er borin var. Þegar
Jesús sá þeirra traust, sagdi hann
vid hinn nidurfalls-sjúka: vertú hug-
hraustur, minn son! þínar syndir eru
þér fyrirgéfnar (því þessi manneskja
hafdi med vellystugu líferni leidt þessa eymd
yfir sig, og qveid nú fyrir, ad Jesús mundi
gremjast því og synja honum lidveitslu).
3. Sjá! þá søgdu nockrir af skriftlærdum
vid sjálfa sig: hañ talar hádugiega!
4. en þegar Jesús vard var þeirra þánka,
sagdi hann þeim: því hugsid þér svo
5. vondt í ydar hjørtum? því hvørt er
audveldara ad segja: þér eru þínar
syndir fyrirgéfnar, ellegar ad segja:
statt upp og gack! (til hvørutveggja þarf
guddómlegann krapt og vald, egi þad ad
6. rætast). En svo þér vitid ad Mannsins
Sonur hefir vald á jørdu ad fyrir-
géfa syndirnar, þá sagdi hann vid hiñ
nidurfalls-sjúka: statt upp, tak sæng
þína med þér, og gack heim til þín!
7. Þá stód hann upp, og géck til heimkyñа
8. sinna! en fólkid, sem á þetta horfdi,
féll í furdu, og lofadi Gud ad hann
hefdi géfid mañeskjum svo mikid vald.

Þridji

# Þridji Argángur.

## Høfud-lærdómur.

Jesús útlistar og sannar, ad hann med guddóms krapti framqvæmi sín verk, ásamt sínum himneska Fødur, til órækrar stadfestíngar hans kénníngu.

1.) Med sama krapti og Fadirinn, verkar hans eingétni Sonur, Jesús Kristur í sameiníngu vid hann, og leidir sína guddómlegu dýrd í ljós med byggjandi almættis merkjum.

Jóh. Gudsp. 5 Kap. v. 1-30.

Sídan bar ad hátíd Gydínga 1.
(Páska hátídina) og þá géck Jesús upp
til Jerúsalem (til ad halda helga hátídina, annad sinn í sínu kénnimanns-embætti).
Nú var í Jerúsalem, hjá sauda-port- 2.
inu, dýki, sem á Ebresku nefnist Bethesda, vid hvørt vóru fimm þakin gaung.
Í þeim lá fjøldi mikill 3.
sjúklínga, blindra, haltra, lamadra,
sem bidu eptir ad hræríng kjæmist í
vatnid; því (menn héldu ad) eingill 4.
færi nidur í dýkid, og hrærdi upp,
hvørr þá sté fyrstur ofan í, eptir þad
vatnid var upphrært, vard heill
heilsu, af hvørjum hellst sjúkdómi,

5. sem hann haldinn var*). Þá lá þar
mann-ræfill, sem í þrjátýgi og átta
6. ár hafdi sjúkur verid. Þegar Jesús
sá hann á sóttar-sænginni, og vissi
þarhjá ad hann hafdi um mørg ár
sjúkur verid, taladi hann til hans:
7. girnist þú ad komast til heilsu? hinn
sjúki svaradi honum: Herra! eg hefi
á engum manni vøl, sem géti hjálpad
mér ofan í dýkid, en í því eg kém, fer
8. annar ofan í á undan mér. Þá sagdi
Jesús vid hann: stattú upp, tak med
9. þér sæng þína og fardu á ról! jafn-
skjótt vard madurinn heilbrygdur,
og hann tók sæng sína upp og fór ad
gánga, en sami dagur var Sabbaths-
10. dagur. Því søgdu Gydíngar vid
þann, sem læknadur var: Sabbath
er, þér leyfist ecki ad bera sæng þína!
(þetta mátti sýnast nockurskonar erfidi,
og

*) Hjer er einúngis gjetid almennings meiníngar, um orsøk til vatnsins hræríngar, án þess framar ad stadfesta hana. Málm-bløndud uppspretta kann ad hafa verid í vatninu, sem á vissum tímum kann ad hafa ólgad, og meingad qvikum málm-veru-pørtum saman vid hitt vatnid, sem á þann hátt um litla hríd, fjeck læknandi krapt. Þvíumlíkt er í mørgum løndum engin óvenja.

og menn héldu ad Sabbathid vanhelaædist med því). Hann svaradi: sá, 11.
sem gaf mér heilsuna, sagdi vid mig:
taktú upp sæng þína og gack! þá 12.
spurdu þeir hann: hvada madur er
þad, sem sagdi vid þig: tak sæng þína
og gack? en madurinn, sem til heilsu 13.
var aptur kominn, vissi ecki sjálfur
hvørr sá var, því Jesús géck afsídis,
vegna þess margt fólk var þar vid.
Eptir þad hitti Jesús hañ í musterinu 14.
og sagdi vid hann: sjá! hraustur ertú
ordinn; syndga ecki framar, svo þig
hendi ecki eitthvad verra! (hans óreglulega líferni á únga aldri hafdi steipt honum í
eymd sína). Þá géck madurinñ burt og 15.
gaf Gydíngum til kyñá ad Jesús væri
sá, sem veitt hefdi sér heilsuna. Fyrir 16.
þetta ofsóktu Gydíngarnir Jesúm
og leitudust vid ad slá hann í hel,
søkum þess hañ hefdi gjørt þvílíkt
á Sabbaths-degi. En Jesús svaradi 17.
þeim: Fadir minn er ydjusamur án
afláts (í því ad vidhalda øllum skepnum hlutum, og stjórna hlutunum í verøldinni, ecki sídur á Sabbaths- enn ødrum døgum), á sama hátt er eg ydjusamur (hans Sonur, í sama tilgángi og

 hann

hann, til skapadra skepna farsældar, áñ
þess ad hætta sokum þess einstaka og ó-
18. naudsynlega Sabbaths-logmáls). Þá
settust Gydíngar þeim mun meira
ad honum, ad þeir féngju hañ af dög-
um rádid, vegna þess hann hefdi ecki
einúngis brotid hvíldar-dagiñ, held-
ur og kalladi Gud sinn eginn födur,
og gjørdi sig sjálfann Gudi jafnann.
19. Þá gégndi Jesús og sagdi vid þá: eg
segi ydur fyrir satt, Sonurinn gétur
ecki gjørt neitt af sjálfum sér (med ein-
dæmi sinu) nema þad, sem hann sjer
födurinn gjøra; en hvad, sem fadir-
inn gjørir, þad gjørir sonurinn og.
20. Því fadirinn elskar soninn og sýnir
honum allt hvad hann sjálfur gjørir,
(dylur eckért fyrir sinum fulltrúa) og meiri
verk enn þessi mun hann sýna honum
(gjora hann hluttakandi í), svo ydur
21. skal furda. Því eins og fadirinn
uppvekur dauda og lífgar, svo lífgar
og svo sonurinn hvorja, sem hann vill
22. (eptir sinni frjálsu velþócknun). Þarad-
auki dæmir fadirinn engann (útaf
fyrir sig), en allann dóminn hefir hañ
23. falid syninum á hendur, svo ad allir
heidri soninn eins og þeir heidra fød-
ur-

urinn, hvørr, sem ecki heidrar soninn, heidrar ecki heldur fødurinn, sem sendi hann. Eg segi ydur øldúngis 24.
satt og víst, ad hvørr, sem hlýdir mínum lærdómi, og leggur trúnad á þann, sem sendi mig, sá fær eilíft líf, og kémur ei undir áfellis-dóm, heldur er þegar kominn frá daudanum til lífsins (hefir fullvissu um eilíft frelsi og eilífa farsæld).
Eg segi ydur þad øldúngis satt og víst, 25.
ad sá tími mun koma, og er nú þegar fyrir høndum, ad hinir daudu skulu fá røddu Guds Sonar ad heyra (sem kallar þá af dauda), og þeir munu þá endurlifna, sem hana heyra (svo sem Lazarus, eckjunnar sonur af Nain og dóttir Jairi). Því allteins og fad- 26.
irinn hefir lífid í sjálfum sér (guddómlegur endurlífgandi kraptur heyrir honum verulega til) svo gaf hann og syninum líf ad hafa í sjálfum sér (svo hann verkar med sama krapti upprisu framlidinna). Og hann gaf hon- 27.
um einninn vald til ad halda dóm, vegna þess hann er Mannsins Sonur (Messías, sá fyrirheitni mannkynsins Lausnari og Drottinn). Látid ydur ecki 28.
undra þetta, því sá tími kémur og, á

hvörjum allir þeir, sem í grøfunum
eru (allir framlidnir) skulu heyra hans
röddu (finna hans endurlífgandi krapt).
29. Og þeir skulu þá framkoma (frá dauð-
um) svo að þeir, sem hið góða ástund-
að hafa, upprísa til lífsins, en þeir,
sem hafa framið hið vonda, upprísa
30. til fordæmíngar. Af sjálfum mér
gét eg ekkért gjört: eptir því, sem eg
heyri (í ráði míns føðurs) dæmi eg,
og minn dómur er réttvís, því eg
sæki ei eptir að fá minn vilja fram-
qvæmdann (svo sem sá, er einúngis gjör-
ir fyrir sjálfann sig), heldur føðursins
vilja, sem mig sendi.

2.) Vegna þess sannur guddóms-kraptur
sjest berlega í Jesú verkum, vísar hann til
þeirra, svo sem hinna órækustu kénnimerkja,
af hvörjum sérhvörr skynja má, að hans kénn-
íng sé guddómleg.

Jóh. Guðsp. 5 Kap. v. 31-46.

Jesús heldur áfram ræðu sinni fyr-
31. ir fólkinu og segir: béri einúngis eg
sjálfur vitni um sjálfann mig, þá er
minn vitnisburður ecki trúverdur.
32. Annar er sá, sem vitnar um mig, og
eg veit að það vitni, sem hañ um mig
ber,

þer, er óyggjandi. Þér sendud til 33.
Johannesar, og hann bar sannleik-
annum vitni. Þó leita eg ei vitnis- 34.
burdar (alleina) hjá einni mann-
eskju, eg gét einúngis þessa, svo ad þér
frelsast mættud (ef þér þanninn látid
uppvekja ydur til ad gefa gaum ad hans
vitnisburdi um mig); hañ var logandi 35.
og skiært ljós! um stundar-sakir leitst
ydur ad gledjast af hans birtu. Eñ 36.
eg hefi sterkara vitni, eñ þetta, sem Jó-
hannes bar, því þau verk, sem fadir
minn gaf mér ad framqvæma, rétt
þessi verk, sem eg gjöri, vitna um mig,
ad fadiriñ hefir mig sendañ; og þañ- 37.
veg ber fadiriñ, sem mig sendi, siálfur
vitni um mig, (jafnvel þó ad) þér hafid
hvorki nockru sinni heyrt hans röddu
né sjed nockra mind hans. En þér 38.
gétid hans ordum ecki blífanlegann
sama-stad hjá ydur, því þeim, sem
hann sendi, trúid þér ecki. Þér ran- 39.
sakid Ritningunā, því þér hugsid í
henni ad finna veginn til eilífs lífs;
en hún er einmidt sú, sem bér mér
vitni. Þó viljid þér ecki koma til 40.
mín, svo ad þér megid lífid ödlast.
Eg sækist öldúngis ecki eptir vegsemd 41.

 42.

42. af mønnum. En þó ber eg og kénſlu
á ydur, ad enginn kjærleiki til Guds
43. er í ydar hjørtum. Eg kom í um-
bodi fødur míns, en þér medtakid mig
ecki; kæmi einhvørr annar í ſjálfs
ſíns egin umbodi, mundud þér líklega
44. medtaka hann. Hvørſu munud þér
þó fá trúad, med því þér einúngis
fikiſt eptir virdíngu hvørr af ødrum,
en leitid ecki þeirrar vegſemdar, ſem
45. kémur frá þeim einaſta Gudi! hugſ-
id ecki ad eg muni áklaga ydur fyrir
Fødurnum! ſá er þegar til, ſem ydur
áſakar, ſá Móſes, ſem þér hafid ſett
46. ydar trauſt til. Ef þér trydud Móſi,
yrdud þér ad trúa mér, því hañ hefir
ſkrifad um mig; en, ef þér trúid ecki
hans ritum, hvørſu munud þér þá
trúa mínum ordum?

# 2ann Suñudag eptir Þrettánda.

## Adal-hugleiding.

Af øllum Jeſú verkum ſjeſt ljóslega einber medaumkan og elſkurík gódgirni.

Fyrſti

# Fyrsti Argángur.

Jesús var ætíd reidubúinn ad bæta úr allri neyd og vandrædum, án eptirtalna og betalíngs.

1.) J. fiski-drætti, sem mistókst, og leiddi skort eptir sig hjá lærisveinunum, kom Jesús óbedinn þeim til hjálpar og veitti þeim nægtir.

Lúc. Gudsp. 5 Kap. v. 1-11.

En svo bar vid, þá fólkid þreyngdi 1.
ad honum til ad heyra Guds ord, og
hann stód vid Genezareths sjó,
hvar hann sá tvø skip, sem lán vid 2.
landid, en fiskararnir voru frá þeim
farnir, til ad þvo net sín, ad hann sté 3.
á annad skipid, sem var Símonar,
og bad hann ad leggja nockud frá
landi, sídan setti hann sig nidur og
kénndi fólkinu af skipinu. En, sem 4.
hann gaf upp ad kénna, sagdi hann
vid Símon: drag þú út á djúpid og
varpid út netum ydar til eins drátt-
ar. Símon sagdi vid hann: Meist- 5.
ari! í alla nótt erfidudum vér, en
fengum eckert, en eptir ordi þínu vil
eg varpa út netinu. En þegar þeir 6.
gjordu þad, veiddu þeir svo mikla

mergd fiska, ad net þeirra rifnudu.
7. En þeir bendtu félögum sínum á hinu
skipinu, ad þeir kæmu þeim til hjálp-
ar, og þeir komu og fylltu bædi
8. skipin ad mestu. Þegar **Símon
Pétur** sá þetta, féll hann fram, fadm-
adi Jesú kné og sagdi: Herra! vík
frá mér! eg er syndug manneskja!
(óverdugur samfélagskapar, vid svo frá-
9. bæran mann) því ofbod var á hann
komid, og alla þá, sem med honum
vóru, vegna þess fiski-dráttar, sem
10. þeir fengid höfdu, líka á **Jakob** og
**Jóhannes**, syni **Zebedeusar**, sem
ásamt **Símoni** áttu hlut í ablan-
um, en Jesús sagdi vid **Símon**: ótt-
ast ecki! hér eptir skalt þú veida menn
(leida þá med uppfrædingu, til sannleikans).
11. En þegar þeir svo vóru búnir ad setja
skipin, yfirgáfu þeir allt og fylgdu
honum.

2.) Aldrei leitudu þeir sjálfir forgefins hjálp-
ar hjá Jesú, og ecki lét hann fólkid hjálpar
þarfnast, þegar neyd var á ferdum.

Matth. Gudsp. 15 Kap. v. 29-39.

29. Þá héldt Jesús þadan áfram lengra
(frá lands-álfum Tyri og Sidons), og
kom

kom ad Galílæu sjó, hvar hann géck
uppá fjall og settist nidur. En þáng- 30.
ad kom margt fólk til hans, sem hafdi
med sér halta, blinda, mál-lausa og
lamada, og fjölda þvílíkra; þessir vóru
lagdir nidur fyrir fætur Jesú, og hañ
læknadi þá; svo fólkid undradist, þeg- 31.
ar þad sá med egin augum, ad mál-
lausir tøludu, lamadir urdu hraustir,
haltir gengu fullum fetum, og blind-
ir fengu sýn á ný, og þeir lofudu
Israels Gud. Sídan kalladi Jes- 32.
ús á sína lærisveina, og sagdi: eg
kénni sárlega í brjósti um fólkid, þvi
þeir hafa þegar í þrjá daga hjá mér
verid, og hafa eckért til matar
(þad litla nesti, sem hvørr einn bar med
sér í hand-korf eptir venju á ferdinni,
var þegar uppi), en ecki vil eg ad þeir
fari fastandi frá mér, svo ad þeir ør-
magnist ecki á veginum. Þá svør- 33.
udu hans lærisveinar, hvadan fáum
vér svo mikid braud hér á eydimørku,
ad svo margt fólk mettad verdi? Jes- 34.
ús spurdi þá: hvad mørg braud hafid
þér sjálfir? þeir svørudu: sjø, og fá-
eina fiska. Þá baud hann fólkinu 35.
ad setjast nidur á jørdina. Sídan 36.
tók

tók hann þau sjø brauð og fiskana, gjørði þackløtis bæn, braut þau sund-
ur (því braudin í Austurløndum eru þunnar kokur, sem brjóta má milli fingranna)
og féck lærisveinunum í hendur, en
37. þeir skiptu þeim milli fólksins. Allir neyttu og urdu mettir; og afgángs-molunum var safnad saman,
38. fullar sjø karfir. En þeir, sem neyttu, vóru fjøgur þúsund karlmanna ad tølu, fyrir utan qvennfólk og børn.
39. Þá lét hañ fólkid burt fara, sté sjálfur á skip, og kom til Magdala sveitar,
(Marc. 8, 1.9).

3.) Þeir sjúku fengu ecki eingungis hugsvølun hjá Jesú í líkamans þjáníngum, heldur ogsvo huggun og endurnæríngu þeirra sorgbitnu sálar.

Lúc. Gudsp. 5 Kap. v. 17-26.

17. Einn dag, þá Jesús héldt fram ad kénna, og Pharísæar og løgspakir, sem samankomnir vóru frá þorpunum úr allri Galílæa, Júdæa og frá Jerúsalem, høfdu setst nidur, en Drottins kraptur vottadi sig mátt-
18. ugann med því ad lækna þá; sjá! þá bar svo vid, ad nockrir menn komu, sem báru manneskju nockra í sæng, sem

sem hafdi nidurfalls-sótt. Þá leit-
udu þeir lags ad koma honum inn
(í mann-hríngnn) svo þeir gætu lagt
hann fram fyrir Jesúm; en med því 19.
þeir fundu ecként op til ad koma hon-
um gégnum, vegna þess samankomna
múga, gengu þeir uppá flata þakid
(á nágrannans húsi) og létu hann í
sænginni síga nidur um þakid (sem þeir
rufu) midt fram fyrir Jesum (sem vænt-
anlega hefir stadid í dyrunum, og frædt
þar mannsöfnudinn í húsa-gardinum).
En þegar hann sá þeirra traust, sagdi 20.
hann: þú manneskja, þínar syndir
eru þér fyrirgéfnar! (manneskjan ángr-
adist heimuglega med sjálfri sér, af ótta
og efablendni, vegna þess hún vissi ad ó-
stödugt líferni var orsök til veikindanna).
Þá tóku skriftlærdir og Pharisæar 21.
ad hnýta ad þessu og sögdu: hvílíkur
madur mun hann vera, med því hañ
talar svo háduglega? hvørr má synd-
ina fyrirgéfa nema Gud einn? En 22.
Jesús, sem þeckti hugsanir þeirra,
svaradi þeim og sagdi: hvíllkar mein-
íngar gjørid þér ydur. Hvørt mun 23.
audveldara, annadhvørt ad segja:
þínar syndir eru þér fyrirgéfnar!

eda

eda ad segja: statt upp og gack!
24. en svo ad þér verdid ad vidurkénna,
ad Mañsins Sonur hefir vald á jördu,
syndir ad fyrirgéfa, sagdi hann vid
hinn nidurfallsſjúka: eg segi þér:
statt þú upp! og tak sæng þína og
25. fardu heim til þín! jafnskjótt stód
hann upp fyrir þeirra augum, tók
upp sængina, sem hann lá á, og géck
26. heim til sín, lofandi Gud. En skélf-
íng kom yfir þá alla, og þeir lofudu
Gud, og søgdu: í dag sáum vér
furdu-verk. (Marc. 2, 1-12.

4.) Aldrei hefir nockur manneskja komist ad raun um, ad traust á Jesú miskun og huggun vid hana hafi táldræg verid.

Lúc. Gudsp. 8 Kap. v. 40-56.

40. Eptir þad bar svo vid, þegar Jesús
kom til baka (frá landi Gadarena), ad
fólkid tók fegins hendi móti honum;
41. því allir þrádu eptir honum. En
sjá! þángad kom madur, ad nafni
Jaírus, forstjóri samkundu nock-
urrar, hann fleygdi sér flötum fyrir
Jesú fætur, og bad hann, ad koma í
42. sitt hús, því hann átti einka dóttur,
hérum tólf ára, og hún var adfram
kom-

komin. En þegar Jesús fór þáng-
að á leið flycktist fólkið saman kríng-
um hann. En kona nockur, sem hafi 43.
hafði blóðfall í tólf ár, og eydt aleigu
sinni til læknaranna, án þess nockurr
gæti hjálpað henni, géck bak við hann, 44.
og snart fald hans klæða, og jafnskjótt
stødvaðist hennar blódlát. Þá sagði 45.
Jesús: hvørr snart mig? þegar þá
hvørr einn afsakaði sig, fyrir sitt leiti,
sagði Pétur og aðrir við hañ: Meist-
ari! folkið þreyngir og tređst að þér,
og þó spyr þú: hvørr snart mig?
en Jesús svaraði: einhvørr snart 46.
mig; þvíeg veit, að krøptug verkan
géck út af mér. En, sem konan sá, 47.
að vart hafði við hana orðið, kom
hún titrandi, og féll fram fyrir hañ,
og viðurkénndi fyrir honum øllu fólk-
inu áheyrandi, hvørra orsaka vegna
hún hefði hann snortið, og hvørsu
hún strax læknast hefði. En hann 48.
sagði við hana: vert þú hughraust,
mín dóttir! þitt traust hjálpaði þér,
far burt í friði*). A meðan hann 49.
stóð

*) Til að gjøra hafa Jesú óvinir komið á lopt þeirri hjátrúar ímindun, að yfirnáttúrlegur lækniskrapts

stód enn þá og taladi, kom einn frá samkundu-forstjórans húsi, og sagdi vid

kraptur væri í hans höndum, til ad gjøra á þann hátt ljóst, ad guddómlega tilhjálp þirfti ei til hans krapta-verka, og qvinnan, sem þessu trúdi, álytkadi framvegis, ad þessi yfirnáttúrlegi kraptur, gæti allteins útdreifdur verid um allann hans líkama, og nædi til hans fatnadar. Ad hún snart hann í þeirri von ad verda heilbrygd, var honum ecki hulid, því fyllti hann samstundis ósk hennar; þó lætur hann, svo sem hann styggdist af þessu, einúngis til ad skjelka hana, svo hún neyddist til ad játa þetta opinberlega, svo hvørr einn mætti gánga úr skugga um, ad þau hefdu ecki fyrirfram talad sig saman, og ad lækníng hennar væri sannarlegt krapta-verk. Ad sønnu lempar hann sig í fyrstu eptir hennar einfaldlegu meiníngu, vidvíkjandi hinum útgángandi krapti, sem gjørdi furdu-verk. Þó sagdi hann ecki, ad hann útgengi af kyrtlinum, heldur af sjálfum honum; og þad var satt, því hann verkadi þá, svo sem í hvørt sinn, þegar hann gjørdi krapta-verk, einúngis med guddómlegum krapti. En svo lempadi hann sig, til ad koma henni til ad bera vitni sitt, og leidrjetti svo jafnskjótt bædi hennar og annara vidverendu álit um furduverka-kraptinn, med því ad segja: þín trú hjálpadi þjer! því var þad ecki neinn eginlegur líkamlegur kraptur, sem eins og

damp-

vid hann: þín dóttir er látin; ómaka
ecki Meistarann! en þá Jesús heyrdi 50.
þetta, ansadi hann til og sagdi vid
hann: óttast ecki! trú þú ad eins, þá
mun henni bjargad verda. En þegar 51.
hann kom ad húsinu, lét hann engan
(af förunautum sínum) inngánga, nema
Pétur, Jakob og Jóhannes og föd-
ur og módur stúlkunnar. Allir grétu 52.
og veinudu yfir henni (þeir, sem blása
áttu í hljódpípur á undan líkinu til graf-
arinnar, vóru þegar komnir, og mikill fjöldi
fólks flycktist ad, Matth. 9, 23). en hann
sagdi: grátid ecki! hún er ecki daud,
heldur sefur hún (því hún átti ecki til
lengdar daud ad vera, sem adrir framlidn-
ir, heldur átti hennar daudi einúngis ad
vera skammvinnur svefn), og þeir dárudu 53.
hann, því þeir vissu ad hún var látin.
Þá lét hann þá alla út fara, tók sídan 54.
um hönd hennar, og sagdi hástöfum:
stúlka mín! statt þú upp! þá kom 55.
hennar andi aptur, en hann baud
ad géfa henni nockud ad eta. Og 56.



dampar útgieck af honum, sem gjördi hana hrausta,
en í tilliti til hennar trausts og vonar, læknadi
hann hana medals-laust med almættisins sam-
verkun.

foreldrar hennar urdu svo sem frá sér numdir; en hann lagdi ríkt á vid þá, ad geta ecki vid neinn um þad, sem vid hafdi borid. (Matth. 9, 18-26. Marc. 5, 21-43).

## Annar Argángur.

### Höfud=lærdómur.

Einúngis af miedaumkun, og til þess ad gjora gott, var hinn blídlyndi Jesús ætíd reidubúinn, til ad hugsvála naudstøddum.

1.) Til ad hugga syrgjandi munadarlausa módur, endurlífgadi Jesús hennar andvana son.

Lúc. Gudsp. 7 Kap. v. 11-17.

11. Sídan bar svo vid daginn eptir, (nl. eptir ad høfudsmanns þénarinn í Kapernaum var læknadur) ad Jesús fór til borgar nockurrar, sem hét Naín, og margir af hans lærisveinum gengu med honum, og fjøldi annars
12. folks. En þegar hann nálgadist borgar-hlidid, sjá! þá var einn dáudur útborinn, einka sonur módur sinnar, og hún var eckja, og margt folk
13. úr borginni fylgdi henni. Þá Drottinn kom auga á hana, hrærdist hann inni-

iñilega miſkunar yfir henni, og ſagdi
vid hana: grát þú ecki! ſídan géck 14.
hann ad og ſnart børurnar, en um
leid ſtøldrudu líkmennirnir vid, og
þá ſagdi hann: þú úngmenni! eg býd
þér, rís þú upp! og ſá daudi ſettiſt 15.
upp (med þvi hann lá á opnum børum
kiſtulaus, ſem ecki var venjulegt) og tók
ad mæla. En Jeſús afhendti hañ 16.
módur hans. Þá ſló miklum ótta
yfir alla, og þeir lofudu Gud, og
ſøgdu: Spámadur mikill er medal
vor uppriſinn, og Gud hefir í nád
ſinni litid til ſíns fólks (audſýnt ſína
meſtu umonnun og forſjá, med þeſſum
hans ſendi-boda). En ryktid um þetta, 17.
dreifdiſt út um alla Júdæu, og um
allt landid umhverfis.

2.) Af ſérhverri neyd, ſem manneſkjunum
mætir, kémſt Jeſú medaumkunarſama hjarta
ſtrax vid, og engin mæda gétur þreytt hans
gódgjørdaſemi.

Marc. Gudſp. 6 Kap. v. 30-56.

Þá ſøfnuduſt Poſtularnir aptur til 30.
Jeſúm (þá þeir komu til baka úr fyrſtu
ferd ſinni um Gydínga-land), og ſøgdu
honum frá øllu því, ſem þeir gjørt
og kénnt høfdu. Þá ſagdi hañ vid 31.

þá: komid nú út af fyrir sydur í af-
vikinn stad, og hvílist um stundar-
sakir! því þeir, sem komu og fóru,
vóru svo margir, ad menn áttu eckt
32. kost á, ad fá sér mat. Þess vegna
fóru þeir burtu á skipi til afvikins
33. stadar út af fyrir sig. En fólkid sá
þá burt fara, og margir þeckttu hañ.
Menn flycktust þá saman og fóru
þángad landveg frá øllum þorpum,
og urdu fyrri eñ þeir og flycktust ad
34. honum. Þegar hann sté nú á land,
og leit hinn mikla mannfjølda, aumk-
adist hann innilega yfir þá, vegna
þess þeir vóru svo sem saudir, sem
engann hyrdir ega, og hann tók þá
35. ad kénna þeim skilmerkilega. En
þegar lángt var lidid á dag, gengu
hans lærisveinar til hans og søgdu:
hér er eydi-pláts og framordid er,
36. láttú þá fara, svo þeir komist til þorp-
anna, og smá-stadanna, sem liggja
hér umhverfis oss, til ad kaupa sér
fædslu; því þeir høfdu eckért til mat-
37. ar. Hann svaradi þeim og sagdi:
géfid þér þeim þá ad borda! þeir svør-
udu honum: eigum vér þá ad fara
og kaupa fædslu fyrir tvø hundrud
mørk,

mørk, svo vér með því móti gétum
géfið þeim nockuð að eta? hañ spurði 38.
þá: hvørsu mørg brauð hafið þér sjálf-
ir? farið og gjætið að. En þegar þeir
høfðu það aðgjætt, svøruðu þeir: fim̃,
og tvo fiska. Þá bauð hann þeim að- 39.
láta þá alla setjast niður í græn-
grasið í aðskildum hópum. Þá sett- 40.
ust þeir niður í aðgreindum hópum,
hundrað sér, og fimtýgi sér. Þá tók 41.
hann þau fimm brauð og tvo fiska,
leit til himins, gjørði þackllætis-bæn,
braut þessi brauð sundur, og afhendti
þau lærisveinunum, svo að þeir
leggðu þau fram fyrir hina. Sömu-
leiðis skipti hann þeim tveim fiskum
meðal þeirra. Allir neyttu þá, og 42.
urðu mettir; og af leyfunum, sem af- 43.
gengu, og því, sem leyfðist af fiskun-
um, søfnuðust saman tólf karfir full-
ar. En þeir, sem neytt høfðu af 44.
brauðinu, vóru hérum fimm þúsund-
ir manna. Strax á eptir neyddi hañ 45.
lærisveina sína, að fara út á skipið,
og á undan sér til Betsaida, sem var
hinumegin, á meðan hann sjálfur
lét fólkið burt fara. Og þegar hañ 46.
hafði qvadt þá, gécк hann upp á fjall,

47. eitt, til ad bidja. En þá qvøld var
komid, var skipid úti á rúm-sjó, og hañ
48. sjálfur var einn í landi. Þá sá hañ
ad þeim veitti erfidt ad róa áleidis,
því þeir áttu á móti, en um fjórdu
nætur-vakt (undir morgun) kom hann
til þeirra, gángandi á sjónum, og
lét, sem ætladi hann ad gánga fram
49. hjá þeim. En þegar þeir sáu hann
gángandi á sjónum, héldu þeir þad
væri vofa nockur, og tóku til ad hljóda
50. upp; því þeir allir sáu hann og urdu
óttaslegnir. En hann gaf sig þegar
á tal vid þá, og sagdi: verid hughraust-
51. ir! eg er þad, óttist ecki! þá sté hann
á skip til þeirra, og vindinum slotadi;
en þeir urdu yfirmáta skélkadir, og
52. féllu í mestu furdu. Vegna þess þeir
høfdu ei betur hugsad út í þad, sem
vidbar med braudin, því þeirra hjarta
53. var hardt og tilfinníngar-laust. Nú
komu þeir sídan á yfirumferdinni til
Genazareth lands, og lendtu þar.
54. En þegar þeir gengu frá skipinu, þeckt-
55. ist hann strax. Og menn fóru med
skunda um allt héradid umhverfis, og
tóku ad flytja þá veiku, til og frá í
burdar-rúmum þángad, sem heyrd-
ist

ist ad hann værí. Og hvar hellst, 56.
sem hann kom inn, hvørt heldur í
hverfi, borgir eda þorp, vóru þeir
veikn lagdir á torgin, og hann var bed-
inn um, ad þeir ad eins snerta mætti
kyrtil-fald hans, og þeir, sem hann
snertu, urdu hólpnir. (Matth. 14, 36.
Lúc. 9, 10-17. Jóh. 6, 1-21).

3.) Svo var Jesús alkunnur manna á milli, fyrir sitt kjærleiks-fulla og viðgvænia hjartalag, ad sérhvørr naudstaddur leitadi hans hjálpar, án þess ad láta nockra hindrun eda efasemi tálma sér.

Matth. Gudspj. 10 Kap. v. 46-52.

Þá komu þeir til Jerichó (þegar Jesús 46.
i seinasta sinni var á leidinni til Jerúsalem),
en þegar hann géck út frá Jerichó med
fylgd sinni lærisveina og fjølda folks,
sat sonur Tímæi, hinn blíndi Bar-
thímæus, vid veginn, og bad ølmusu.
En þegar hann heyrdi, ad þad var 47.
Jesús úr Nazareth, tók hann ad kalla
og segja: Jesú! þú Davíds son!
miskuna þig yfir mig! margir hast- 48.
udu á hann, ad hann þeigja skyldi; en
hann kalladi því meir: þú Davíds
son; miskunadu þig yfir mig! þá 49.
nam Jesús stadar, og baud ad kalla

hann fyrir; þá kölludu menn til hins
blinda, og sögdu vid hann: vertú ad
eins hughraustur! stattú upp, hann
50. lætur kalla þig! hann kastadi þá af
sér kápunni, stód upp og kom til Jesú.
51. Þá tók Jesús til orda, og sagdi vid
hann: hvad vilt þú eg gjöri fyrir þig?
hinn blindi svaradi honum: Herra
minn! ad eg fá mætti sjón mína apt-
52. ur: Jesús sagdi vid hann: far burt,
þitt traust hjálpadt þér! en jafnskjótt
fékk hann sjónina, og fylgdi svo Jesú á
veg. (Matth. 20, 29-34. Lúc. 18, 35. 43).

## Þridji Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Eins og trúfastur vinur, hafdi Jesús
náqvæma hlutdeild, í sorg vina sinna, og
var hún honum svo sár, sem á sjálfum
lægi.

*.) Hrigdin hjá systrum Lazari, yfir dauda
bródurs þeirra, gékk Jesú svo til hjarta, ad
hann grét.

Jóh. Gudsp. 11 Kap. v. 1-37.

1. Madur nockurr lá veikur, Lazarus
ad nafni, úr Bethania, sem var þorp

þad,

þad, í hvørju María og Martha
systir hennar bjuggu. Hún var-sú 2.
María, sem smurdi Herrann med
því dýrmæta umsali, og þerradi fæt-
ur hans med hári sínu. Hennar bród-
ir Lazarus var sá, sem veikur lá.
Systurnar gjördu þá Jesú ordsend- 3.
íngu, og létu segja honum: Herra!
sjá! sá, sem þú elskar, liggur veikur.
En þegar Jesús heyrdi þetta, sagdi 4.
hañ: ecki er þetta sótt til dauda, held-
ur til Guds dýrdar (er hún send), svo
ad Sonur Guds megi á þann hátt
dýrdlegur verda. En Jesús unnti 5.
Mørthu ásamt systur hennar, og
Lazarusi. En, þó hann nú heyrt 6.
hefdi, ad hann sjúkur væri, var hann
samt um kyrrt á þeim stad, hvar hañ
dvaldi. Sídan sagdi hann vid læri- 7.
sveinana: vér skulum snúa aptur til
Júdæu. Lærisveinarnir svørudu 8.
honum: Meistari! ný-skéd sóktu Gyd-
íngar ad grýta þig, og þó villtú ferdast
þángad aptur! þá sagdi Jesús: dag- 9.
urinn varir þó tólf stundir! hvørr,
sem nú ferdast á degi steytir á engu,
því hann hefir ljós þessa heims (sólina)
ad sjá til vid; en haldi hann áfram á 10.

náttar-þeli, rekur hann sig brádlega
á eitthvad, því hann sjer ei til (svo
hefi eg vill Jesús sagt hafa, enn þá dag-
inn fyrir mér: minn embættis-tími, er enn
ei á enda kljádur, og óvinir mínir munu
þá ecki heldur gèta snert mig. Þegar sá
tími er úti, þá hid fyrsta liggur sú hætta
11. vid bord, sem þér óttist). Svo mælti
hann, og sagdi enn framar vid þá:
Lazarus, vinur vor, er sofnadur,
en eg geng þángad, til ad vekja hann
12. aptur. Þá svörudu hans lærisvein-
ar: Herra! ef hann sefur, er líklegt
13. hönum batni. En Jesús taladi um
dauda hans, en þeir héldu þarámóti
ad hann meinti til náttúrlegs svefns.
14. Því sagdi Jesús þeim útþryckilega:
15. Lazarus er daudur; en ydar vegna
gledur þad mig, ad eg var ecki stadd-
ur þar, svo þér mættud fulltrúa verda
(svo sem þeir, sem heyra, ad eg veit, hvad
vidber í fjærlægd þó enginn kominn sé
ad kunngjöra mér þad, og ad eg þess
vegna sé sá hinn sami, sem eg bodad
hefi, ad eg væri, Guds Sonur Messias).
en nú skulum vér samt fara til hans.
16. Þá sagdi Thómás, sem kalladur var
tvíburinn, vid sína med-lærisveina;
vér skulum og fara þángad, svo vér
meg-

megum med honum deyja! (Því hann
þóktist vita, ad á þessari ferd mundi Jesú
líf í hættu komast). En þegar Jesús 17.
kom (til Bethania) fann hann, ad hiñ
þegar á fiórda dag lá í grøfinni. En 18.
Bethania lá nálægt Jerúsalem, hér-
um bil fimtán skeid (fiórda part mílu)
þadan. Og margir Gydingar vóru 19.
komnir til Mortþu og Maríu til ad
hugga þær eptir bródur þeirra. En 20.
þegar Martha heyrdi, ad Jesús
kæmi, géck hún á móts vid hann; en
María beid heima á medan. En 21.
Martha sagdi vid Jesúm: Herra!
hefdir þú hér verid, þá væri bródir
minn ecki daudur. Annars veit eg 22.
þó, eins nú, ad um hvad hellst, sem
þú bidur Gud, vill hann veita þér!
(viljir þú bidja Gud þess, þá endurlifnar
bródir minn). Jesús ansadi henni: 23.
bródir þinn skal upprísa! Martha
svaradi: þess er eg fullviss, ad hann 24.
upprísa muni, í hinni almennilegu
upprísu á sídasta degi. En Jesús 25.
svaradi henni: eg er (sá, í hvors valdi
ad er) upprísan og lífid: hverr, sem
trúir á mig, skal endurlifna, þó hann
deyji, (þegar eg vil veita honum þad).

26.

26. Og hvørr lifandi, sem á mig trúir,
skal eilíflega ecki deyja (ecki vid lík-
amlegann dauda, missa sitt rétta líf,
heldur flytjast til eilífrar sarsældar).
27. Trúir þú þessu? hún svaradi honum:
já, Herra! eg trúi ad þú sért Messías,
sá Sonur Guds, sem í heiminn átti
28. ad koma. En þegar hún hafdi þetta
sagt, géck hún burt, og kalladi heimug-
lega á systur sína Maríu, og sagdi:
Meistarinn er kominn, og lætur kalla
29. á þig. Þdara enn hún heyrdi þetta,
30. stód hún upp, og géck til hans. En
Jesús var enn þá ecki kominn inn í
þorpid, því hann dvaldi þar, sem
31. Martha mætti honum. Þegar nú
Gydíngar þeir, sem vóru í heñar húsi,
og huggudu hana, sáu ad hún stód
skyndilega upp, og géck út, fylgdu þeir
henni á eptir, og sögdu: hún géngur
32. út ad gröfinni, til ad gráta þar; svo
kom María þángad, sem Jesús var,
og þegar hún sá hann, féll hún fram
fyrir fætur honum, og sagdi vid hañ:
Herra! ef þú hefdir verid hér, þá
33. væri bródir minn ecki daudur; en
þegar Jesús sá hana gráta, og Gyd-
íngana gráta, sem med henni vóru,
hrærd-

hrærdist hann ákaflega í anda, og
komst mjøg svo vid. Sídan sagdi 34.
hann: hvar hafid þér lagt hann? þeir
svørudu honum: Herra! kom og sjá!
Jesús grét (hans vidqvæma hjarta komst 35.
vid af ángist vina sinna). En Gyd-
íngar søgdu: sjá! hvørsu mjøg hañ 36.
elskadi hañ! Þarámóti søgdu nockrir 37.
þeirra: gat hann þá ecki, sem opnadi
augu blindra, líka sjed svo til, ad þessi
madur dæi ecki?

2.) An þess ad skeyta gremju sinna mót-stødumanna, og hættu þeirri, sem þar af or-sakast mátti, gefur Jesús einúngis gaum ad vináttu sinni vid Lazarus og systur hañs, og kalladi hann fram af grefinni aptur þeim til huggunar.

Jóh. Gudsp. 11 Kap. v. 38-53.

Þar eptir kom Jesús til grafariñar, 38.
og á ný komst hann vid í sínum anda;
hún var grysja ein, (kløppud í stein eptir
lands-vana) og steinn lá yfir henni.
Þá sagdi Jesús: takid af steininn! 39.
Martha, systir hins dauda, svaradi
honum: Herra! ná-lykt er þegar af
honum komin, því hann hefir legid
í fjóra daga. Þá andsvaradi Jesús 40.
henni á ný: sagdi eg þér ecki, ad þú

fá

sá skyldir ad sjá Guds dýrdleganu
41. krapt, ef þú trýdir? Þá tóku menn stein-
inn ofan af þar, sem hinn daudi var
lagdur. Þá hóf Jesús sín augu upp
í hædir, og sagdi: Fadir! eg þacka
42. þér, ad þú bænheyrir mig! ad sønnu
vissa eg ad þú heyrir mig ætíd; en eg
segi þetta vegna fólksins, sem stendur
hér umhverfis, svo menn trúa megi,
43. ad þú sendir mig, og þegar hann hafdi
þetta sagt, kalladi hann hárri roddu:
44. Lazarus! komdu út híngad! Þá kom
hinn daudi út, vafinn reimum um
hendur og fætur, og andlitid blæu
sveypad (eins og sidur var ad jarda lík)
en Jesús baud þeim: leysid hann, og
45. látid hann ná ad gánga. Margir þeir
Gydíngar, sem til Maríu komnir
vóru, og sáu nú, hvad Jesús gjordi,
46. trúdu á hann. En nockrir þeirra
gengu til Pharísæanna, og sogdu
47. þeim frá því hvad Jesús gjordi. Þá
létu þeir yppurstu Prestar og Pharí-
særnir safna rádinu, og søgdu: hvad
eigum vér til bragds ad taka? því
48. þessi madur gjorir mørg teikn. Ef
vér látum hann þanninn á fram halda,
þá trúir hvørr madur á hann; og svo
koma

koma Rómverjar og svipta oss bædi
lýd og landi; (því menn ímyndudu sér, ad
væri Jesús Messias, mundi hann láta
úthrópa sig til Kóngs, og þar af hlaut
ad hefjast strid vid Rómverja). En einn 49.
af þeim, Kaiphas ad nafni, sem var
(hinn virkilegi) ypparsti Prestur á því
ári, sagdi vid þá: þér vitid þó alls ekk- 50.
ert rád! ydur kémur jafnvel ecki til hug-
ar, ad oss sé nytsamlegt, ad einn madur
deyi fyrir fólkid, svo ad öll þjódin tor-
týnist ecki. Þó sagdi hann þetta ecki 51.
af sjálfum sér; heldur vegna þess hann
var þetta ár ypparsti Prestur, spádi
hann; því í raun og veru átti Jesús
fyrir fólkid ad deyja, og ecki einúngis 52.
fyrir þessa þjód, heldur ad hann sam-
ansafnad gæti, hinum tvístrudu Guds
börnum í eina hjörd*). Og frá þeim 53.
degi tóku þeir rád sín saman, hvörsu
þeir mættu honum í hel koma.

Sja

*) Menn hjeldu ad sá ypparsti Prestur, vegna embættis
sins, væri meira viti gæddur, og gæti séd fram í
veginn; Jóhannes vill sagt hafa, ad í þetta sinn
hafi Kaiphas sannspár verid, þó Guds stjórnan
ljeti annur verda afdrifin, en hann ætladist. Af
hans vonda rádi, hvörs augnamid var einber hefnd
yfir Jesú, vissi Gud vel ad leida hid farsællegasta
mannkyninu til frelsis.

# 3ia Suñudag eptir Prettánda.

## Adal-hugleiding.

Jesús, sem þeckti sína áqvørdun ad hann fyrir syndarana lída skyldi, sókti þess vegna enganveginn eptir jardnesku veldi eda vegsemd, heldur kom sér hjá því víd øll tækifæri.

## Fyrsti Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Søkum þess Jesús vildi ei af mønnum tignadur verda, eda gjøra sig sjálfann mikinn og nafntogadann medal þeirra, leid hann ecki, ad ryktid um þau frægdarverk, er hann framqvæmdi, kjæmist á lopt.

1.) Jesús var eins fús til ad hjálpa þeim veiku, þegar enginn til sá, og þegar margir vid vóru, þó vildi hann ecki ad hid góda, sem hann gjørdi í leyndum, væri ødrum opinberad.

Matth:

Matth. Gudsp. 9 Kap. v. 27-31.
Þegar Jesús kom út aptur (frá sam- 27.
kundu-forstjórans húsi í Kapernaum)
og héldt áfram lengra, fylgdu honum
tveir blindir menn, sem hrópudu og
sögdu: þú Davids son! aumka þig
yfir ockur! og þá hañ kom heim, gengu 28.
þeir blindu inn til hans. Nú spyr
Jesús þá: trúid þid líka ad eg géti
þetta gjört? þeir svörudu honum: já,
Herra! þá snart hann þeirra augu
og sagdi: verdi yckur ad trú yckar, og 29.
þá opnudust augu þeirra. Enn Jes- 30.
ús áminnti þá alvarlega og sagdi: sjá-
id til ad enginn fái vitneskju hér um.
(því hann vildi hindra ad flocka-drættir
skyldu hans vegna uppkoma medal fólksins,
hvörju mátti koma í hug ad taka hann
til Konúngs, eptir þess raungu meiníngu
um Messías, og þar med vekja mikiñ óróa).
Engu ad sídur gengu þeir þó burt, og 31.
útbreifdu ryktinu um þetta, í öllu því
bygdarlagi.

2.) Þó Jesús opinberlega í fólksins vidur-
vist fremdi stór-virki sín, til ljósustu fullvissu
þar um, ad hann eckért náttúrlegt medal brúk-
adi, þá gaf hann samt ecki leyfi til, ad þar
á væri ord gjört honum til hrósunar.

Marcí Gúdſp. 7 Kap. v. 31-38.

31. Þá veik Jeſús burt aptur frá landa-
merkjum Tyruss' og Sídonar, og
kom til Galílæu ſjóar, gégnum lands-
32. pláts Decapólis. Þar var einn
daufur til hans hafdur, ſem var nær
því málllaus, og hann var bedinn ad
33. leggja hendur yfir hann. Hann tók
því þennann med ſér affſídis frá mañ-
fjøldanum, lét fíngurnar í eyru hans,
hrækti (á fíngur ſér) og ſnart hans
túngu; allt til þeſs ad géfa til kynna, hvørſu
kraptur hans furdu-verka léti ſig í ljóſi,
og ſvo fólkid uppvekjaſt mætti, til því
34. náqvæmari gaumgjæfni); leit ſvo upp
til himins og andvarpadi (til vitnis-
burdar um ad hann verkadi í ſamein-
íngu med ſínum himneſka fødur); ſagdi
35. því nærſt vid hann: Ephata! þad
merkir: opna þig! þá opnuduſt ſtrax
eyru hans, og fjøtur hans túngu loſn-
udu, ſvo hann vard ſkírmæltur.
36. Samt bannadi hann þeim, ad ſegja
nockrum frá þeſſu, en hvørſu, ſem hañ
bannadi þeim þad, tøludu þeir því
37. meir þar um. Og þeir undruduſt
38. fram úr hófi, og ſøgdu: allt gjørdi
hann vel, bædi géfur hann daufum
heyrn og lætur mál-lauſa tala.

3.) Jesús vhladi ecki fyrir sér, fyrir aug- um óvina sinna ad leida sinn yfirnáttúrlega krapt í ljós, med surdanlegri lækníngu, sem ómøgulegt var ad efa, þó áminnti hann fólk- id ad þeigja, svo sá misþánki skyldi ecki upp- koma, ad hann sækti eptir útvortis metordum.

Matth. Gudsp. 12 Kap. v. 9-21.

Þá héldt Jesús lengra áfram (eptir þad 9.
hann átt hafdi tal vid Pharísæana vid-
vikjandi lærisveinum hans, sem plockad
høfdu ax á Sabbaths-degi) og kom í
samkundu þeirra. Og sjá! þar var 10.
þá manneskja, sem hafdi visna hønd.
En svo þeir gjætu fengid ákjæru til-
efni móti honum, spurdu þeir hann
og søgdu: er leyfilegt ad lækna á Sab-
baths-degi? hann svaradi þeim: hvørr 11.
mundi sá vera ydar á milli, ef hann
ætti einúngis eitt saud, er á Sabbaths-
degi væri dottinn ofan í gryfju, sem
ecki vildi taka í hann og draga hann
uppúr? en hvørsu mjøg tekur mann- 12.
eskjan þó ecki saudnum fram? því hlýt-
ur leyfilegt vera, ad gjøra gott á Sab-
baths-degi. Sídan sagdi hann vid 13.
manninn: rétt þína hønd fram! og
hann rétti hana fram; og þá vard hún
heil, eins og hin. En Pharísæarnir 14.

gengu út, og tóku ráð sín saman gégn
honum, hvørsu þeir mættu hann af
15. døgum ráda. Jesús, sem vissi þetta,
géck þá burt þadan, og margskonar
manneskjur fylgdu honum, og hann
læknadi þá alla (sem medal þeirra á ein-
16. hvørn hátt veikir vóru), en bannadi
þeim alvarlega, ad gjøra sig aug-
17. ljósann; svo þad géckst þá eptir, sem
Spámadurinn Esajas sagdi fyrir,
18. þegar hann komst svo ad ordi: sjá!
minn þjón, sem eg útvalid hefi! minn
elskulega, hvørjum eg ann! anda
minn vil eg yfir honum vera láta, og
kunngjøra skal hañ fólkinu hvad rétt-
19. víst er. Kíf skal hann ecki vekja, né
hávada, og enginn skal køll hans á
strætunum heyra (med aggi og háreysti
20. skal hann ecki útbreida lærdóm sinn), brák-
adann reyr skal hann ecki sundur-
brjóta, og ecki sløckva rjúkanda qveik
(ecki brjótast gégn þeim veiku med ofbeldi),
þar til hann med sigursæld hefir sitt
21. sanna mál til lykta leidt, og á hans
nafn skulu þjódirnar festa von sína.
(Es. 42, 1-4. Marc. 3, 1-12. Lúc. 6, 6-11).

4.) Jesús hefir ad vísu látid dýrd sína ljóma
í vidurvist sinna vildustu lærisveina, til ad styrk-
ja

ja þá í trú þeirra, engu að síður leyfði hann þó ecki, að nockrum væri þarfrá sagt, fyrr enn hans erindi á jörðunni væri til lykta leidt.

Matth. Guðsp. 17 Kap. v. 1-13.

Sex dögum síðar (eptir það lærisveinarnir hátíðlega meðkénnt höfðu að Jesús 1.
Messias væri) tók hann Pétur og
Jakob og bróður hans Jóhannes til
sín, og fór með þá afsíðis uppá eitt hátt
fjall (í lands-plátsinu hjá Cæsarea Philippi). Þá umbreyttist hans útlit 2.
fyrir augum þeirra, svo að hans andlit skein sem sólin, og klæðnaður hans
varð fagur sem ljós. Og sjá! Móses 3.
og Elías birtust þeim, og áttu tal við
hann, (í hvörri samræðu Jesús hefir orðið að nefna þá á nafn vegna lærisveinanna).
En Pétur tók til orða og sagði við 4.
Jesúm: Herra! hér er oss gott að
vera! ef þér þócknast, þá lát oss byggja hér þrjá lauf-skála: einn fyrir þig,
einn fyrir Móses og einn fyrir Elías
(frá sér numinn af furðu, meinti hann, að
þeir komnir væru í Paradís, sem Gyðingar ímynduðu sér að hulin væri á jörðunni enn þá í óþecktu lands-plátsi). En 5.
rétt á meðan hann var að tala, sjá! þá
huldi þá fagurt ský, og sjá! rödd

kom af skýinu, sem sagdi: þessi er
Sonur minn, hinn elskulegi, á hvør-
jum eg hefi gédþeckni! hlýdid þér hon-
6. um. En þegar lærisveinarnir heyrdu
þetta, féllu þeir fram á andlit sín og
7. urdu nærsta mjøg óttaslegnir; þá
8. géck Jesús ad, snart þá og sagdi: stand-
id upp og ottist ecki! og þegar þeir
litu þá upp augunum, sáu þeir eng-
9. ann nema Jesúm einann*). En,
sem þeir gengu ofan af fjallinu, baud
Jesús þeim, og sagdi: vid engann
skulud þér neitt géta um sjón þessa,
fyrri

*) Pharísæar og Sadúsæar krøfdust teikns af himni, Matth. 16, 1. enn Jesús synjadi þeim viturlega þeirrar krøfu, med því himin-teikn verdur ei rannsakad med þvílíkri náqvæmni, sem teikn á jørdu, svo menn þess vegna hefdu fengid tilefni til ad koma margføldum efa á lopt, en svo ad heimugleg efasemi skyldi ei smeygja sér inn hjá lærisveinunum, eins og Jesús hefdi ecki megnad ad uppfylla þeirra tilmæli, og neitad þeim þess vegna, ljet hann þrjá sína skynsømustu lærisveina fá ad sjá þessa himnesku sjón, sem styrkti þá krøptuglegá í þeirri fullvissu, sem þeir þegar høfdu, um hans guddómlegu sendingu, og kjenndi þeim ad álíta hann ødruvísi enn einbera manneskju.

fyrri enn Mannsins Sonur er af dauda upprisinn; (hvi fólkid hefdi annars upptendrast af of ákofu vandlæti um hann, og hefdi tekid ad brjótast of stórt í, til ad gjora hann ad Kóngi). En 10.
hans lærisveinar spurdu hann, og sögdu: hvad er þad þá, sem hinir skriftlærdu segja: ad Elías egi ádur ad koma? (Mal. 4, 5). Jesús svar- 11.
adi þeim og sagdi: ad sonnu er þad svo, ad Elías á fyrst ad koma, og koma reglu á allt. En eg segi ydur 12.
satt, ad Elías er þegar kominn, og var ei medtekinn, heldur breyttu meñ vid hann, sem þeim sýndist, svo skal og Mannsins Sonur mikid af þeim lída.
Þá skildu hans lærisveinar ad hann 13.
taladi vid þá, um Skirarañ Jóhañes. (Marc. 9, 2-13. Lúc. 9, 28-56).

# Annar Argángur.

## Hofud-lærdómur.

Med mestu athygli kom Jesús í veg fyrir, ad menn fengju tækifæri ad neyda uppá hann jardneskri drottnun og hátign.

1.) Undir eins og Jesús formerkti ad frábær mannfiøldi umkríngdi hann, veik hann burt þadan, til þess ad koma í veg fyrir oll grunsom umsvif.

Marc. Gudsp. 1 Kap. v. 32-45.

32. Þá qvøld var komid og sólarlag, vóru
allir sjúkir og allir ódir (í Kapernaum),
33. til hans hafdir, og allt kauptúnid var
34. samankomid fyrir dyrunum úti. Þá
læknadi hann hina mørgu, sem margvíslegum
sjúkdómum haldnir vóru,
og rak út marga anda, (vonda anda)
en leid ondunum þó ecki ad tala, því
þeir þecktu hann (og med því ad úthrópa
ad hann Messías væri, gátu valdid
honum nýrra áráia af Pharísæunum).
35. En morguninn eptir fór hann á fætur
fyrir dag, og géck í afvikinn stad,
36. hvar hann badst fyrir. En Símon
og félagar hans hrødudu sér á eptir
37. honum; og þegar þeir høfdu hann
fundid, søgdu þeir vid hann: allir
38. leita þín. Hann svaradi þeim: látum
oss gánga til nærstu smá-stada,
svo eg þar einnig prédikad fái, því til
39. þess er eg kominn. Sídan kéñdi hañ
í samkundum þeirra, í allri Galílæu
40. og útrak andana. Þá kom einn lík-

þrár

þrár til hans og bad hann, féll um leid
á kné fyrir honum og sagdi vid hann:
ef þú villt þá gétur þú hreinsad mig.
En Jesús hrærdist vidqvæmrar miſk- 41.
unar yfir honum, rétti út sína hønd,
snart hann og sagdi: eg vil! vertú
hreinn! og undir eins og hann sagdi 42.
þad, veik líkþráin frá honum, og hann
hreinsadist. Þá baud hann honum 43.
alvarlega ad víkja strax á burt, og sagdi
vid hann: varastú ad géta um þetta 44.
vid nockurn mann! en far burt og sýn
þig Kénnimanninum, og fær þá fórn
fyrir hreinsun þína, sem Móses bod-
id hefir (3 Mós. b. 14, 3-10), þeim til
mótvitnis, (ef þeir eptir á neita vilja ad
þú sért hreinn ordinn). Engu sídur tók 45.
hann há-støfum hér um ad tala, þegar
hann burtu géck, og gjørdi svo mikid
ord á því, ad hann (Jesús) gat ecki op-
inberlega gengid inn í þorpin, heldur
dvaldi fyrir utan þau á afviknum stød-
um; engu ad sídur komu menn þó til
hans allstadar ad.

Marc. Gudsp. 2 Kap. v. 1-13.

Ad nockrum døgum lidnum kom hañ 1.
aptur til Kapernaum. En þad 2.

barst ad hann heima væri, og strax
søfnuduft þar svo margir saman, ad
menn jafnvel høfdu ecki rúm fyrir
dyrum úti; þó frædди hañ þá í Guds
3. ordi. Þá komu þar nockrir, og høfdu
med sér nidurfalls-sjúkann mann,
4. sem fjórir báru; og med því þeir gátu
ecki komist nærri honum vegna mañ-
fjøldans, rufu þeir þakid undir hvør-
ju hann var, og, sem þeir høfdu þad
gjørt, létu þeir sængina, í hvørri hinn
5. nidurfalls sjúki lá, síga nidur. Þeg-
ar Jesús sá nú traust þeirra, sagdi
hann vid þann nidurfalls-sjúka: son-
ur! þínar syndir eru þér fyrirgéfnar!
6. en nockrir skriftlærdir vóru þar setst-
7. ir og hugsudu nú med sjálfum sér: því
talar hann svo háduglega? því hvør
mun syndirnar mega fyrirgéfa, nema
8. sá eini Gud? en Jesús, sem í anda
vard strax var, ad þeir hugsudu því-
líkt med sjálfum sér, sagdi vid þá:
9. því hugsid þér svo illa í ydar
hjørtu? hvort er hægra, ad segja vid
þennann nidurfalls-sjúka: þér eru
þínar syndir fyrirgéfnar, ellegar ad
segja: statt þú upp og tak sæng þína,
10. og gack? en svo ad þér vitid megid, ad
Manns-

Mansins Sonur hefir vald á jørdu
til ad fyrirgéfa syndirnar, þá býd eg
þér, sagdi hann vid hinn nidurfalls-
sjúka: stattú upp, og tak upp sæng 11.
þína, og far heim í þitt hús! jafnskjótt 12.
reis hann á fætur, tók upp sæng sína,
og géck út, øllum ásjáandi, svo allir
þeir urdu hissa, lofudu Gud og søgdu:
þvílíkt sáum vér aldrei. En sídan 13.
héldt hann aptur veginn til sjáfarins;
og allshátt ad fólk kom þángad aptur
til hans, og hann kénndi því.
(Matth. 8, 1-4. 9, 1-8. Lúc. 4, 42-44.
5, 12-26).

2.) Jesús vildi jafnvel ecki med valdi láta neyda sig til ad veita því Herra-dæmi vidtøku, sem fólkid ætladi honum, heldur fól sig, þángad til hann um nóttina gat í kyrrdum komist í annad pláts.

Jóh. Gudsp. 6 Kap. v. 1-27.

Sídan fór Jesús yfir Galilæu sjó, sem 1.
og nefnist sjórinn vid Tiberias.
En mikill flockur manna fylgdi hon- 2.
um, því menn sáu hvílík furdu-verk
hann gjørdi á hinum veiku. Þar géck 3.
Jesús þá uppá fjall, og settist þar nid-
ur med sínum lærisveinum. En 4.
Páska-hátídin Gydínganna (stærsta)

var þá fyrir höndum (og kom nú
í þridja sinn, medan Jesú kennimanns
5. embætti varadi). En þegar Jesús hóf
upp sín augu, og vard þess var, ad
fólks-fjöldi mikill kom til hans, sagdi
hann vid Philippus: hvar getum
vér braud keypt, svo þessir fái nockud
6. til nautnar? en hann sagdi þetta til
ad reyna hann, því sjálfum honum
mun hafa kunnugt verid, hvad hann
7. ætladi ad gjöra. Philippus svar-
adi honum: braud fyrir tvö hundrud
mörk, nægir þeim ecki, ef hvörr einn
8. ad fá nockud lítid. Annar af læri-
sveinum hans, Andrés, bródir Sí-
monar Péturs, sagdi vid hann:
9. hér er einn smásveinn (til ad gëta hvörs
lærisveinarnir hafi med sér á ferdinni sem létta-
dreng), sem hefir fimm bygg-braud
10. og tvo smá-fiska; en hvad er þetta
handa svo mörgum? þá sagdi Jesús:
skipid fólkinu sæti! og í þeim stad
var gras mikid, þá settust þeir nidur,
nær fimm þúsundir manna ad tölu.
11. Þá tók Jesús braudin, og þegar hann
gjört hafdi þacklætis-bæn, skipti hann
þeim medal lærisveinanna, en læri-
sveinarnir úthlutudu aptur þeim,
sem

sem nidur høfdu setst; á sama hátt
var og af fiskunum útbýtt, svo miklu,
sem hvorr vildi fá. En þegar þeir 12.
vóru ordnir mettir, sagdi hann vid
sína lærisveina, safnid afgángs-leyf-
unum saman, svo eckért fari til
skémmda! þess vegna søfnudu þeir 13.
saman og fylltu tólf karfir med af-
gángs-leyfar, af þeim fimm bygg-
braudum, sem þeir leyfdu, er neytt
høfdu. En þegar fólkid sá, hvort 14.
furdu-verk Jesús gjørdi, sagdi þad: efa-
laust er hann Spámadurinn (hinn
mikli Spámadur Messias), sem í heim-
inn á ad koma! þess vegna, þegar 15.
Jesús vissi ad menn ætludu ad koma
og taka hann, til ad gjøra hann ad
Konúngi, veik hañ aptur aleinn uppá
fjallid. En þar qvøld var komid, 16.
gengu hans lærisveinar ofan til sjáf-
ar, og er þeir stignir vóru á skip, tóku 17.
þeir sér stefnu-leid yfirum sjóinn ad
**Kapernaum;** dymmt var þegar
ordid, og Jesús var ecki kominn til
þeirra; en sjáfar ólgu gjørdi, því 18.
stormur var. En, sem þeir róid høfdu 19.
hérum tuttugu og fimm, eda þrjátygi
akra-lengdir (nær hálfa viku) komu

þeir

þeir auga á Jesúm, sem géck á sjón-
um, og nálgadist skipid; og þeim
féllst hugur (þvi þeir þecktu hann ecki i
20. fyrstu). En hann sagdi vid þá: eg er
21. þad! verid øldúngis óhrædder! Þá
tóku þeir hann med gledi upp í skipid;
sídan komst skipid skjótt þar ad landi,
22. sem þeir ætludu til. Daginn eptir,
þegar fólkid, sem eptir vard hinu-
meginn sjáfarins, og hafdi sjed, ad þar
var eckért annad skip, enn þad eina,
á hvørju hans lærisveinar foru, og ad
Jesús sté ecki á þad skip med lærisvein-
um sínum, heldur ad hans lærisvein-
23. ar høfdu einsamlir burtu farid ... og
þángad komu á medan nockur ønnur
skip frá Tiberias, sem lá í grend vid
þann stad, hvar máltídin var haldin,
þá Herrann gjørdi þackletis-bænina
24. ... þá, þegar fólkid vard þess vart, ad
Jesús var þar ecki, né hans lærisvein-
ar, kom þad sér í hin ønnur skipin og
fór til Kapernaum til ad leita Jesú.
25. En, sem þad fann hann hinumeginn
sjáfarins, sagdi þad vid hañ: Rabbi!
26. hvenær komstú híngad? Jesús svar-
adi þeim og sagdi: eg verd ad segja
ydur þad øldúngis satt: þér leitid
mín

mín ecki sérílagi þess vegna ad þér teikn sáud, heldur vegna þess þér neyttud braudanna og urdud mettir.
Hafid þó ecki svo mikla erfidismuni 27.
fyrir fædu þeirri, sem forgengur, heldur fyrir þeirri fædu, sem heldur krapti sínum og ablar eilífs lífs, hvört Mannsins Sonur gétur ydur veitt (med sinni uppfrædingu) því fadirinn, sjálfur Gud, hefir géfid honum fulla makt til þess. (Matth. 14, 13-21. Marc. 6, 30-52. Lúc. 9, 10-17).

## Þridji Argángur.

### Hofud-lærdómur.

Jesús kollkastadi allri von hjá sínum lærisveinum um jardneska tign vegna Messíæ, og segir átþryckilega þvert á móti ad hann miklu heldur eptir sinni áqvördun egi ad leggja lífid í sölurnar fyrir syndaranna skuld, med qvala-fullum dauda.

1.) Rétt undir eins og Pétur sin og hinna lærisveinanna vegna, vitnad hafdi, ad þeir medkénndu Jesúm ad vera hinn sanna Messías, frædi hann þá strax á því, ad qvalafullur daudi

daudi fyrir sér lægi, og ad hans fyrstu játendur
þyrftu ecki vid odru ad búast eñ mædu og ofsóknum.

Matth. Gudsp. 16 Kap. v. 13-28.

13. Þegar Jesús á ferd sinni kom í þad
lands-pláts, í hvørju borgin Cæsarea
Philippi stendur, spurdi hann sína
lærisveina, og sagdi: hvørr segja meñ,
ad eg, Mannsins Sonur muni vera?
14. Þeir svørudu: nockrir segja ad þú sért
Skírarinn Jóhannes (sem haldid var
ad aptur væri af dauda upprisinn), og
adrir segja: þú sért Elías (sem menn
væntu aptur mundi frá himnum koma),
og enn adrir, ad þú sért einn af Spá-
mønnunum (sem meint var ad upprísa
mundu til ad gjora Messias komu veg-
15. samlegri) Sídan spurdi hann þá:
16. hvørr segid þér þá ad eg sé? Símon
Pétur svaradi og sagdi: þú ert Son-
17. ur hins lifanda Guds! þá gegndi Jes-
ús til, og sagdi vid hann; sæll ert þú
Símon Jónasson! því hold og
blód (breiskar manneskjur) hafa ecki
veitt þér þessa vitsmuni, heldur minn
himneski Fadir (undir hvørs stjórn og
adstod þú nád hefir vissu um þad, ad
madur svo lítilmótlegur ad útvortis áliti,
sem eg, gæti Messias verid, og ad hann
þess

þess vegna gjorist ei nafnfrægur med
jardnesku veldi, sem menn almennilega héldu).
Eg segi þér þá líka: þú ert einn Pétur 18.
(sem merkir hellu-steinn), og á þessari hellu
(á þinni stødugu vidurkenníngu, sem er
grundvøllurinn) vil eg byggja mína
kirkju, (því Pétur var hinn fyrsti, sem
Evangelium bodadi Júdum, Postulanna
G. b. 2, 14-40. og Heidíngjum, Post. g.
b. 10, 34-43. 15, 7-16). og helvítis
veldi skal hana ecki yfirbuga *). Svo 19.
vil eg og trúa þér fyrir lyklum himna-
ríkis, (þú skalt vald hafa, til ad med-
taka í mína kirkju, eda útilykja frá henni
hvørn sem þér líst), og hvad heldst þú
bindur (þad er: bannar) á jørdu, þad
skal á himni fyrirbodid vera, og hvad,
sem þú leysir á jørdu, (þad er: leysir)
þad skal leyst vera á himni, (Pétur ødl-
ast fullmakt ásamt hans sam-lærisveinum
Matth. 18, 18. Jóh. 20, 23 ad laga
kirkjunnar nidurskipun eptir eginn virsmun-
um, en Jesús vill á himni stadfesta þad
þar um er ágvardad). Sídan bannadi 20.

S Jes-

*) Í textanum, nefnist þetta vald, Portid, eptir Austur-landa tals-hætti, vegna þess hid ædsta vald hefir sæti í Stadar-portinu, hvar dómar gángast. Í hvørju tilliti hin tyrkneska Stjórn, kallast líka á þessum tímum hid Ottóm-anni-ska-Port.

Jesús sínum lærisveinum ad segja
nockrum frá því, ad hañ Jesús Mes-
sías væri (til þess ad hindra ad fyrir Kon-
úngs-tign hans væri umsvif høfd af fólkinu).
21. En, frá þeim tíma, tók Jesús ad leida
sínum lærisveinum fyrir sjónir, ad
hans skylda væri, ad halda til Jerúsa-
lem og líða mikid af Oldúngunum
(kynqvíslanna Høfuds-monnum, sem sátu
hid mikla ráð), og af skriftlærdum, og
ad hann ætti ad rádast af døgum, en
22. endurlífgast á þridja degi. Þá tók
Pétur hann afsídis, tók ad vanda um
vid hann og sagdi: Gud hjálpi þér,
Herra! engañveginn má þvílíkt henda
23. þig! en hann sneri sér vid og sagdi vid
Pétur: vík þú frá mér, mótstandari!
þú ert mér til ásteytíngar, því þú skyn-
jar ecki hvad ráð Guds og vilji út-
heimtir, og kémur engu fyrir þig nema
24. því, sem monnum vel gédjast. Sídan
sagdi Jesús vid sína lærisveina: vilji
nockur fylgja mer eptir (svo sem minn
lærisveinn), þá afneiti hann sjálfum sér,
og taki minn kross á sig (reidubúinn ad
líða hinn qvalafyllsta dauda) og fylgi mér!
25. því hvorr, sem frelsa vill líf sitt (med
því ad falla frá mínum lærdómi) kann þó
verda

verda ad missa þad, en hvørjum, sem
fús vill fyrir mig lífid láta (heldur deyja
á aftøkustad, enn afneita mínu nafni), gétur
heppnast ad frelsa þad. Hvad stodar 26.
þad manninn, (sem menn segja í ords-hættinum)
þó hann vinni allann heiminn, en tortýndi
þó lífi sínu? eda á hvørju andvirdi héfir
madurinn rád, til ad endurkaupa med
líf sitt? (og sé hid jardneska líf svo dýrmætt,
hvad mun þá ecki hid himneska? hvorr legaz
ur ecki fúslega hid fyrra í sølurnar til ad missa
ecki hid sídara?) en þad skal ské ad Manns- 27.
ins Sonur komi med sínum englum í
dýrd Fødurs síns (sem himneskur stjórnari,
med guddóms-veldi, máttugur ad framqvæma
hinn réttvísasta hefndar-dóm, á þverskolludu
fólki) og þá mun hann endurgjalda sér-
hvørjum eptir hans verkum. Eg segi 28.
ydur satt og víst: nockrir eru þeir hér
staddir, sem ecki skulu daudans kaleik
smacka, fyrri enn þeir hafa ad raun um
komist, ad Mannsins Sonur hafi sitt
ríki til umráda tekid (hafi ædstu stjórnun
mannkynsins ad sér tekid, og framfylgi henni
voldulega, móti frekju upphlaups-mannanna.
Marc. 8, 27-38. Lúc 9, 18-27).

2.) Í stad þess ad vænta jardneskrar uppheſdar, sýnir Jesús, ad lærisveinar hans megi búast vid qvøl og þjáningu, sem var sjálfs hans hlutfall á jørd-

 unni,

unni, þángad til hans skeid var útrunnid med því
ad gëfa sig í daudann, syndurunum til frelsunar.

Matth. Gudsp. 20 Kap. v. 17-28.

17. En þegar Jesús géck upp til Jerúsa-
lem, kalladi hann einkum fyrir sig þá
tólf lærisveina á veginum, og sagdi
18. vid þá: sjá! vér förum nú upp til Je-
rúsalem, og Mannsins Sonur mun
hinum yppurstu Kénnimönnum og
Skriftlærdum í hendur seljast, og þeir
19. munu hann til dauda dæma, og hand-
selja hañ Heidíngjum, til þess ad láta
spotta hann, húdstrýkja og krossfesta,
en á þridja degi mun hann aptur upp-
20. rísa. Þá kom módir
Zebedæi sona (Salóme) til hans, á-
samt sonum sínum (Jacobi og Jó-
hannesi) féll fram fyrir honum, og
21. vildi bidja hañ nockurs; hañ spurdi
hana: hvad villt þú? hún svaradi hon-
um: lofa mér því, ad þessir mínir tveir
synir hljóti sæti í ríki þínu, añar þér til
hægri, og hiñ til vinstri handar (í þeirri
meiníngu ad Messías settist á Davids veldis-
stól, svo sem jardneskur stjórnari, kaus hún ad
synir sínir væru settir, sem tveir ríkisins ædstu
22. Rádgjafar). En Jesús svaradi og sagdi:
þér vitid ecki, hvörs þér beidist; mun-
ud

ud þér druckid fá þá skál, sem mér ber
ad drecka, og skírst þeirri skírn, sem
fyrir mér liggur ad skírast? (munud þér
stadist fá þær sáru qvalir, sem fyrir mér liggja).
Þau svørudu honum: þad gétum vid.
Þá sagdi Jesús vid þau: þá skál, sem 23.
eg drecka hlýt, munud jafnvel þér og
svo drecka, og þeirri skírn, hvørri eg
skírast á, munud þér jafnvel og skír-
ast,*) en ad fá sess vid mína hægri
eda vinstri hlid er ecki í mínu valdi ad
veita nockrum nema þeim, sem fadir
minn þad ávardar, (þad er undir fodursins
vilja og rádstøfun komid, hvørn frama mínir
sendibodar hljóta skulu, fyrir árvekni þeirra
og kostgjæfni í ordsins þjónustu). En, sem 24.
þeir tíu heyrdu þetta, gromdust þeir

 25.

*) Í máli sínu, sem ríkt var af samlíkíngum, leiddu Ebreskir øll mædufull bágindi fyrir sjónir, sem beiskar dreggjar, rjettar í bikar einum, sem menn í sømu sporum af drecka skyldu í botn, Es. 51, 21-23. Í Austur-løndum fer skírnin þannveg fram, ad mønnum er søckt á kaf í vatnid, eins og þeim dreckja skyldi, og fyrirmindar því og miklar þjáníngar, undir hvørjum menn eru ad því komnir ad tortýnast. Jesús gjefur til kynna, ad vilji þeir honum trúir vera, hlytu þeir hans vegna margt þúngbært ad lída, og mættu þess vegna ecki gledjast vid von um jardneska dýrd og vegsemd.

25. bádum brædrunum. Þá kalladi Jes-
ús þá fyrir sig og sagdi: þér vitid, ad
þjódanna stjórnendur ráda yfir þeim,
og ad hinir miklu hafa vald yfir þeim;
26. en svo skal ecki framfara ydar á milli;
því hvorr, sem vill voldugur verda
27. medal ydar, verdi sá ydar þjón; og sá,
sem ydar á milli vill ædstur vera,
verdi hann ydar þræll (svo reidubúinn til
þénustu, sidsamur og góðviljadur, sem nockurr
þénari eda þræll getur verid vid Herra sinn).
28. Eins og ad Mannsins Sonur, ecki er
heldur kominn til ad láta þjóna sér,
heldur til þess ad þjóna, og til ad út-
géfa sitt líf, þeim mørgu til endur-
lausnar. (Marc. 10,32-45. Lúc. 18,31-34).

3) Þegar fólkid lét furdu í ljósi yfir verkum Jesú, leitadist hann strax vid ad snúa þaunkum lærisveinanna til þeirrar pínu, sem fyrir honum lá, svo þeir ei styrkjast skyldu í ímindun þeirra um veldi og upphefd á jørdunni.

Lúc. Gudsp. 9 Kap. v. 37-48.

37. Daginn eptir þegar þeir gengu ofan
af fjallinu (hvar Jesús forklárадist),
38. mætti honum mikill fjøldi fólks. Og
sjá! einn af fólkinu kalladi og sagdi:
Meistari! eg bid þig ad líta þó í nád
til sonar míns; því hann er einka
barn

barn mitt. Sjá! andi leggst á hañ, 39.
og þá veinar hann jafnskjótt; og hañ
slítur hann, svo hann frodufellir, og
naumast hverfur hann frá honum
þegar hann búiñ er ad sár-qvelja hañ.
Eg bad lærisveina þína, ad reka hann 40.
út, en þeir gátu þad ecki. Þá svar- 41.
adi Jesús og sagdi: o! þú vantrúada
og rángsnúna kynslód! (þeir hofdu enn
þa ecki fengid fulltraust og von á hans fyrir-
heiti, um guddómlega adstod, og adludust
þess vegna enga bænheyrslu). Hvörsu
lengi á eg þó hjá ydur ad vera, (þánga-
ad til ydar trú styrkist)? hvörsu lengi á
eg ad umbera ydur (med ydar efasemi og
vantrausti)? færdú mér híngad son
þinn! en þegar hann kom, varpadi 42.
þessi andi honum til jardar, og teygdi
hann undir eins; en Jesús ógnadi
þeim óhreina anda, frelsadi sveiniñ,
og afhendti hann fødur sínum. Og
allir féllu í furdu yfir Guds dýrdlega
krapti,(sem hér audsyndi sig svo kroptugañ).
En, sem þeir allir vóru frá sér numdir 43.
af furdu yfir því, sem Jesús gjørt
hafdi, sagdi hann vid sína lærisveina: 44.
leggid þessi ord vel á hjartad: Manns-
ins Sonur mun seljast í manna-hend-

 45.

45. ur! en þeir skildu þó ecki, hvad þetta
merkti, þeim var þad svo óljóst, ad
þeir øldúngis ecki gátu þad gripid,
(søkum hleypidóms þeirra um jardneska hátign Messiæ, sem ecki vard komid saman vid quala-fullann dauda), líka vøgludu þeir
46. fyrir sér ad spyrja hann um þad; um
þær mundir qviknadi sundurlyndi
þeirra á milli, áhrærandi þá spurníngu: hvørr þeirra vera mundi mest-
47. ur? en Jesús, sem þeckti þeirra hugar-far, tok smá-barn eitt, og setti þad
48. hjá sér; sagdi sídan vid þá: hvørr,
sem medtekur barn þetta vegna míns
nafns, sá medtekur mig, og hvørr,
sem mér vidtøku veitir, sá medtekur
og hann, sem útsendi mig: sá sem er
hinn audvirdilegasti ydar á milli,
(sá sem audmjúkastur og sidsamastur er)
mun mikill verda (Matth. 17, 14. 23.
Marc. 9, 14-32).

4.) Jesús vitnar hátídlega fyrir vinum og óvinum, ad hann, svo sem Messias egi ecki jardneskt ríki ad stipta, heldur ad þúngar þjáníngar liggi fyrir sér.

Lúc. Gudsp. 17 Kap. v. 20-25.

20. Þegar Pharísæarnir spurdu hann:
hvønær Guds ríki koma skyldi? (sem
hann

hann bodadi ad vera í nánd) svaradi hañ
þeim og sagdi: Guds ríki (hin náduga
hússtjórn, sem Messías átti ad stipta)
kémur ecki svo, ad þad berspýnilegt sé,
eda veki furdu, um þad mun ecki held- 21.
ur þurfa ad segja: sjá! hér er þad!
ellegar sjá! þad er þar! (eckért útvortis
glæsilegt yfirlæti á vissum stad, skal audkéña
þad) Guds ríki er þegar midt á milli
ydar (stiptad med sannleiksins lærdómi án
alls yfirlætis). Sídan sagdi hann vid 22.
lærisveinana: sá tími mun koma, á
hvørjum þér óska munud, ad fá ad sjá
einúngis einn dag Mannsins Sonar
(ad mega einn einasta dag hafa hann hjá yd-
ur á ný), en fáid hañ þó samt ecki sjed-
ann. Og vid ydur mun sagt verda: 23.
sjá! hañ er hér! eda, sjá! hañ er þar!
(falsarar munu láta af sér heyra ad Mes-
sías hafi nú hér, og nú þar opinberast, og
komi þá strax því undirokada landi til hjálpar)
en farid þér þó ecki þángad, og hlaupid
þó ecki eptir því! En þarámóti, svo 24.
sem eldíng leyptrar frá einu himin-
skauti og útdreifir ljóma sínum allt
til hins, svo mun Mannsins Sonur
koma á sínum eginn degi (so voveiflega
og skélfilega til ad straffa hinn ógudlega
lýd, þegar vondskunnar mælir er fylltur).

25. En, ádur verdur hann mikid ad líða, og útskúfast af núverandi kynslód.

# 4da Suñudag eptir Þrettánda.

## Adal-hugleiding.

Hvørki sinjadradi Jesús fyrir fólkinu né lempadi sig eptir drottnandi hleypi-dómum, en þvert á móti áminti hann med mikilli alvørugéfni, og hvatti til endurbótar.

## Fyrsti Árgángur.

### Höfud-lærdómur.

Veigrunarlaust leiddi Jesús bædi lýdnum og kénnendum hans fyrir sjónir, ad øll þeirra útvortis andakt væri øldúngis einkisverd, ef hjartad upptendradist ecki af elskuñi til Guds og laungun til hins góda.

1.) Hvørki med ølmusu-gjørdum, bænum eda fóstu, gétur madurinn Gudi þeckur ordid, því hañ álítur einúngis hjartans hreinskilni. Matth.

Matth. Gudsp. 6 Kap. v. 1-18.

Jesús áminnti í fjall-prédikun sinni:
Varist ad géfa ølmusu, ødrum ásjá- 1.
andi, til ad ødlast álit þeirra, ella meg-
id þér ecki endurgjalds vænta af Fød-
ur ydar, sem á himnum er. Þess 2.
vegna þegar þú ølmusu útbýtir, skaltú
ecki láta blása fyrir þér, (eda bida uns
betlarinn þeytir horn sitt, eins og hræsnar-
ar eru vanir ad gjøra í samkundu-húsum
og á strætum, svo ad menn hrósi þeim),
eg segi ydur satt og víst, ad þar med
hafa þeir þegar sitt endurgjald úr být-
um borid. En þegar þú géfur ølmusu, 3.
þá láttú (eins og segir í ordsháttin-
um) vinstri hønd þína ecki verda þess
vara, sem hin hægri adhefst (þá verdur
ad géfa í kyrrdum marglætis-laust) svo ad 4.
ølmusu-gjørd þín heimugleg sé, og fad-
ir þinn, sem sjer hvad í leyndum fram-
fer, géfi þér opinberlega endurgjald,
(med sýnilegri varatekt og blessun). Þeg- 5.
ar þú bidst fyrir, áttú ecki ad haga þér
eins og hræsnarar; því þeir standa
hellst og bidjast fyrir í samkundum og
á gatna-hornum, svo þeir sjáist af
mønnum, en eg segi ydur satt og víst:
ad þeir þar med hafa verdlaun sín út-
6.

6. tekid; en þegar þú ætlar ad bidjast
fyrir, farðú inn í herbergi þitt, og
loka dyrunum aptur, og bid födur
þinn, sem er (hjá þér) í leyndum, og
fadir þinn, sem sjer hvad í leyndum
framfer, mun opinberlega endur-
7. gjalda þér. Ecki skulud þér heldur,
þegar þér bidjist fyrir, opt ítreka eitt
og hid sama eins og Heidíngjar, sem
ímynda sér, ad þeir vegna margmælgi
8. sinnar bænheyrdir verdi. En þér
egid ecki ad breyta eptir þeim; því
fadir ydar veit hvørs þér medþurfid,
9. ádur enn þér bidjid hann. Þarámóti
skulud þér svo bidja: Fadir vor, þú
sem ert á himnum! (þú allrahærsti heim-
sins Skapari og Herra!) helgist þitt
nafn! (þín dýrkan, med trú og hlýdni sé
10. oss jafn dýrmæt!) til komi þitt ríki!
(géf luckn til þess sanna kristindóms á-
vaxtarsomu útbreidslu!) verdi þinn vilji,
svo á jördu, sem á himni! (lát oss þína
þjóna hér á jördu hlýda þér eins fúslega í
öllu, sem þínir þénarar á himni gjöra!)
11. géf oss í dag vort daglegt braud!
(blessa vort löglega erfidi, svo vér hafa meg-
um naudsynlegt uppheldi, medan vér dveljum
12. hér!) og fyrirgéf oss vorar skuldir,
svo

svo sem vér fyrirgéfum vorum skuldu-
nautum! (géf oss fullvissu um, ad þú tak-
ir oss til nádar, og kénn oss aptur sátt-
gjörnum ad vera!) og eigi leid þú oss í 13.
freistni! (lát ei vondar girndir eda tilteyg-
íngar yfirbuga oss!) heldur frelsa oss
frá íllu! (vernda oss frá ollu því, sem
sálu eda líkama má ad skada koma!) Því-
ad þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin
ad eilífu, (því þú einn rædur fyrir allri
farsæld vorri, og þér ber allt lof og prís)
Amen! (verdi svo!) Ef þér fyrirgéfid 14.
ødrum mønnum yfirsjónir þeirra, þá
mun ydar himneski Fadir fyrirgéfa
ydur; en ef þér fyrirgéfid ecki ødrum 15.
mønnum þeirra ávirdíngar, þá mun
ydar Fadir ecki heldur forláta ydar
afbrot. Framvegis, þegar þér fast- 16.
id, þá setjid ei upp svo myrkann og
sorglegann svip, sem hræsnarar; því
þeir afminda andliti sín, svo ad menn
sjá megi ad þeir fasti. Eg segi ydur
satt og víst: þeir hafa þar med þegar
úttekid sín laun. En þegar þú fastar, 17.
þá smyr ad eins høfud þitt og þvo
andlitid (hald þinni sidvenju í framferdi
áfram) ad ecki líti svo út, sem þú 18.
fasta vildir, fyrir manna sak-

ir

ir*) heldur fyrir Fødur þínum, sem er hjá þér í leyndum, og Fadir þinn, sem sjer hvad í leyni framfer, mun opinberlega endurgjalda þér.

2.) Hinn illi og óhlýdni, er andstyggilegur í Guds augliti, jafnvel midt í sinni útvortis andakt.

Marci Gudsp. 7 Kap. 1-23.

1. Pharísearnir og nockrir af þeim skrift-
lærdu, sem komnir vóru frá Jerúsa-
2. lem, søfnudust saman hjá Jesú. En
þegar þeir sáu ad nockrir af hans læri-
sveinum, neyttu med vanhelgum, þad
er óþvegnum høndum, létu þeir mis-
3. þóknun sína í ljósi þar yfir. Því
Pharísearnir og allir Gydíngar á-
samt, sem fastheldnir eru gamallra
setnínga, neyta einkis matar, nema
þeir

*) Trúarbrøgdin skyldudu Gydínga til opt og tídum á dag ad þvo hendur og andlit, og bædi til skarts og hreinlætis, útheimti sidvenjan, ad menn smyrdu høfudin med lyktargódri olíu, til ad deyfa óþægilega svita-lykt, sem búast mátti vid, í þeim mikla hita. En Pharísearnir forsómudu hvørttveggja þegar þeir føstudu, til ad sýna, hvørsu þeirra hjarta sárlega sorgbitid væri vegna syndanna, svo ad hvørr útvortis þægilegleiki, og jafnvel sjálf sómasemin, lægi þeim í ljettu rúmi.

þeir fyrst eptir reglum, þvoi hendur
sínar, og þess, sem þeir á torgi kaupa, 4.
neyta þeir ecki, nema þeir dýfi því
fyrst í vatn, og margt annad er áþeckt
þessu, sem þeir hafa undirgengist ad
halda fast vid, svo sem ad dýfa í vatn
staupum og krúsum og kopar-ílátum
og bord-beckjum (i hvorju ölluſaman er
leitad eptir ſkyni andaktugra ydkana).
Þá spurdu Pharísæarnir og hinir 5.
skriftlærdu hann: því breyta þínir
lærisveinar ecki eptir setníngum hinna
gomlu, heldur gánga til bords med ó-
þvegnum höndum? en hann svaradi 6.
þeim og sagdi: mjøg svo náqvæmlega
spádi Esajas um ydur, þér hræsnar-
ar! þar, sem þetta skrifad stendur:
þetta fólk heidrar mig med vørunum,
en þess hjarta er fjærlægt mér; þó 7.
dýrka þeir mig forgéfins med því ad
kenna þá lærdóma, sem einúngis eru
manna-setníngar (Es. 29, 13). Um 8.
Guds bodord hyrdid þér ecki, en erud
fastheldnir manna setnínga, ad dýfa
krúsum og bikurum í vatn og margt
þess háttar látid þér ecki hjálída. Enn 9.
framar sagdi hann þeim: fallega
setjid þér Guds bodord til sídu, svo þér

fáid

fáid ydar eginn setníngum vidhaldid.
10. Því Móses sagdi: heidra fødur þiñ
og módur þína! einninn: ad sá skuli
vissulega deyja, sem bølvar fødur eda
11. módur. Þarámóti er þad regla ydar
á milli: ef einhvørr segir vid fødur
eda módur, þad, sem eg annars skyldi
hafa hjálpad þér um, er korban: gáfa
12. offrud helgidóminum, þá lídid þér
honum ecki framar ad gjøra fødur eda
13. módur gott; og á þennann hátt gjørid
þér bodord Guds ad engu, med tilskip-
un, sem sjálfir þér tilsett hafid, og
margt þesskonar sláid þér uppá.
14. Eptir þad samankalladi hann allt
fólkid, og sagdi vid þad: heyrid mér
15. allir og skiljid mig: eckért af því, sem
utanad kémur inn í manninn, gétur
gjørt hann óhreinann (vanhelgann eda
sakfallinn) en hvad útaf honum gengur,
þad gjørir manninn óhreinann (van-
16. helgar hann). Hafi nockurr eyru til
17. ad heyra med, sá heyri. En, sem hañ
veik frá fólkinu inn í hús nockurt,
spurdu hans lærisveinar hann ad
meiníngunni í þessari máls-grein;
18. hann svaradi þeim: erud þér þá svo
skilníngs-lausir? skiljid þér ecki, ad
eck-

eckért, sem utan ad kémur inn í mann-
inn, gétur saurgad hann. Því þad 19.
gengur ecki inn í hjartad, heldur mag-
ann, og fer þadan út gegnum edlilega
rás, sem hreinsar burt alla fædu.
Framvegis sagdi hann: hvad, sem 20.
út frá manninum kémur, saurgar
hann, því innanad frá sálu mannsins, 21.
útkoma vondir þánkar, hórdómur, 22.
frillulífi, mord, þjófnadur, ágirnd,
mann-vondska, svik, svívirdíng, öf-
und, bakmælgi, hofmódur, ósidsemi.
Allt þetta illa útkémur innanad og 23.
saurgar manninn. (Matth. 15, 1-20).

## Annar Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Jesús vylar ecki fyrir sér, bædi ad kénna og breyta þvertámóti drottnandi hleypidómum, um vissra helgi-sida naudsynlegustu gaumgæfni.

1.) Til ad sýna, ad dygd og gudhrædsla séu ecki innifalin í því, ad halda nákvæmlega helgar sidvenjur, undanfelldi sjálfur Jesús þær, þegar hann féck hentugleika til ad draga þaraf kroptuga vidvörun móti hræsni Phariseanna.

Lúc. Gudsp. 11 Kap. v. 37-54.

37. Pharísæari nockurr bad Jesúm, rétt
á medan hann vár ad tala (vid fólkid)
ad hann vildi eta med honum mid-
dagsverd; hann géck því inn ásamt
38. ødrum og settist vid bordid. En
Pharísæarinn undradist, þegar hann
sá, ad hann ei ádur þvodi sér fyrir
39. máltídina. Þá sagdi Drottinn vid
hañ: þér Pharísæarar hreinsid bikara
og føt ad utanverdu, en iñanverdt eru
þau full af ráni ydar og vondsku:
(þeir gjørdu sér enga samvitsku af ad svæla
undir sig annara góts, og ala þarmed vel-
40. lyst sína). Þér dárar! sá, sem heldur
því hreinu, sem útvortis er, hefir ei
þar med gjørt hid sama í tilliti til þess
innvortis, (med því ad láta bikara og
føt hrein vera, minkar þó ecki vidurstygd
41. ránglætisins). Nei! géfid svo mikla
ølmusu, sem géfid verdur! og sjáid!
þá er ydur allt hreint, (hvort, sem þér
géfid gætur ad reglulegri útvortis hreinsun,
edur ei, erud þér Gudi samt eins kjærir,
42. svo sem mañ-vinir). Vei ydur, þér
Pharísæarar! ad þér gjaldid tíundir
af myntu og rútu, og allskonar mat-
jurtum, (af fleiri tægi enn lögmálid býd-

ur,

ur, til ad sýnast því heilagri), en gáng-
id þarámót framhjá réttvísi og kjær-
leika til Guds; þetta bæri ad ad-
gæta, en láta hitt þó ecki hjálída. Vei 43.
ydur, þér Pharísæarar! ad þér svo
gjarnan keppist eptir efstu sætum í
samkundu-húsum, og ad menn heilsi
ydur á opinberum plátsum. Vei yd- 44.
ur, þér skriftlærdir og Pharísæarar,
þér hræsnarar! ad þér erud eins og ó-
þeckjanleg leidi (undir jördu, edur medal
kletta); menn gánga yfir þau, og vita
þad ecki (þér vitid ad dylja íllsku og flærd
ydar med útvortis andakt). En einn 45.
af løgspekíngunum svaradi honum
og sagdi: Meistari! þú smánar oss
og, med því ad tala þanninn. Hann 46.
svaradi: vei ydur og, þér løgvitru! ad
þér þjáid fólk med byrdum (straungum
tilskipunum), sem naumast verda born-
ar, en sjálfir snertid þér byrdirnar ecki
med einum ydar fíngri. Vei ydur! ad 47.
þér byggid upp spámanna leidin, hvør-
ja fedur ydar vógu. Því berid þér 48.
sannarlega vitni um gjørdir ydar fedra,
og erud þeim hjartanlega samþvæmir
(ánægdir med, ad hinir framlidnu spámenn
Væta ecki framar straffad ydar ódygdir);
T 2 hinir

hinir vógu þá, en þér byggid upp
49. leidi þeirra. Því géfur speki Guds
til kynna (fyrir minn munn): eg vil senda
spámenn og Postula til þeirra, en
nockra af þeim munu þeir lífláta og
50. ofsœkja hina; svo ad blóds allra spá-
manna, sem frá veraldarinnar upp-
hafi hefir verid úthellt, verdi krafist
51. af núverandi kynslód, og þad jafnvel
allt frá Abels blódi, til blóds Za-
charíæ, sem milli altarisins og must-
erisins var líflátinn, (2 Kron. 24, 19.22).
Sannlega segi eg ydur fyrir víst; þess
verdur krafid af þessari kynslód,
(sem ad lyktum fyllir mælir vondskunnar
med herfilegri hardhýdgi, sem tekur yfir allt
þad ofriki, sem í Ritníngunni frá upp-
52. hafi til enda er minnst á). Vei ydur,
þér logvitru! ad þér hafid vísdómsins
lykil til ydar tekid (svælt undir ydur ritn-
íngarinnar útleggíngu, svo sem rétt, er ein-
unn ydur tilheyri). Sjálfir gángid þér
ecki inn (í musteri sannleikans) og haml-
id þeim frá inngaunguinni, sem hana
girnast (þér hyrdid ecki um, ad leida í
ljós Ritníngarinnar sonnu meiníngu, og
hindrid adra frá því med ydar raungu út-
53. leggíngum). Þegar hann taladi svo
vid

vid þá, tóku hinir skriftlærdu og Pharísæarnir magnlega ad honum ad setjast, til ad locka svar uppá margskonar efni af munni hans.
Þeir sátu um hann, og leitudust ein- 54.
úngis vid ad festa sig á einhvorju hans ordi, sem þeir gætu ákjært hañ fyrir.

2.) Opinberlega tók Jesús sér fyrir hendur á Sabbaths-degi, það, sem haldid var stríd-andi móti Sabbaths-helginni, til ad sýna med verkinu, ad hin sanna guds-dýrkan framqvæm-ist ecki med útvortis sidavendni, heldur med gódum og nytsomum athofnum.

Lúc. Gudsp. 13 Kap. v. 10-17.

Jesús kénndi í einni samkundunni 10.
á Sabbaths-degi og sjá! þar var 11.
kona, sem í átján ár haft hafdi veik-
leika anda, (verid heilsu-veik og þúngsinna)
og var ordin svo lotin ad hún gat ecki
litid rétt upp. En þegar Jesús leit 12.
hana, kalladi hann á hana, og sagdi:
kona! verdt þú heilbrygd af veikind-
um þínum! þá lagdi hann hendur 13.
yfir hana, og jafnskjótt rétti hún sig
upp og lofadi Gud. En samkundu- 14.
húss Forínginn, sem styggdist af því
ad Jesús læknadi á Sabbaths-degi,
svaradi og sagdi vid fólkid: sex dag-

ar eru, á hvorjum vinna á, á þeim
megið þér koma og láta lækna ydur,
15. en ecki á Sabbaths-degi. Þá svaradi
Drottinn honum og sagdi: þú hræsn-
ari! leysir ecki sérhvorr uxa sinn og
asna á Sabbaths degi frá stalli og
16. rekur til vatns? en átti þá kona þessi,
sem er Abrahams dóttir, hvørri
Satan hefir í böndum haldid um át-
ján ár, ecki ad leysast af þessu bandi á
17. Sabbaths-degi? og þegar hann sagdi
þetta, sneyptust allir hans mótstødu-
menn; en allt fólkid gladdist vid øll
þau merkilegu verk, sem hañ gjørdi.

3.) Jesús sannar med grundudum ástædum, sem med engu reknar urdu, ad hann tæki sig ecki af þverúd yfir alþýdu hleypidóma, heldur af elsku til sannleikans og dygdarinnar.

Lúc. Gudsp. 14 Kap. v. 1-6.

1. Eptir þad bar svo undir ad Jesús
kom inn í hús einhvørs hins ypparsta
Pharísæara á Sabbaths-degi til ad
neyta; og þar sátu menn um hann;
2. því sjá! þar stód madur fram̃i fyrir
honum, sem vatnssjúkur var (efalaust
þángad kalladur af húss-rádandanum, til
3. þess ad freista Jesú). Þá tók Jesús
til orda og spurdi løgvitríngana og

Pha-

Pharíscearana, og sagdi: er leyfilegt
ad lækna á Sabbaths-degi? þeir
þogdu øldúngis. Þá tók Jesús hañ 4.
fyrir sig, og læknadi hann, og lét hañ
burt fara. Sídan sagdi hann enn 5.
framar vid þá: hvørr er sá af ydur,
sem ecki dragi jafnskjótt upp uxa sinn
eda asna, sem dettur ofan í brunn á
Sabbaths-degi? og þeim tókst ecki ad 6.
ansa honum nockru til þess.

4.) Sem Messias, hefir Jesús vald til ad taka af kirkju-løg Gydinga, og hann sannar, ad þau séu ecki heldur grundud á neinni verulegri naudsyn.

Matth. Gudsp. 12 Kap. v. 1-8.

Um sømu mundir géck Jesús á Sab- 1.
baths-degi yfir um korn-akur; og þeg-
ar hans lærisveinar urdu húngradir,
tóku þeir ad plocka ax og eta (sem leyfi-
legt var eptir løgmálinu, 5 Mós. b. 23, 25).
En þegar nockrir Pharísearar sáu 2.
þetta, søgdu þeir vid hann: þínir læri-
sveinar hafast þad ad, sem óleyfilegt
er á Sabbaths-degi, (því ad plocka ox-
in og núa úr þeim kornid, átti ad vera
erfidi). Þá spurdi hann þá: hafid þér 3.
ecki lesid, hvad David gjordi, þegar
hann vard húngradur og þeir, sem

4. med honum vóru? hvørsu hann géck inn í Guds hús, og neytti skodunarbraudanna (1 Sam. b. 21, 1-6), sem hvørki siálfum honum eda hans førunautum var leyfilegt ad eta? (2 Mós. b.
5. 29, 32. 33). Eda hafid þér ecki lesid í løgmálinu, ad Prestarnir á hvørjum Sabbaths-degi brjóta Sabbathid í musterinu (hvar fórnfæringarnar, med tilheyrandi undirbúníngi, útheimti mikid erfidi). og eru þó saklausir? (4 Mós. b. 28, 9.)
6. En eg segi ydur fyrir víst, ad sá stendur hér, sem meiri er enn musterid, (Messias, Herra musterisins, Mal. 3, 1).
7. Ef þér þó vissud ad eins hvad þetta þýdir: eg kýs miskunsemi, en ecki offur (hefi ecki þocknun á útvortis dýrkun, útaf fyrir sig, heldur á gódgjordum og medaumkun, Hos. 6, 6.), þá hefdud þér ecki áfellt þá saklausu (lærisveinana).
8. So er Mannsins Sonur Herra yfir Sabbathinu.

## Þridji Argángur.

### Hofud-lærdómur.

I fús varadi skøruglega vid allskonar ódygdum, sem leyfilegar haldnar vóru,

og hlífdist ecki vid ad bera fólkinu á brýn þess laus-finni.

1.) Jesús lætur í ljósi sína fullkomnustu andstygd á brádri reidi og grimd, eins og á lauslæti, undirferli, hefndar-girni og ödrum þess háttar ódygdum, sem menn vóru annars ecki vanir ad setja á sig, og straffadi þær alvarlega.

Matth. Gudsp. 5 Kap. v. 21-48.

Í sinni fjall-prédikun ánýjadi Jesús
þetta: Þér hafid heyrt ad hinir gömlu 21.
sagt hafa:(hinir eldstu kénnendur, hvörra
munnlega útlegging lögmálsins útdreifdist
um fleiri tíma-bil munna á milli, og vóru
í meira gyldi, enn lögmálid sjálft) Þú skalt
ecki slá í hel; en hvörr, sem slær í hel,
skal fyrir rétti dóm lída (hvaraf þá enn
framar var dregid, ad eckért nema manndráp,
hvörki reidi né heipt gjördi manninn
sakfallinn). En eg segi ydur fyrir 22.
víst, ad hvörr sá, sem orsakalaust reidist
bródur sínum, vinnur eins til ad
verda dreginn fyrir réttinn, sem sekur,
(er ecki sídur sakfallinn í Guds augum,
enn mordínginn) og hvörr, sem segir vid
bródur sinn: Raka (þú hrakmenni, og þess
vegna smánar og vanvirdir hann,) ætti
jafnvel ad kallast fyrir mikla rádid,
sem hegníngar-sekur (verdur eins straffs-

verdur fyrir Gudi, sem hinn mesti stórbrota-madur, yfir hvorjum hid mikla rád í Jerúsalem sagdi dóm;) og hvorr, sem vid hann segir þú glópur! (þú Guds forsmánari! og vedur svo uppá hann med skelfilegustu brixlum, sem koma farsæld hans og lífi í hættu,) vinnur til ad dæmast í Gehenna eld (í hinum ógnarlega Hinnons-dal, í hvorjum Cananítar fordum létu uppbrenna børn sin lifandi, afgudinum Mólóch til dýrdar, af hvorju eptirlíkingin sídan er dregin um hid qvalafyllsta straff).
23. Þar fyrir, þegar þú offrar vilt gáfu þinni á altarid, og þú minnist þess, ad bródir þinn hafi eitthvört
24. ákjæru-efni vid þig, þá skildú þar eptir gáfu þína hjá altarinu (án þess ad offra henni strax), og far burt ad sættast ádur vid bródur þinn, kom svo aptur og offra gáfu þinni (því meira ríður á því ad hindra úlfbúd og semja eindrægni, enn ad taka vara á útvortis guds-dýrkun).
25. Forlíka sem fyrst sok þína vid þinn mótstødu-mann, medan þú ert samferda honum (til þíngsins) svo þinn mótpartur selji þig ecki í hendur dómarans, né dómarinn selji þig myrkvastofu-verdinum, svo þú verdur í fángelsi settur (betra er ad kné-krjúpa, enn

hver-

Þverúdarsamlega kisi ad hreysa, hvørs af-
drif eydileggíngin er). Eg segi þér satt 26.
og víst: þadan losnar þú ecki fyrr enn
þú goldid hefir hinn sídasta skérf. Þér 27.
hafid heyrt ad þeir gømlu sagt hafi:
Þú skalt ecki hórdóm drýgja. En eg 28.
segi ydur fyrir víst, ad hvørr, sem
virdir nockra qvinnu fyrir sér, med ó-
hreinlífri laungun, hefir þegar í hjart-
anu hórast med henni, (og Gud, sem
þeckir þá heimuglegustu þánka álítur hann
þá óhreinann og straffs-verdann.) Verdi 29.
þá þitt hægra auga þér ad hneixli
(svo þú freistist af vondri girnd til ad
misbrúka þad), þá slít þad út og snara
því frá þér (yfirbuga þá hina vondu girnd
med valdi, og hrind henni, þó þad valdi þér
eins sárrar tilfinníngar og þó þú mistir
augad). Því gagn-meira er þér ad
missa einn lima þinna, (og fara þeirrar
ánægju á mis, sem þú annars hefdir gétad
hlotid), enn ad allur líkami þinn í
Gehenna varpist. Og ef þín hægri 30.
hønd hneixlar þig (svo vond girnd freisti
þín til ad misbrúka hana), þá sníd
hana af og kasta henni burt, (þvínga
þá hina illu girnd med valdi, og rek hana
til baka, þó þer væri þad eins sárt og þó
þú mistir hønd þína), því betra er þér

ad

ad missa einn af limum þínum, enn
ad øllum líkama þínum varpad
31. verdi í Gehenna. Einnin er sagt:
ad hvørr, sem skiljast vill vid húss-
freyju sína skuli géfa henni skilnadar-
skrá, (án þess fleiri umsvif vid þad þurfi,
þared hjónabandid má eptir gédþeckni leys-
32. ast, þegar mønnum sýnist), en eg segi
ydur fyrir víst, ad hvørr, sem skilur
sig vid konu sína, nema fyrir hór-
dóm, sá veldur því ad hún hórist, og
hvørr, sem ecktar nockra qvinnu, sem
látid hefir skilja sig frá manni sínum,
33. (Marc. 10, 12) drýgir hór. Framar
hafid þér heyrt, ad hinir gømlu sagt
hafi: þú mátt ecki meinsæri fremja, en
Drottni skalt þú halda þína eida,
(í hvørjum Drottins nafn útþryckilega nefnt
var, en hvørt annar eidur má ad synd-
34. lausu rjúfast). Þarámót segi eg ydur,
ad þér megid øldúngis ecki sverja
(sem þér vanir erud í daglegum lifnadi),
hvørki vid himininn, því hann er
veldis-stóll Guds, (hvar menn íminda
sér ad hann Drottni med vegsamlegustu
guddóms dýrd, og þess vegna er þad sama í
raun og veru ad sverja vid sjálfann Gud,
35. og ad sverja vid himininn;) ecki heldur
vid

vid jordina því hún er fóta-skør hans (hans ædstu stjórnun undirgéfin, og menn iminda sér þá Gud vidverandi, svo sem jardarinnar Herra, þegar svarid er vid jordina;) ecki heldur vid Jerúsalem, því hún er borg hin mikla Konúngs (hvar Konúngur allra Kónga, Jehóva, var settur fyrir sjónir, svo sem byggjandi í musterinu, sínu jardneska adsetri, medal síns útvalda fólks, og þess vegna imindudu menn sér hann nálægann, sem þess útvalda fólks sjálf-stjórnara, þegar svarid var vid hofud-borg fólksins. Ecki skaltú held- 36.
ur sverja vid høfud þitt, því þú megnar ecki ad gjøra eitt einasta hár hvítt eda svart (svo lítil umrád hefir þú yfir høfdi þínu, ad þad jafnvel er ecki komid undir vilja þínum hvorn náttúrlegann háralit þá hafa skulir, og þess vegna leidist þánkinn til Skaparans, þíns sanna Herra, þegar þú sver vid høfud þitt). En ydar 37.
ar ræda (þegar þér viljid sanna eitthvad eda um neckud bera), sé innifalin í ad segja útþryckilega Já! ellegar þvert Nei! því þad sem framar er vidbætt, er af því vonda, (er syndugt og lastverdt; menn draga hin audtrúa á tálar, sem tekur þennann svardaga vid himin eda jord og þesskonar, fyrir gyld-

ann eid, og misbrúka trúar-brøgdin til ad
38. skyla heimuglegri vondsku) Þér hafid heyrt ad svo qvedur ad: auga fyrir auga, og tønn fyrir tønn! (regla, sem Yfirvøldunum var gefin til ad dæma þann eptir, sem limlesti náúnga sinn, 2 Mós. b. 21, 24. En Rabbínar drógu þar af þá raungu meiníngu, ad sá, sem óréttinn leid, mætti hefna sín sjálfur, ef hefndin ad eins
39. ecki var meiri enn sætti tilgjørdinni). Þaramóti segi eg ydur, ad þér skulud ecki med ofbeldi og yfirgángi taka til verju mót íllmenni, en ljósti nockurr þig á hægrikinn þína, þá snú hinni ad honum (heldur enn ad þú hefnir þín sjálfur eins);
40. og vilji nockurr kjæru-mál móti þér hefja, til ad komast yfir nær-kyrtil þinn (til endurgjalds fyrir þad þú ert honum um skyldugur), þá lát honum og eptir ytra kyrtilinn (heldur enn ad ega í høggi vid hann).
41. Og vilji nockurr neyda þig ad fara eina mílu áleidis í skyldu-ferd, þá far jafnvel tvær med honum (heldur enn á-
42. greiníngur verdi!) gef þeim, sem bidur þig (án þess ad grenslast eptir hvort hann verdskuldar þad;) og vert ei fráſnúinn þeim, sem bidur þig ad lána sér, (ef hann er
43. naudstaddur). Þér hafid heyrt ad sagt er:

er: elska skaltú náúnga þinn, en hata þinn óvin (í lögmálinu er svo bodid: Þú skalt elska náúnga þinn, 3 Mós b. 19, 18. en Rabbínar, sem einúngis sögdu nafnid náúngi, ega heima hjá vinum, drógu framar þar af, ad óvini ætti ecki ad elska, og ad þeß vegna mætti hata þá). En eg segi ydur: elskid óvini ydar, óskid þeim gódś, sem bidja ydur óbæna, látid ydur vel farast vid þá, sem hata ydur, og bidjid fyrir þeim, sem áreita ydur og ofsækja. 44.
Svo ad þér verda megid börn ydar himneska Fodurs (sama sinnis og hann, og þeß vegna ædfeldir honum, eins og vel-ortud børn) því hann lætur sólu sína reña upp yfir vondum og gódum, og hann lætur rigna yfir réttláta og rángláta (hann útbýtir med forsjón sinni velgjordum medal allra, og lætur hina vondu ecki fara á mis vid sína hjálparríku umonnun í þeirra neyd). 45.
Ef þér elskid engañ nema þá, sem ydur elska, hvør verdlaun hafid þér þá (í vændum hjá Gudi? því vinir ydar endurgjalda ydur aptur med kjærleika sinum) gjøra ecki tollheimtu-meñ hid sama, (sem þér álítid þó ad vera hina verstu menn)? 46.
Og ef þér einúngis heilsid brædrum ydar (veitid þeim, sem somu trúar eru og þér, vin- 47.

semd og góðvild) hvad mikid er þá í ydar gjørdir varid? munu tollheimtu-
48. menn ecki gjøra hid sama? en þarámóti skulud þér fullkomnir vera, (í elskuriku og gódgjorda-somu sinnislagi vid sérhvørn mann) eins og ydar Fadir á himni er fullkominn. (Lúc. 6,27-35).

2.) Jesús hlífdist ecki vid ad átelja fólkid hardlega, til hvørs þad fullkomlega vann, fyrir þess óumbætanlega lausinni.

Matth. Gudsp. 11 Kap. v. 16-30.

16. En vid hvad, (sagdi Jesús) á eg ad samlíkja þessari kynslód? hér fer eins og hjá børnum, sem sitja á torgum og kalla til stallbrædra sinna, og segja:
17. lystilegar vísur spiludum vér fyrir ydur, en dansa vildud þér þó ecki; sorgar-qvædi súngum vér ydur, en gráta vildud þér þó ecki (hvad, sem tekid er fyrir sig, gédjast eckert af því, alltíd finna menn
18. sér eitthvad til ad lasta.). Jóhannes kom, át hvørki né drack (héldt sig ecki eins og plagsidur manna er, Matth. 3, 4) og menn søgdu: hann hefir møk vid
19. djøfulinn. Mannsins Sonur er kominn, hann etur og dreckur, (er í engu frábrugdinn ødrum í háttalagi sínu, og nú segja menn: sjá! hvílíkur átvagl og

og svallari er þessi madur! tollheimt-
ara og syndara (hrakmenna) vinur!
Þó nýtur vísdómurinn síns réttar hjá
börnum hans (þeim sem elska hann og
bera þess vegna skyn á ad meta hann).
Sídan tók hann ad átelja þær borgir, 20.
í hvörjum flest hans krapta-verk fram-
in vóru, fyrir þad menn vildu samt
ecki betra sig. Vei yfir þig, Chó- 21.
rasin! vei yfir þig, Betsaida! því
hefdu þau furdu-verk, sem hjá ydur
vidborid hafa, gjörd verid í **Tyrus**
og **Sídon**, þá hefdu þær fyrir laungu
ydrun gjört í seck og ösku (sitjandi á jördu
í grófum nidur-lafanda kyrtli, med ösku
eda ryk yfir höfdinu til merkis um þúnga
sorg eptir Austur-lendskra sidvenju). En 22.
ég segi ydur fyrir víst: **Tyrus** og
**Sídon** mun bærilegar afreida á
dóms-degi enn ydur. Og þú, **Ka-** 23.
**pernaum!** þú, sem hafin varst til
himna (til ædstu farsældar og vegsemdar,
sokum návístar Messíæ, sem einkum út-
breiddi þar sinn lærdóm og gjördi sín
miklu dásemdar-verk). Þú skalt steypast
nidur í afgrunnid (sockva nidur í þess
meira volædi); því ef þau furdu-verk,
sem hjá þér vidbáru, hefdu í Só-

dóma gjörd verid, stædi hún eñ til þessa
dags (því heñar íñbyggjarar hefdu þá betr
24. ad sig). En, eg segi ydur fyrir víst:
Sódóma-lands afdrif munu bæri-
25. legri verda á dóms degi eñ þín. Um
sömu mundir qvad Jesús þaññ upp-
úr: Fadir! þú Drottiñ himins og jard-
ar! þig vegsama eg, ad þú létst þessa
lærdóma hulda vera vitríngum og
spökum (sem stæra sig af þeirra íminduðu
vitsmunum,) en opinberadir þá einföld-
um (sem ecki hroka sér upp af ímindadri hárri
26. þeckíngu). Já, Fadir! svo þócknadist þér
27. þvíad haga. Allt er mér af födur
mínum á vald géfid; en enginn þeckir
Soniñ (hvorr hann er, eda hvad hann á ad
framqvæma) nema Fadiriñ, engiñ þeck-
ir heldur Föduriñ (hans álýktudu ráð-
stafanir og vilja) nema Sonuriñ, og þeir,
sem Sonurinn vill þad opinbera.
28. Komid til mín allir þér, sem undir yd-
ar byrdi mæddir og örmagna erud
(þeim hördu og huggunarlausu trúarbragda
setníngum), eg skal veita ydur endurnær-
29. íngu. Takid á ydur mitt ok, og leitid
uppfrædíngar hjá mér, því eg er hóg-
vær og af hjarta lítilátur (ólíkur skrift-
lærdum, sem voktu hugar-víl, med þeirra
hördu

hordu lífs-reglum, og fráfældu menn med stolti sínu), þá munud þér finna endurnæríngu fyrir sálir ydar. Þvíad mitt 30.
ok (minn lærdómur, jafnvel þó hann álitinn sé, eins og trúarbregd Mósis, ad vera ok) er þó hægt og mín byrdi létt.

## 5ta Sunnudag eptir Prettánda.

### Adal-hugleiding.

Svo ad Jesú furduverka-kraptur yrdi ecki, eptir þá drottnandi hleypidómi, dreginn af heimuglegum samtökum vid illa anda, leyfdi Gud, ad nockrar manneskjur um þar mundir kjæmust undir vald þess háttar anda; svo Jesús, med því ad reka þá út, gæti opinberlega leidt í ljós ad hann ecki væri þá vidridinn, heldur væri þeirra motstandari og sigrari.

# Fyrsti Argángur.

## Høfud-lærdómur.

Þeir andar, sem vondir eda óhreinir kallast, hljóta ad óttast Jesú veldi, og géta ecki veitt honum mótstødu.

1.) Þessir andar þeckja sjálfir vanmátt sinn, þegar Jesús er nálægur, og ecki einúngis hljóta þeir ad audmýkja sig fyrir sjálfum honum, heldur og búast vid ad horfa, þá stundir framlidu, fyrir hans lærisveinum.

Marc. Gudsp. 3 Kap. v. 7 19.

7. Þá fór Jesús med sínum lærisveinum ofan til sjáfar (sem nefndur var hiñ Galilæiski) og mikill mannfjøldi fylgdi
8. honum úr Galíléa og Júdéa, úr Jerúsalem og Idumæa, og úr landsplátsinu hinumeginn Jórdanar ad. Þeir, sem bjuggu umhverfis Tyrus og Sídon, og heyrdu gétid um hans dásemdar-verk, komu einninn fjøldi
9. saman til hans. Þá baud hañ sínum lærisveinum ad hafa skip til reidu handa sér, svo ad ecki yrdi ofmjøg ad honum þreyngt þá folkid flycktist ad.
10. Því vegna þess hañ gaf mørgum aptur heilsu sína, sóktust allir eptir, sem eitt-

eitthvørt mein høfdu, ad troda sér
fram til hans, svo ad þeir gætu snort-
id hann. Og þegar þeir, sem haldn- 11.
ir vóru af óhreinum øndum, sáu hañ,
féllu þeir fram fyrir honum, kølludu
og søgdu: þú ert sá Sonur Guds! en 12.
hann fyrirbaud þeim strengilega, ad
gjøra sig kunnann (vegna þess hann vildi
ecki opinberlega láta úthrópa sig, sem Mes-
sias, til ad koma ecki upphlaupi og óróa
af stad.) Þá géck hann uppá fjall nock- 13.
urt og kalladi á þá, sem honum leitst,
og þeir komu til hans. Sídan setti 14.
hann tólf af þeim, til ad stadnæmast
hjá sér og svo hann gæti sendt þá til ad
prédika, og áttu þeir einninn vald ad 15.
hafa til ad lækna sjúkdóma, og útreka
andana (óhreina anda). Símoni gaf 16.
hañ Pétursnafn (í tilliti til hans trúfesti),
og kalladi auk hans bædi Jakob Ze- 17.
bedæison og Jóhannes bródur Ja-
kobs, hvørjum hann gaf nafnid Bo-
anerges, sem merkir: skruggu-synir
(í tilliti til þeirra ákafa). Einniñ An- 18.
drés og Philippus og Barthóló-
mæus (sem einniñ var Nathanael nefndur)
og Matthæus og Thómás og Ja-
kob Alphæison og Thaddæus

(sem og nefndist Lebbæus) og Símon
Kananítes (edur hinn vandláti, sem fyrri
verid hafdi einn af þeim svo kølludu Ze-
lótum, sem strax í stad strøffudu hvort eitt
afbrot móti løgmálinu, svosem Pinehas
19. fordum) og ad lyktum Júdas Ischa-
ríóth (frá þorpinu Karioth í Júdæ ætt-
qvísl), sem eptirá gjørdist hans svikari.

2.) Eitt Jesú ord var nógu kroptugt til ad
yfirbuga og útreka hina grimmustu anda.

Marc. Gudsp. 9 Kap. v. 13-31.

13. En þegar Jesús kom aptur til lærí-
sveinanna (frá fjallinu á hvørju hann
forklárađist,) sá hann ad margt fólk
umkríngdi þá, og ad hinir skriftlærdu
14. høfdu géfid sig í þrætni vid þá. En
allt fólkid féll hastarlega í furdu, þeg-
ar þeir sáu hann, og hlupu til hans
15. til ad heilsa honum. Þá spurdi hann
hina skriftlærdu: um hvad erud þér
16. ad þrætast á vid þessa? þá gégndi einn
medal fólksins og sagdi: Meistari!
son minn, sem hefir mállleysis-anda
(plágast af anda, sem sviptir hann mæli)
17. kom eg med á þinn fund: þegar hann
tekur til hans, kollvarpar hann hon-
um, svo hann frodufellir, og gnístir
tønnum, og ad lokum fellur hann í
ómeg-

ómegin̄ *). En eg bad þína lærisveina
ad útreka hann, en þeir gátu ecki. Þá 18.
svaradi Jesús og sagdi: o! þú van-
trúada kynslód! (lærisveinarnir hofdu þá
ecki enn lagt fullkominn trúnad á loford
Jesú um guddómlega adstod, og odludust
þess vegna ecki bænheyrslu, í þeirra til-
raun, ad frelsa þessa vesælu mañneskju).

*) Utmálan þessi sýnir ljóslega ad madurinn hafdi stránga nidurfalls-sótt, sem opt átti heima hjá hinum ódu; en Júdar hjeldu, ad þesshátttar sjúklíngar komnir væru undir vald og píntíngar óhreinna anda. Þó hafa náttúrlegar orsakir almennast valdid ástandi þeirra; en vegna þess sjálfur Jesús taladi hvörki ne breytti ödruvísi vid þessa ódu, enn svo sem væri hann sjálfur fulltrúa um, ad óhreinn andi orsakadi plágu þeirra, er vissulega rjettast ad halda, ad Gud hafi einninn, rjett um þær mundir, leyst ad hinn vondi andi mætti brúka alla sína krapta, ad svo miklu leiti, sem hann orkadi, svo ad Jesús gæti, med því ad yfirbuga og útreka hann, áþreifanlega sannfært fólkid um þad, ad hann hvörki hefdi samband vid vonda anda, hvörju óvinir hans vildu útdreifa um hann, ne framqvæmdi verk sín med þeirra hjálp, heldur þvert á móti væri þeirra mótstandari, lángtum máttugri enn þeir allir til-samans, og var þess erindis kominn ad gjörenda valdi og vegsemd þeirra, sem þeir höfdu yfirkomust í hjátrúarfullum heimi.

Hvørsu lengi á eg þó hjá ydur ad vera,
(þángad til trú ydar styrkist)? hvørsu
lengi á eg ad umbera ydur (med ydar
efablendni og vantrausti)? Færid mér hañ
19. híngad! þá høfdu þeir hann til hans;
en í því hann leit hann augum,
hreif andinn hann strax, og hañ datt
um koll á jørd nidur, veltist um og
20. frodu-felldi. Þá spurdi hann fødur
hans: hvørsu lengi hann hefdi átt í
þessu? hañ svaradi: allt frá barndómi.
21. Og opt hefir hann fleygt honum á eld
og vatn, til ad svipta hann lífi. En
megnir þú nockud, þá hjálpa þú ockur,
22. og miskuna þig yfir ockur. Þá sagdi
Jesús vid hann: hvad þessu vidvík-
ur: ef þú megnar nockud! þá trú þú
ad eins! fyrir þá, sem trúa er mér
23. allt møgulegt ad gjøra. Jafnskjótt
kalladi fadir barnsins upp, og sagdi
med grátandi tárum: eg trúi, Herra!
24. kom þú vantrú minni til hjálpar! en
þegar Jesús sá ad fólkid flycktist ad,
ógnadi hann hinum óhreina anda, og
skipadi honum: þú mál- og heyrnar-
lausi andi! (hann hafdi svipt sveininn
heyrn og mæli) eg býd þér: fardú útaf
honum, og kom aldrei sídan til hans
apt-

aptur! þá ýlfradi hann, hreif hann 25.
mjøg og fór út, og nú vard hann
sem lidinn, og margir søgdu: hann
er daudur! en Jesús tók um hønd hon- 26.
um og reisti hann á fætur; og þá stód
hann upp. En þegar Jesús var heim- 27.
kominn, spurdu hans lærisveinar hañ
ad í einrúmi: vegna hvørs gátum vér
ecki rekid hann út? hann svaradi þeim: 28.
þesskonar verdur ecki útrekid, med
neinu ødru enn bæn og føstu (þegar vid
djøful-ædi er ad tebla, svo manneskjan þjá-
ist ecki einúngis, af náttúrlegri veiki, heldur
vegna þess, ad Gud leyst hefir vondum
anda ad yfirbuga hana, verdur henni á
engann hátt hjálpad, nema med innileg-
asta trúnadar-trausti á Guds almættis krapti,
fyrir bæn og andakt). Sídan gengu 29.
þeir burt þadan, og héldu leid sinni
gégnum Galílæam; en hann vildi
ecki neinn yrdi þess var (til þess ecki á
honum bæri, né ad fólkid flycktist saman).
Og þá fræddi hann lærisveina sína og 30.
sagdi þeim berlega: Mannsins Son-
ur mun seljast í mañahendur, og þeir
munu ráda hann af døgum, en þegar
hann er af lífi tekinn, mun hann aptur
upprísa á þridja degi. Þó skildu þeir 31.

ecki hvad þetta ætti ad merkja, og vógl-
udu fyrir sér ad spyrja hann um þad
(því þeir vildu ógjarna skilja ordin ept-
ir bókstafnum, og qvidu þó fyrir ad Jes-
ús vildi þau ecki odruvísi útleggja. Matth.
17, 14-23. Lúc. 9, 37-45).

3.) Hinum óhreinu ondum var ecki dul-
id hvörr Jesús var, því flýdu þeir med skélf-
ingu eptir hans minnstu bendingu.

Lúc. Gudsp. 4. Kap. v. 31-44.

31. Eptir þad kom Jesús ofan til borgar-
innar Kapernaum í Galílæa, og
kénndi monnum opinberlega á Sab-
32. baths-deginum; en þeir undrudust
mjøg hans lærdóm, því snild og krapt-
33. ur var í hans rædu-formi. Þar var
þá madur nockurr í samkunduñi, sem
hafdi óhreinann anda, og hann kall-
34. adi hárri roddu og mælti: lát þú mig
vera í fridi, Jesús úr Nazareth!
hvad komum vid þér vid? ert þú kom-
inn til ad varpa oss í fordjørfun? ég
þecki þig, hvørr þú ert, þú, hinn
35. heilagi Guds! en Jesús ógnadi hon-
um og sagdi: þeigi þú, og fardú út af
honum, þá fleygdi andinn honum
midt inn í mann-þraungina, og fór
út af honum, án þess ad skada hann
í nockru

nockru. En skélfíng kom yfir þá 36.
alla, og hverr sagdi vid annann: hví- 37.
líkt ord er þetta? því med krapti og
myndugleika skipar hann óhreinum
öndum, og þeir víkja burt. En ryktid
af honum flaug hvervetna um lands-
plássid umhverfis. En þegar hann 38.
stód upp, til ad gánga frá samkundunni,
fer hann inn í Símonar hús, en mód-
ir Símonar var haldin þúngri og á-
kafri köldu. Þá var hann bedinn fyr-
ir hana; og hann géck til hennar, hast- 39.
adi á köldunna, og hún hvarf frá henni.
En hún spratt jafnskjótt upp, og bar
á bord fyrir þá; þegar þá sól sett var, 40.
komu allir þeir, sem sjúklínga höfdu,
allskonar sjúkdómum þjáda, og fluttu
þá til hans; yfir sérhvörn þeirra lagdi
hann hendur, og læknadi þá. En 41.
andar fóru og út af mörgum þeirra,
sem kölludu og sögdu: þú ert Mess-
ías Sonur Guds! þó hastadi hann á
þá, og leid þeim ekki ad tala, einúngis
vegna þess þeir þecktu ad hann var
Messías (því hann vildi koma í veg fyrir
þann óróa, sem þeir kannske ætludu ad
koma af stad medal fólksins). En þegar 42.
dagur rann, géck hann burtu, og gaf

sig

sig í afvikinn stad, en fólkid leitadi
hans, og þegar þad kom til hans, ætl-
adi þad ad halda honum hjá sér og
43. aptur af ferdinni. En hann sagdi
þeim: mér ber einninn ad kunngjøra
gledi-bodskapinn um Guds rýki ødr-
um borgum, því þess vegna er eg út-
44. sendur. Því héldt hann áfram og
kénndi í samkundunum í Galílæa.
(Marc. 1, 21-34).

## Annar Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Af því, sem Jesús gjørdi og taladi, á-
hrærandi þá djøful-ódu, ecki einúngis í
fólksins náviśt, heldur í heimuglegu sam-
qvæmi vid þá kjørnu sannleikans kénend-
ur, lærisveinana, verdur ei nær komist
ad álykta, en ad Gud hafi um þær mundir
veitt hinum illu øndum óvenjulega og
stutt varandi makt yfir einstøkum mann-
eskjum, til þess ad gjøra Jesúm veg-
samlegann.

1.) Þegar Jesús sendi þá tólf Postula um
Gydínga-land til ad prédika sinn lærdóm, gaf
hann

hann þeim ecki einúngis fullvissu um, ad þeim skyldi kraptur gefast, til ad lækna allskonar siúkdóma, heldur og fullvissadi þá um, ad þeim skyldi makt og myndugleiki gefast yfir óhreinum öndum til ad útreka þá.

Matth. Gudsp. 9 Kap. v. 35-37.

Jesús gékk um kríng í allar borgir og 35.
þorp, kénndi í samkundum þeirra, og
kunngjørdi gledi-bodskapinn um Guds
ríki, og læknadi allsháttar siúkdóma
og allskonar veikindi ámedal fólksins.
En þegar hann sá hinn mikla mann- 36.
fjølda, hrærdist hann miskunar yfir
hönum, vegna þess þeir vóru ør-
magna og tvístradir, eins og saudir,
sem engann hyrdir hafa, (til ad vakta
og annast þá) þess vegna sagdi hann 37.
vid sína lærisveina: kornskéran er ad
vísu mikil, en verkamennirnir eru fáir
(sannleiksins kénningu gæti hér mjøg ágengt ordid, væru ánægjanlega margir trúfastir kénnendur reidubúnir til ad útbreida hana). Bidjid þó Herra kornskérunnar, (sem á hid mikla korn, sem fullþroska er til hyrdingar, þad er Gud, sem skapad hefir manneskjur sínar til farsældar) ad hann sendi verk-menn til haust-yrkju sinnar.

Matth.

Matth. Gudsp. 10 Kap. v. 1 - 15.

1. Og þá kalladi hañ sína tólf lærisveina
fyrir sig, og gaf þeim vald yfir óhrein-
um ondum, ad útreka þá, einnig ad
lækna allskonar sjúkdóma og veikindi.
2. En þessi eru nøfn hinna tolf Postula;
hinn fyrsti var Símon, sem Pétur
nefndist, og Andrés bródir hans;
einnig Jakob Zebedæison og bród-
3. ir hans Johannes; Philippus og
Bartholomæus (edur Nathanael),
Thomás og Matthæus tollheimtu-
madur, Jakob Alphæison og Leb-
bæus ad vidurnefni Thaddæus;
4. Símon Kananites (eda hinn vand-
láti) og Júdas Ischarioth (úr þorp-
inu Karioth), sem eptir á gjørdist hans
5. svikari. Þessa tólf útsendi Jesús,
baud þeim og sagdi: leggid ecki leid
ydar til Heidíngjanna, og gángid
ecki inn í nockra Samversta borg
(á þessari fyrstu ferd i kénnidóms embætt-
6. inu), en ferdist heldur til fortap-
adra sauda af Israels húsi (sem
villu-ráfandi og hyrdirs lausir eru; því
søkum þeis ágreiníngur var milli hinna
lærdu Gydinga um allsháttar skarpfyndn-
ar spurníngar, vissi folkid ecki ad lokunum
hvad

hvad þad trúa og gjøra átti). Pré- 7.
dikid því á ferd ydar, og segid: ad
himnaríki (sú nádar húss-stjórn, sem Gud
med Messía ætlar ad stipta, til ad endur-
leysa syndarana) sé ordid nálægt.
Læknid sjúka! hreinsid lík-þráa, upp- 8.
vekid framlidna, rekid út anda (vonda
anda), þér hafid medtekid (þessa furdu-
verka gjøf) géfins! útbýtid henni einnin
géfins! gull skulud þér ecki útvega yd- 9.
ur, ecki heldur sylfur- né kopar-mynt í
ydar belti, ecki heldur ferda-tøsku né 10.
tvo kyrtla edur skó, (sem einúngis fyri-menn
brúka í Austur-londum) eda staf, (sem er
heidurs-teikn Yfirvalds-manna; því øll
grunsemi, um jardneskrar vegsemdar til-
gáng, á ad hindrast) því verk-madur
hvørr vinnur þó fyrir mat sínum
(enginn så mun synja ydur þess, er naud-
syn krefur til lífs-uppheldis, sem þvagur
ydar uppfrædíngu). En í hvørja borg 11.
edà þorp, sem þér inngángid, verdid
þér ad spyrjast fyrir, hvørt þar sé nock-
urr heidvirdur madur; og nemid þá
stadar hjá honum, þángad til þér far-
id burt aptur. Þegar þér komid inn 12.
í eitthvørt hús, skulud þér heilsa þar,
(því strax er þad audsjed, hvørt þér vel-
13.

13\. komnir séud;) og sé hid sama hús verdugt þess, þá gángist ydar fridar-ósk eptir á því, en sé þad óverdugt, þá komi ydar fridar-ósk aptur yfir sjálfa
14\. ydur. Vilji nockurr ecki veita ydur medtöku, né heyra ydar ord, þá gángid út úr því húsi eda þeirri borg, og hristid duptid af fótum ydar (til merkis um, ad þér eckért hafid framar vid
15\. þad fólk ad sælda). Eg segi ydur satt og víst: Sódóma- og Gomorra-manna-landi mun bærilegar afreida á dómsins degi, enn þvílíku þorpi, (í hvorju meira ljós nú væri kendrad, ef menn hefdu ei hlidrad sér hjá því af á-setningi, Marc. 6, 7-13. Lúc. 9, 1-6).

2.) Þeir sjötýgi lærisveinar, sem sama erindis útsendir vóru, komust og ad raun um, þeim til mikillar gledi, ad vondir andar hörfudu fyrir Jesú nafni, og þanninn styrkti Jesús þá í þeirri von, ad hann skyldi Satans makt ad fullu og öllu umturna.

Lúc. Gudsp. 10 Kap. v. 17-24.

17\. Eptir þad komu hinir sjötýgi til baka med fögnudi (úr ferdalagi sínu um Gydinga-land) og sögdu: Herra! jafnvel andarnir (þeir óhreinu andar) urdu oss sökum nafns þíns undirgéfnir (undir-

eins

eins og vér nefndum þig, og budum þeim
í þínu umbodi ad ryma). Hann svar- 18.
adi þeim: eg sá Satan steypast nid-
ur af himni eins og eldíngu (skyndi-
lega verdur vald hans, myndugleiki og álit
hédan af ad engu). Sjáid! eg géf yd- 19.
ur vald til ad fót-troda Høggorma og
Skorpíóna, og alla makt óvinarins
(ad umturna øllum hans vélabrøgdum,
hvørsu kjæn og ofrikis-full, sem þau eru),
og eckért skal géta ydur ad tjóni ordid.
Þó skulud þér ecki svo fagna yfir því, 20.
ad andarnir eru ydur undirgéfnir,
en fagnid því lángtum heldur, ad yd-
ar nøfn éru teiknud á himni (svo sem
trúfastra sannleikans játenda og votta, hæfra
til eilífrar farsældar). Á samri stundu 21.
fagnadi Jesús í sálu sinni, og sagdi:
eg vegsama þig, Fadir! þú Drottinn
himins og jardar! ad þú samt opin-
beradir þessa hluti hinum sáfródu,
þó þú létir þá dulda vera hinum vísu
og spøku (sem treysta uppá sín egin hyggindi);
já, Fadir! svona hefir þér vel þóckn-
ast ad haga því! Sídan snéri hann 22.
sér til lærisveinanna og sagdi: af fød-
ur mínum eru allir hlutir mér á vald
gefnir; og enginn þeckir hvørr Son-

urinn er (hans mikla erindi áhrærandi) nema Fadirinn, né heldur hvørr Fadinn er (ad því leiti, sem hans háu álykt-unum viðvíkur) nema Sonurinn, og sá, sem Sonurinn vill opinbera það.
23. Og þegar hann sneri sér (aptur á ný) að lærisveinunum sérilagi, sagdi hañ: sæl eru þau augu, sem sjá það, sem þér
24. sjáið! eg segi ydur fyrir víst, ad margir Spámenn og Kóngar vildu fegnir sjed hafa það, sem þér sjáið (Messias í egin persónu), en sáu það þó ecki, og gjarnan heyrt, það þér heyrið (uppfræðingu af Messias) en fengu það eckí að heyra.

3.) Það er efalaust að Jesús sjálfur hefir álitið hina djøful-ódu, að vera þeirsháttar, sem eptir Guðs tillátsemi, væru vondum ondum um stundar-sakir á vald gefnir.

Marc. Gudsp. 5 Kap. v. 1-20.

1. Þá komu þeir (Jesús og hans lærisveinar) yfirum hinumeginn sjáfarins, í Ga-
2. darena-landi En er hann sté af skipi, kom jafnskjótt á móti honum frá grofum hiña daudu, madur, sem hald-
3. inn var af óhreinum ánda *). Hann hafdi

*) Eptir útmálunninni hjá Matth. í 8 Kap. v. 28-34. vóru þeir djøful-ódu tveir, en Marcus og

hafdi adsetur sitt í legstødunum (sem útskofadir vóru í klettum), og engum tókst
ad halda honum í bøndum, og jafnvel ecki hleckjum; því opt var hann hleck- 4.
jum og járn-vidjum fjøtradur, en hann
kippti hleckjunum í sundur, og sleit
vidjurnar, og enginn átti kost á ad sefa
hann. Hann hrópadi sífeldt bædi 5.
nótt og dag, annadhvørt uppá fjøllunum
eda í legstødunum, og lamdi
sjálfann sig grjóti. En þegar hann 6.
sá Jesúm álengdar, hljóp hann til og
varpadi sér nidur fyrir honum, kalladi 7.
hárri røddu og sagdi: hvad hefi eg vid
þig ad sýsla, þú Jesús! Sonur hins
allrahæsta Guds! eg særi þig vid
Gud, ad þú qveljir mig ecki; því hann 8.
hafdi sagt vid hann: þú óhreini andi,
far þú út af þessum manni! þá spurdi 9.
hann ad: hvørt er nafn þitt? hann
svaradi og sagdi: Legion er mitt
heiti, því vér erum margir; (nafnid
innibindur frá sex til sjö þúsunda tølu),
og þá bad hann hann mikilega, ad hann 10.
vildi



Lúcas í 8 Kap. v. 26-39. gjetr einúngis um
einn, vid hvørn Jesús serílagi átti tal, hvørr
einninn var honum audsveypastur, eptir þad hann
frelsadur var.

vildi ecki reka þá burtu úr plátsinu.
11. En á þeim stad var mikill flockur
12. svína, sem stód á beit á fjallinu. Þá
bádu allir andarnir hann samegin-
lega, og søgdu: send oss til svínanna,
13. svo vér megum í þau fara! og jafn-
skjótt leyfdi Jesús þeim þad. Þeir
óhreinu andar viku þá út, og fóru í
svínin, og allur flockurinn steypti sér
skyndilega í sjóinn, nidur af marback-
anum, hér um tvø þúsund, og køfnudu
í sjónum*), þá flýdu svína-hyrdararn-
ir,

*) Ef menn vildu álykta, ad Jesús hafi lempad samtal sitt vid hinn óda, eptir hans trubludu ímindunu, og látid hann trúa ad hann fullur væri af djøfla-fjølda, med því hvør mótsøgn einúngis hefdi aukid hans ædi, er þó ómøgulegt ad útleggja, hvørsu ædi þessa manns hefdi í einu vetfángi farid í hin mørgu svín og trublad þau, nema þad skjed hefdi einúngis af Jesú almættisverkun. En þá hefdi hann brúkad sinn yfirnáttúrlega krapt til þess ad styrkja skadlega hjátrú; því hvørki sjálfur madurinn, ne lærisveinarnir, sem vidstaddir vóru, gátu annad dæmt af adferd Jesú í þetta skipti, enn ad hjer í raun og veru væru margir óhreinir andar, sem gjørt hefdu svínin galin, því annars hefdi Jesús breytt þvertámóti embætti sínu, sem var ad brjóta nidur hjá-trú, en ecki

nír, og fluttu tídindi um þetta bædi í
borgina og þorpin (hvar egendurnir
bjuggu, sem áttu hlut í hópnum), og þá
gengu þeir út til ad sjá þad, sem skéd
var. En þegar þeir nú komu til Jesú, 15.
og sáu hvørsu hinn ódi, í hvørjum Le-
gíónin verid hafdi, sat og var klædd-
ur og hafdi allt vit, urdu þeir ótta-
slegnir. En þeir, sem á horfdu, søgdu 16.
þeim frá, hvørninn þetta géck til med
þann óda og svínin. Þá tóku þeir ad 17.
bidja hann um ad yfirgéfa þeirra
landamerki (máské af ótta fyrir því, ad
einhvørr kynni sá ad vera, sem vildi hefna
sín á honum, og líka er eins víst, ad med-
vitund sjálfra þeirra um ójafnadar okur,
sem þeir æft hefdu í sali svínanna, hafi
uppvakid hjá þeim heimuglegann qvída
fyrir fleiri hirtingum). En, sem hann 18.



ecki styrkja hana. En þvílíkt undirferli strídir
beint á móti þeirri stødugu elsku til sannleik-
ans, sem hann hvervetna leiddi í ljós, jafnvel í
mestu hættum. Þess vegna er þad rjettast, ad
medtaka þad fyrir sannindi, sem sjálfur Jesús
sagt hefir svo vera; og eckert olíklegt, sem strídi
móti skynseminni, sjest í þessu, ef mønnum sýn-
ist þad ecki krefja móti skynsemi, ad vondir and-
ar gjeti eins verid til, og vondir menn, hvørra
eptirløngan er ad gjøra mein.

nú ſté á ſkip, bad ſá madur, ſem ódur
verid hafdi, ad hann mætti verda med
19. honum. En Jeſús vildi ecki leyfa
honum þad, og ſagdi þarámóti vid
hann: fardú heim til þinna, og ſeig
þeim frá, hvørſu mikil dáſemdar-verk
Drottinn hefir á þér gjørt, og hvørſu
20. hann miſkunadi ſig yfir þig. Þá fór
hann burt, og tók ad vídfrægja í De-
capólis, hvad Jeſús hafdi vid hann
gjørt, ſvo alla furdadi á því (og á þenn-
ann hátt vard hann verkfæri til ad upp-
vekja laungun hjá Heidíngjunum eptir ſkír-
ari þeckíngu á Jeſú lærdómi, ſvo þeir
ſkyldu veita Poſtulunum því fúslegar vid-
toku eptirá).

## Þridji Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Af ſigri Jeſú yfir vondum øndum, ſá
hvørr einn, ſem gæta vildi ſkynſeminnar,
ad hann ecki einúngis var ei þeirra hjálp-
ar-þurfi til ſinna furdu-verka, þared hann
hafdi meiri krapt og vald enn allir þeir,
heldur ad hann þvertámóti kominn var
til ad umturna og gjøreyda valdi því, ſem
þeir nád høfdu. 1.)

1.) Í fólksins áheyrn sannaði Jesús með brækum reksemdum, að þareð hann væri vondra anda mótstandari og sigrari, væri ómögulegt að hann væri þá vidridinn, og hans örgustu óvinir fundu sjálfir að þeir í vondsku sinni urðu þeis vegna svo til skammar, að þer gátu ecki svarað einu orði sér til afbotunar, móti hans sterpu átolum.

Matth. Guðsp. 12 Kap. v. 22-45.

22. Þá var einn djöful-óður til hans hafður, sem blindur og mál-laus var; og hann kom honum svo til hjálpar, að hinn blindi og mál-lausi bædi talaði og sá.
23. En allt fólkið undraðist og sagði: skal hann ecki vera sá Davíds sonur (Messias, sem eptir fyrirheitinu átti af David að koma)?
24. en þegar þetta barst til Pharísæanna, sögðu þeir: hann rekur ecki þá vondu anda út, nema með Beelzebul, Fursta þeirra vondu anda*).
25. En þegar Jesús varð þeirra hug-



*) Hinn æðsti Guð Philistæanna, sem dýrkadur var í Ekron, nefndist Beelzebub (Flugna-Guð), því menn hjeldu hann mundi verjda landið móti hinum mörgu skadvænu skrid-qvikindum, af hvörjum það moraði. Af hádi umbreyttu Gydingar nafninu í Beelzebul, sem þýdir Skarn-Guð.

Þeir

hugrenninga var, sagdi hann vid þá: sérhvørt ríki, sem sundur-þyckt er í sjálfu sér, eydileggst, og eckért þorp, eckért hús, sem innbyrdis er ósam-
26. lyndt, fær stadist. Þess vegna, ef einn Satan rekur annann út, þá er hann í sjálfum sér sundur-þyckur, hvørniñ á þá hans ríki ad géta stadist? (Satan yrdi ad vera svo sávis, ad brúka mig fyrir verkfæri, til ad svipta sjálfann
27. sig, sinni egin makt); en útreki eg andana med **Beelzebul** (þá má med réttu spyrja), med hvørjum útreka þá synir ydar þá? (Því þeirra lærisveinar reyndu med allshåttudum særíngum ad eyda nidurfalls-sýki, sem var haldin ad vera af anda áløgum, og brúkudu ásamt vissar jurt-

Þeir álitu Afgudi Heidingjanna, ad vera illa anda, og medal þeirra átti hinn áðurnefndi Philístæa Gud, ad vera hinn voldugasti, sem ætti þess vegna hægt med ad brjóta hina undir sig, þegar honum litist; bædi Gydíngar og Heidnir hjeldu, ad vissir menn gætu komist í sam-fjelagskap vid andana, og med þeirra adstod gjørt furdu-verk. Þess vegna lá harla mikid á því, ad Jesús sýndi í verkunum, ad hann eckert sam-fjelag hefdi med þesskonar øndum, heldur væri mótpartur þeirra, og vegna þess leitst Guds vísdómi þad þjenanlegt ad leysa þjóful-ædi um þær mundir.

jurtir, og fyrilegdu manninum lánga stund víst matar-ædi; en þegar lækníngin tókst, þó ecki væri nema um stundar-sakir, komu þeir því jafnskjótt á lopt, ad djöfullinn útrekinn væri) þessir skulu því ydar dómarar vera. (þared sama er um þá ad segja, ad þeir útreki einn Sataninn med hins adstod, egi eg ecki ad megna þad ødruvísi; en med því þér viljid þó ecki skulda ydar egin lærisveina fyrir samlag med Beelzebul, mega þeir koma fram og dæma, ad misþánki sá, í hvorn þér viljid koma mér, sé á engum rokum byggdur).
En svo framarlega, sem eg útrek hina vondu anda med Guds Anda (Guds krapti, Lúc. 11, 20. er hér andi nefnist, sem skráleitur þeim vonda anda, sem Pharísæarnir þókttust sjá ad framgvæmdi Jesús furdu-verk), þá hlýtur Guds ríki þegar ad vera til ydar komid (Messias verdur nálægur ad vera, vegna þess Gud svo berslynilega einkennir hann, med sins almættis medals-lausri samverkun). 28.
Já! hvørsu mun nockurr fá gengid inn í hús krapta-mannsins, og rænt hann fémunum sínum, án þess ad taka hann sterka ádur til fánga; því þá fyrst verdur hans hús rænt, (þess vegna hlýtur Jesús, sem útrýmir hinum vondu øndum, ad vera máttugri enn þeir, og þarf ecki 29.

30. Þeirra hjálpar vid, til sinna verka). Hvørr, sem ecki er med mér, sá er á móti mér, og hvørr, sem ecki samansafnar med mér, sá sundurdreifir (Jesús umturnarráda-bruggi þeirra vondu anda, því er hann ecki þeirra vinur, heldur óvinur og
31. mótstodumadur). Þess vegna segi eg ydur nú: hvør ein synd og hádunglegt tal gétur ad søñu moñunum fyrigéfist (þegar þeir, vegna betri þeckingar, fá sannarlegt ángur af þeim), en hádúglegt tal móti andanum, skal manneskjunum ecki fyrirgéfast (því med því ad smána og fyrirlíta audsýnilegasta vott um Guds almáttugu samverkun, sem ljóslega, sést í Jesú furdu-verkum, ræna menn sjálfa sig hinu sídasta athvarfi, fyrir hvørt þeir ödlast gætu betri þeckingu, og uppvakist
32. til ydrunar). Þó svo beri vid ad Mañsins Syni sé hallmælt (sé kalladur átvagl og dryckju-madur, Sabbathsins, yfirtrodslu-madur, trúarbragdanna foraktari, upphlaups-madur eda þessko nar), má þad samt fyrirgéfast (vegna þess mögulegt er, med því ad igrunda Jesú furdu-verk, ad uppvekjast til náqvæmari athugasemdar, og ödlast þanninn trú og sannfærslu), en tali nockurr sviviridilega um heilagann Anda (móti þeim bersýnilega guddóms-

dóms-krapti, sem framqvæmir Jesú krapta-
verk og kallar hann djöfulsins sjölkyngi),
fyrirgéfst honum það ecki, hvørki í
þessari né hinni eptirkomandi veröldu
(vegna þess hann forherdir sjálfann sig móti
öllri verkun hins sídasta medals, sem vek-
ja mætti hann til betri yfirvegunar). Lát- 33.
um vera, ad tréd sé gott, þá verda meñ
einninn ad álykta, ad ávextir þess séu
gódir (þvílíkar hádúngar heyrast aldrei
af gódu hjarta), eda láti menn tréd
hvertámóti vondt heita, þá hljóta á-
vextirnir á þvílíku vondir ad vera,
því af ávextinum þeckist tréd (þvílíkar
hádúngar vitna of ljóslega um vondt
hjartalag). Þér nødru-úngar! (eytrudu 34.
sálir) hvørsu fáid þér talad það, sem
gott er, þar þér vondir erud? því það,
sem hjartad er fullt af, flýtur fram af
munninum. Gódur madur fram- 35.
flytur hid góda, af gódri nægd síns
hjarta, en vondur madur framflytur
hid vonda, af sínum vondsku byrgdum.
En eg segi ydur fyrir víst: ad á hvør- 36.
ju ósæmilegu ordi, sem menninnir
tala, skulu þeir reikning standa á degi
dómsins; því fyrir ord þín skaltú frí- 37.
kénndur verda, og fyrir ord þín skaltú
38.

38. fordæmast. Þá hófu nockrir skrift-
lærdir og Pharísæarar, tal vid hann,
og søgdu: Meistari! vér vildum gjarn-
39. an sjá teikn af þér! hann svaradi þeim
og sagdi: þessi vonda og svikafulla
kynslód óskar teikns, en ekkért teikn
skal géfast þeim, nema teiknid med
40. Jónas Spámann. Þvi eins og
Jónas var í qvidi sjóar-dýrsins, þrjá
daga og þrjár nætur, svo skal Manns-
ins Sonur þrjá daga og þrjár nætur
(sem eptir talsþættinum mérkir einninn á
þridja dag) vera í skauti jardarinnar.
41. Nínívæ borgar-menn skulu upprísa
í dóminum móti þessari kynslód og á-
fella hana (med vanvirdandi mótvitni
þeirra leida í ljós ad hún vinni til refsingar);
því Jónæ prédikun sneri þeim, og
sjá! hér er meiri enn Jónas (vegsam-
42. legri Sendi-bodi Guds, enn hann). Drottn-
íngin úr sudur-átt skal upprísa í dóm-
inum móti kynslód þessari og for-
dæma hana, (sanna hvørsu straffsverd
hún sé), því hún kom úr fjærlægu landi,
til ad heyra speki Salómons, og sjá!
hér er meiri enn Salómon (vísari
43. Lærimeistari enn hann). En þegar ó-
hreinn andi er út af manninum vikinn
(færid

(særíd þér sjálfir í frásøgur), ad hann
ráfi þá um þurra stadi, leiti hvíldar,
en finni hana ecki, og segi því: eg vil 44.
hverfa aptur í hús mitt, úr hvørju eg
burtfór, og þegar hann þá kémur, finn-
ur hañ ad þad tómt er, sópad og prýdt,
fer svo burt og tekur nú sjø adra anda 45.
med sér, sem verri eru eñ hann sjálfur,
og þá fara þeir inn, og taka sér þar
bólfestu, svo ad lokunum er þessari
manneskju verr farid enn í øndverdu
(þessa søgu høfdu menn diktad upp, til
ad afsaka þad tilfelli, sem opt bar undir,
ad þeir menn, sem fyrir medferd Pharí-
sæanna lærisveina, fríudust litla hríd frá
nidurfalls-sýki, fengu hana eptirá tvøfaldt á-
kafari), og á líkann hátt mun nú og
(segir Jesús, þegar hann heimfærir egin
frásøgn þeirra, þeim sjálfum til vidvørunar)
íllmeñnum þessara tíma farnast
(sem ad sønnu um augnablik láta hræra
sig til íhugunar, en falla strax aptur í
þeirra fyrri vantrú, og þverskallast æ meir
og meir móti øllum sannfæríngum. Marc.
3, 20-30. Lúc. 11, 14-32).

2.) Fólkid lét Pharísæana ecki leida sig af-
vega til ad mistryggja hinn mikla krapt, sem
Jesús lét í ljósi, med því ad útreka hina vondu
anda.

Matth.

Matth. Gudsp. 9 Kap. v. 32-35.

32. En sem þessir (þeir tveir blindu, sem
fengid høfdu sjónina) vóru burtfarnir;
sjá! þá var mál-laus djøful-ódur mad-
33. ur til hans hafdur. Og þegar búid
var ad útreka andann (hinn óhreina
anda), taladi hinn mál-lausi; en fólk-
id undrádist, og sagdi: þvílíkt hefir
34. aldrei fyrr siest í Jsrael. Þá søgdu
Pharísæarnir, hann útrekur andana,
35. med anda-høfdingjans adstod. Samt
géck Jesús um kríng í allar borgir og
og þorp og kéndi í samkúndum þeirra,
og kunngjørdi gledi-bódskap um ríkid
(sem eptir Guds fyrirheiti, stiptast átti af
Messía, syndurunum til laúsnar), og
læknadi allskyns sjúkdóma og alls-
háttar veikindi.

3.) Móti óvinum sínum bar Jesús fyrir sig,
ad hann ræki út vonda anda því til stadfestu,
ad hann fremdi Guds verk, og ad engri makt
tækist ad hindra hann frá ad framqvæma er-
indi sitt, fyrri enn ad þeim tíma kjæmi, ad
hann, eptir Guds vilja, fórnfærast ætti í Je-
rúsalem.

Lúc. Gudsp. 13 Kap. v. 31-35.

31. Um sømu mundir, (sem Jesús í sídarsta
sinni var á ferd til Jerúsalem) komu
nockr-

nockrir Pharíſæarar og ſøgdu vid
hann: haldtú áfram og vík burt héd-
añ; því Heródes (Antípas, Fjórdúngs-
Høfdíngi í Galilæa) ætlar ad láta ráda
þig af døgum: en Jesús, (ſem viſſi ad 32.
þeir ſendir vóru frá ſjálfum Heródeſi til ad
ſkelfa hann, ſvo hann þeſs fyrri ſkyldi yf-
irgefa Galilæam) ſvaradi þeim: far-
id burt og ſegid þeim ref (þeſſúm und-
irſorula manni): ſiá! eg útrek anda,
eg lækna ſjúka, í dag og á morgun
(ſkamma ſtund enn þá); en á þridja degi
er útgjört um mig (mitt ſkeid er þegar
endad); þó ber mér ad halda áfram 33.
ferd minni í dag og á morgun, og dag-
inn þar eptir (eg hlýt ydjúſamur ad vera,
medan mitt erindi yfirſtendur), og þar
fyrir utan ber þad ſjaldan vid, ad ſpá-
madur ſé fyrir utan Jerúſalem líflát-
iñ (hvar ſvo margir Guds ſendibodar hafa
deyddir verid). Jerúſalem! Jerúſa- 34.
lem! þú, ſem ſlær Spámennina í
hel, og grýtir þá, ſem ſendir eru til þín,
hvørſu opt hefi eg viljad þínum børn-
um til mín ſafna (gjøra þína innbyggend-
ur óhulta), eins og hænan ſaman ſafnar
úngum ſínum undir ſína vængi
(til ad verja þá háſkanum), en þér haf-

35. id ecki viljad! Sjá! ydar musteri
skal ydur í eydi látid! eg segi ydur
og víst; þér skulud ecki fá ad sjá mig,
þángad til þér verdid ad segja: bless-
adur sé sá, sem kémur í nafni Drott-
ins!

# 6ta Suñudag eptir Prettánda.

## Adal-hugleiding.

Pad, sem Jesús fyrifram kunngjört
hafdi, ad hann, svo sem vegsamad-
ur Messías, framfylgja skyldi
Guds réttlætis-dómi, yfir hinu þver-
brotna fólki, sem einnig tálmad hafdi
framgángi sannleikssins, var, sem í
uppfyllingu med himneskum opin-
berunum, sett Jóhannesi, trygd-
reyndum Jesú lærisveini, fyrir sjónir,
trúndum til styrkingar.

Fyrsti

# Fyrsti Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Sá himneski Fadir fól á hendur sínum eingétna Syni, sem drottnar yfir frelsudum heimi, ad framqvæma þær guddómlegu ályktanir, eptir hvörjum vantrú eydast, en sannleiki útbreidast átti.

1.) Jesús Kristur opinberast Jóhanni í hátign sinni, og bÿdur honum ad skrifa vissum sösnudum til, Þad honum bodid verdi.

Jóh. Opinb. 1 Kap. v. 1-20.

1. Þetta er Jesú Krists opinberan, hvörja Gud gaf honum, svo ad hann sýna skyldi þjónum sínum, hvad innan skamms yrdi ad ské; og hann ávísadi þad þjóni sínum Jóhannesi, med því ad senda honum engil sinn.
2. Þessi (Jóhannes) er sá, sem bodad hefir Guds ord, og vitnad um Jesúm Krist þad, til hvörs hann hefir sjónarvottur verid.
3. Sæll er sá, sem les, og þeir, sem heyra þessi spádóms-ord, og láta þau vera sér leidarvísir, sem þau innihalda, því tíminn er í nánd.
4. Jóhannes heilsar hinum sjø sösnudum í Asia: nád og fridur veitist

ydur af þeim, sem er og var og verdur
sífeldlega hinn sami óumbreytanlegi Gud),
og af þeim sjø øndunt, sem standa fyr-
ir hans veldis-stóli (af himni, hvar hin-
ir ædstu andar reidubúnir eru, svo sem
Guds þénarar, ad framqvæma sérhvørja
5. hans skipun), og af Jesú Kristó, þeim,
sem er trúfastur vottur, (um Guds á-
lyktada rád), frumgétníngur af daud-
um (hinn fyrsti, sem frá daudanum útgéck,
til óforgengilegs lífs); og sem er yfirhøf-
ud jardarinnar Fursta; af honum,
sem elskar oss, og hreinsadi oss med
6. sínu blódi af syndum vorum, med því
hann og gjørdi oss ad Konúngum og
Kennimønnum fyrir Gudi, sínum
Fødur (helgadi oss til ad offra Gudi verd-
ugri dýrkun í hátídlegri andakt); honum
ber dýrd og veldi um alla eilífd,
7. Amen. Sjá! hann kémur á skýjun-
um (til ad halda dóm yfir þeim forherdta
lýd, Matth. 24, 30), og sérhvørt auga
mun sjá hann, eins þeir, sem hafa hann
gégnumstúngid. (Zach. 12, 10.); og
søkum hans skulu nú allar landsins
8. ættir hástøfum grena. Já, vissu-
lega skédur þad! Drottinn ségir: eg er
Alpha og Omega, (hinn fyrsti og síd-
asti,

asti, (sá eilífi) sá, sem er, og sá, sem vár,
og sá, sem verdur (óumbreytanlegur) sá
hinn almáttugi. Eg, Jóhannes, 9.
bródir ydar, sem einninn hefi hlutdeild
bædi í þjáníngunum og í ríkinu, (til
hvørs vér kalladir erum) og í øllu, sem
menn lída hljóta þolinmódlega fyrir
Jesú Krists sakir; eg var staddur á
þeirri eyju, sem Patmus nefnist
(þángad í útlegd rekinn), søkum þess eg
kenndi Guds ord, og vitnadi um Jes-
úm Krist. En á Drottins degi 10.
(hinum fyrsta degi vikunnar, á hvørjum
Drottinn Jesús uppreis frá dauda) vard
eg í mínum anda frá mér numinn, og
heyrdi bak vid mig háa raustu, eins
og verid hefdi básúnu hljómur, sem
sagdi: skrifa þú upp í bók, þad, sem þú 11.
sér, og send þeim sjø søfnudum í Asía,
til Ephesus og Smyrna og Per-
gamus og Thyatíra og Sardes
og Philadelphia og Laodicæa;
þá sneri eg mér vid, til ad gá ad, hvílík 12.
rødd þad var, sem taladi vid mig, og,
sem eg sneriſt vid, vard mér litid á sjø
gull ljósastjaka, og midt á medal þeirra
sjø ljósa-stjaka, sá eg persónu eina, líka
Mannsins Syni skrýdda sídum kyrtli,

og gyrdta gullbelti undir brjóstunn;
14. svo hvít vóru hans høfud-hár, sem hvít ull, eins og snjórinn, og hans augu ljómudu eins og logandi eldur.
15. Fætur hans vóru og tilsÿndar, sem skjær málmur, eldborinn í ofni, og rödd hans var eins og nidur af morg-
16. um vøtnum; í hægri hendi sér héldt hañ sjø stjørnum (sem merktu sjø Forstjóra safnadanna), og hvast tvíeggjad sverd géck út af munni hans (til merkis um gégnumþreyngjandi krapt hans orda), og hans andlit var sem sólin, þegar hún
17. skín al-ljómandi. En þegar eg sá hañ, féll eg nidur, sem daudur fyrir hans fætur. En þá lagdi hann sína hægri hønd yfir mig, og sagdi vid mig: óttast ecki! eg er þad: hinn fyrsti og síd-
18. asti! hinn lifandi! eg var daudur! en sjá! eg lifi nú um alla eilífd, Amen! eg hefi og lyklana ad afgrunni og dauda, (svo sem sá, sem ród hefi til ad frelsa frá dauda og tjóni hvorn, sem eg vil)
19. Skrifa nú þess vegna þad, sem þú sjer, bædi þad, sem nú stendur til, og
20. hvad héreptir á ad ské. Hvad áhrærir þá leyndardóms-fullu útþÿdingu þeirra sjø stjarna, sem þú sást í minni

hægri

hægri hendi, og þeirra sjø gull-ljósa-stjaka, þá merkja þær sjø stjørnur sjø engla safnadanna, (Forspracka eda Kēn-endur) og þeir sjø ljósa-stjakar, sem þú sást, eru þeir sjø safnadir.

2.) Guds hátign og veldi eru í hátídlegum ljóma og himneskri vegsemd fyrir sjónir leidd.

Jóh. Opinb. b. 4. Kap. v. 1-11.

Eptir þad gafst mér ønnur sjón, 1.
(þegar bodord var gēfid um þad, er sofnudunum skrifa ætti) því sjá! dyr vóru á himninum opnar, og hin fyrsta rødd, sem eg ádur fyrri heyrt hafdi vid mig tala, álíkt og básúnu-hljód, sagdi þá: stíg þú upp hingad, og skal eg sýna þér hvad héreptir skal vidbera. Og jafn- 2.
skjótt vard eg í mínum anda frá mér numinn: og sjá! veldis-stóll eīn stód á himni, og einn sat á veldis-stólnum.
Og sá, sem á honum sat var tilsýnd- 3.
ar líkur edalsteinunum **Jaspis** og **Carniol** (í vidhafnar-fullum ljóma), og umhverfis veldis-stólīn var regn-bogi tilsýndar eins og **Smaragd** (grænn ad lit). Einnin vóru tuttugu og fjøg- 4.
ur hásæti umhverfis veldis-stólinn, og í þeim hásætum sá eg tuttugu og fjóra

Oldúnga sitja, skrýdda hvítum klæd-
um, og høfdu gull-kórónur á høfdum
5. sér. Og út frá veldis-stólnum gengu
eldíngar og reidar-þrumur og hljóm-
ur mikill. Og sjø blis logudu gladt
gegnt veldis-stólnum: þau merkja þá
6. sjø anda Guds. Þar var og gler-haf
gégnt veldis-stólnum, skjært eins og
Kristall (gólfid, á hvørju menn nálægdu
sig veldis stólnum, var gagnsært, og sýndi-
ist eins og menn ættu yfirum vatn ad vada).
En á þeim stad, sem veldis-stóllinn stód,
þad er ad skilja, rétt í kríngum stólinn,
vóru fjøgur dýr, full af augum bædi í
7. bak og fyrir. Fyrsta dýrid var, sem
ljón, og annad var áþeckt uxa, hid
þridja hafdi manns andlit, og hid
8. fjórda var líkt fljúgandi ørn. Þessi
fjøgur dýr høfdu, hvørt fyrir sig, sex
vængi allt um kríng, og innanverdt
(undir vængjunum) vóru þau full af
augum, í sífellu hrópudu þau hvørt
nótt eda dagur var: heilagur, heilag-
ur, heilagur, er Drottinn Gud sá al-
máttugi, sá, sem var, og sem er, og
9. sem verdur. Og medan þessi dýr
færa þeim, sem á veldis-stólnum situr,
þeim, sem lifir um alla eilífd, heidur
og

og lofgjörd og þacklæti, þá falla hin- 10.
ir tuttugu og fjórir Öldúngar flatir
fram fyrir þann, sem situr á veldis-
stólnum og tilbidja þann, sem lifir um
alla eilífd, og þeir varpa sínum kórón-
unum nidur fyrir veldis-stólinn, og segja:
Drottinn! þú ert verdugur ad medtaka 11.
heidur og prís og dýrd, því þú hefir alla
hluti skapad, og fyrir þinn vilja urdu
þeir til og eru skapadir *).

3.) Framqvæmd guddómlegra álýktana er Syninum med dýrdlegum hætti af Födurnum á vald gefin, sökum þess hann gaf sig út fyrir heiminn.

Jóh. Opinb. 5 Kap. v. 1-14

En í hægri hendi þess, sem sat á veld- 1.
is-stólnum, fékk eg því nærst bók ád sjá
(Pergaments stránga, vafinn eins og lands-
kort um kefli, eptir því, sem þá var sidur til)
bædi utan og innan (eda beggja megin)
útskrifada, og innsiglada med sjø inn-

 2.

*) Öll þessi afmálan, leidir Gud fyrir sjónir, svo sem mikinn og hafinn upp yfir allt, sem mikid og vegsamlegt hugsast gjetur í allri náttúrunni, lösadann og dýrkadann svo sem þann eina, sem máttugur se og vís, sem framqvæmi sínar ágjördúdu rádstafanir med krapti og verdugleika, til gledi og fagnadar sínum skynsømu dýrkurum.

2\. siglum. Þá sá eg líka voldugañ engil, sem úthrópadi med hárri roddu: hvørr er borinn til ad ljúka upp bókinni, og brjóta upp hennar innsigli?
3\. En enginn hvørki á himni né jørdu eda undir jørdunni gat bókinni upplokid eda í hana sjed (engin skepna fær
4\. ransakad Guds álykłanir). Þá tók eg sárlega ad gráta, yfir því, ad enginn fannst sá verdugur væri ad ljúka upp bókinni edur í henni ad lesa, eda jafnvel í hana ad líta.
5\. En einn af Øldúngunum sagdi vid mig: grát þú ecki! sjá! Ljónid af Júda kynþætti (1 Mós. b. 49, 8-10), sá rótar-ángi af kyni Davíds (Es. 11, 1-10), hefir yfirunnid svo hann fær bókinni upplokid og brotid hennar sjø innsigli.
6\. Þá leit eg upp, og sjá! milli veldisstólsins og þeirra fjøgra dýra og Øldúnganna stód lamb, á hvørju merki sást þess, ad því hafdi fórnfært verid, og þad hafdi sjø horn (til merkis um þess veldi) og sjø augu; þau þýda þá sjø anda Guds, sem sendir eru (í Drottins erinda-gjørdir) um alla ver-
7\. øld. Þá kom þad og medtók bókina af hægri hendi þess, sem á veldisstóln-

siólnum sat. En þegar það tók við 8.
bókinni, féllu þau fjøgur dýrin og þeir
tuttugu og fjórir Oldúngar fram fyr-
ir þessu lambi, og hvørr fyrir sig hafði
hørpur, og gull-skálir fullar reykélsis,
sem fyrirmyndar bænir heilagra, og 9.
þeir samsúngu nýjann lofsaung, og
søgdu: verdugur ert þú móti bókinni
að taka, og opna hennar innsigli; því
fornfærdur ertú, og með blódi þínu
hefir þú keypt oss Gudi til handa,
(að vér mættum vera hans eigin, svo sem
hans endurkeyst børn) af øllum ættum
og túngumálum og fólki og þjóðum,
svo sem þú og hefir gjørt oss að Kóng- 10.
um og Kénnimønnum fyrir Gudi
vorum, og á jørdunni skulum vér ríkja
(vor trúarbrøgð skulu yfir-ráðin hafa).
Framar sá eg og heyrdi rødd margra 11.
engla umhverfis veldis-stólinn, einnin
dýranna og Oldúnganna. Og þeirra
tala var tíu þúsundsinnum tíu þúsund,
og þúsundsinnum þúsund. Þeir søgdu 12.
með hárri røddu: verdugt er lambið,
sem líflátið var, að meðtaka til eignar,
bædi vald og auðæfi og vísdóm! og
krapt og lof og dýrd og þakklæti! og 13.
allar sképnur, sem eru á himni og

jerdunni og í sjónum, og allt hvad
þar í þeim er, heyrdi eg segja: þeim,
sem á veldis-stólnum situr, ásamt
lambinu, sé þøck og lof og dýrd og veldi
14. um alla eilífd! og þau fjøgur dýrin
svørudu: Amen! og Öldúngarnir
féllu fram og tilbádu.

# Annar Árgángur.

## Høfud-lærdómur.

Margskonar þjáníngar dynja yfir hid
þverúdarsama fólk til vidvørunar og upp-
vakníngar.

1.) Med adskiljanlegum fyrirmindunum af-
málast strid og húngur og pest og skelfilegt
ofbeldi hvørt á sætur ødru.

Jóh: Opinb. 6 Kap. v. 1-17.

1. Eptir þad sá eg ad lambid opnadi hid
fyrsta innsiglid (sem yst var á Perga-
ments-stránganum, sem þá rakfist sundur),
og eg heyrdi hid fyrsta af þeim fjórum
dýrum segja, svo sem med þrumu-
2. rødd: kom og sjá! þá sá eg, og sjá!
hvítann hest! og sá, sem á hønum sat
hafdi boga, og hønum vard kóróna
gésin, og hann dró sigursæll út, til ad
vinna

vinna sigur framvegis. En þegar 3.
(Lambid) opnadi hid annad innsiglid
(á hinum ødrum Pergaments-strángan-
um, sem þá opnadist), heyrdi eg hid ann-
ad dýr segja: kom og sjá! þá géck fram 4.
annar hesturinn, sem var raudur, og
þeim, sem á honum sat, var þad géfid
ad svipta landid fridi, svo hverr skyldi
myrda annann innbyrdis, og honum
var géfid sverd mikid. Þá opnadi 5.
(Lambid) hid þridja innsiglid (á hinum
þridja Pergaments-stránga innanverdt, sem
þarmed opnadist), og þá heyrda eg þridja
dýrid segja: kom og sjá! þá sá eg, og
sjá! brúnann hest! og sá, sem á hon-
um sat, hafdi vog í hendi sér. Svo 6.
heyrda eg rødd medal þeirra fjøgra
dýra, sem sagdi: einn mælir hveitis
(sem svarar eins manns Dags-fædi) skal
kosta eitt mark, og þrír mælirar byggs
eitt mark, en olíu og víni mátt þú ecki
tjón vinna. Þegar þá (Lambid) lauk 7.
upp fjórda innsiglinu (á hinum fjórda
innri Pergaments-stránga, sem þarmed opn-
adist), heyrdi eg fjórda dýrid segja:
kom og sjá! þá sá eg, og sjá! bleikann 8.
hest! og þess nafn, sem á honum sat,
var daudi, og afgrunnid var í før
hans,

hans, og fjórdi partur landsins var
honum á vald géfinn, til ad fella med
sverdi og húngri og pest og med grip-
9. dýrum. En þegar (Lambid) opnadi
fimta innsiglid (á fimta Pergaments-
stránganum, sem næst var innanundir,
hvarmed hann raktist sundur), sá eg und-
ir altarinu (undir hvört offur-dýranna
blódi hellt var í musterinu, 2 Mós. b. 27, 4. 5.)
sálir þeirra manna, sem líflátnir vóru
(og þess vegna fórnfærdir) fyrir Guds
ords sakir, og sökum þess vitnisburd-
10. ar, hvörs þeir fastheldnir vóru; og
þær kölludu hárri röddu og søgdu:
o Drottinn! þú hinn heilagi og trú-
fasti, hvörsu lengi dregur þú undan
dóm upp ad segja, og ad hefna vors
11. blóds á landsins innbúum? en hvörri
þeirra var géfinn sídur kyrtill hvítur,
og þeim var sagt, ad þær skyldu enn
þolugar bída um stundar-sakir, þáng-
ad til þeirra medþjónar og brædur,
sem enn þá ættu ad líflátast, fylltu
12. tølu þeirra. Eptir þad sá eg ad
(Lambid) opnadi sjøtta innsiglid (á
hinum sjøtta og innra Pergaments-stránga,
sem þá raktist sundur), og sjá! mikill
jardskjálfti vard, og sólin vard svört,
sem

sem hæru-seckur, og túnglid vard, sem
blód (geigvænlegasta ódvedur geck upp). Og 13.
stjørnur himins duttu nidur á jørdu,
álíkt og fíkju-tré fellir fullþroska fík-
jur, þegar þad skékst af stormvidri
(Því þegar jordin skjograr á ymsar sídur
af miklum jardskjálsta, er til ad sjá svo sem
stjornurnar hræríst, og ætli ad detta). Og 14.
allur himininn fór á flug, eins og
þegar Pergaments-strángi er saman-
vafinn (skýin sneruſt skyndilega hvørt upp-
yfir annad), og øll fjøll og eyjar røsk-
uduſt úr stad. En Furstar landsins, og 15.
hinir miklu og ríku, og Hershøfdíng-
jarnir og hinir voldugu, já! sérhvørr
þræll og sérhvørr frjáls føldu sig
í berg-hellirum og fjalla-giljum. Og 16.
þeir søgdu vid fjøll og berg: fallid yf-
ir oss! og hyljid oss fyrir þess ásjónu,
sem á veldis-stólnum situr, og fyrir
vandlætíngu lambsins. Því hinn 17.
mikli hegníngar-dagur er kominn, og
hvørr fær stadist?

2.) Jesú krossfestu játendum, gefst tækifæri
ad frelsast frá hinum almennu þjáníngum.

Jóh. Opinb. 7. Kap. v. 1-17.

Þá sá eg fjóra engla, sem stódu á fjór- 1.
um hornum landsins, þeir héldu fast-

lega fjórum vindum jardarinnar
(høfud-vindunum) svo enginn vindur
blása skyldi, hvørki á jørdina né sjóin
né á nockurt tré (hinu geigvæna áhlaupi
2. skal um stundar sakir apirad verda). Síd-
an leit eg annann engil koma í ljós frá
sólarinnar uppruna, sem hafdi inn-
sigli lifanda Guds, og hann kalladi
hárri røddu til þeirra fjøgra engla,
sem vald høfdu fengid til ad granda
3. jørdunni og sjónum, og sagdi: grand-
id hvørki jørdunni né sjónum né trján-
um, uns vér innsiglad faum þjóna
vors Guds í þeirra ennum (til merkis
um ad þeir heyrdu honum til, eins og
ködur var til, ad brenna strids-fylkisins
heiti á stridsmennina, med þessháttar farfa,
4. sem ecki gat afmádst), og þá heyrdi eg
tølu þeirra, sem innsigladir urdu:
hundrad og fjørutýgi og fjøgur þús-
und af øllum kynqvíslum Israels,
5. nefnilega: af Júdæ ættqvísl vóru
tólf þúsund innsigladir; af Rúbens
6. ættqvísl, tólf þúsund innsigladir; af
Gads ættqvísl, tólf þúsund innsigl-
adir; af Asers ættqvísl, tólf þúsund
innsigladir; af Nepthalíns ætt-qvísl,
tólf þúsund innsigladir; af Ma-
nasse

naſſe ættqvíſl, tólf þúſund innſiglað-
ir; af Símeons ættqvíſl, tólf þúſ- 7.
und innſigladir; af Leví ættqvíſl
tólf þúſund innſigladir; af Iſa-
ſchars ættqvíſl tólf þúſund innſigl-
adir; af Sebúlons ættqvíſl, tólf 8.
þúſund innſigladir; af Jóſephs
ættqvíſl, tólf þúſund innſigladir; af
Benjamins ættqvíſl, tólf þúſund
innſigladir. Enn framar ſá eg, og 9.
ſjá! þar var ſkari mikill á hvørn enginn
gat tølu komid, af øllum þjódum og
ættum og fólk-breytíngum og túng-
um; þeir ſtódu frammi fyrir veldis-
ſtólnum og lambinu, ſkrýddir hvítum
ſídum klædnadi, og høfdu pálmvidar-
greinir í høndum ſér, og þeir kølludu
hárri røddu og ſøgdu: frá vorum 10.
Gudi, ſem á veldis-ſtólnum ſitur, og
lambinu, kémur frelſid. En allir 11.
englar ſtódu umhverfis veldis-ſtólinn,
og kríngum Øldúngana, og kríngum
þau fjøgur dýr; og þeir féllu áſamt
fram fyrir veldis-ſtólinn á andlit ſín,
og tilbádu Gud og ſøgdu: Amen! 12.
lof og dýrd og ſpeki og þacklæti og
vegſemd og kraptur og ſtyrkleiki ber
Gudi vorum um-alla eilífd, Amen!

13.

13. En einn af Oldúngunum yrdti á
mig og spurdi: hvørjir munu þeir
vera, sem hér eru sídum hvítum klædn-
adi skrýddir? og hvadan munu þeir
14. ad vera? eg svaradi honum: þú veitst
þad, Herra minn! þá sagdi hañ vid
mig: þetta eru þeir, sem úr hinni
miklu þjáníngu komnir eru, og klædi
sín hafa þeir hrein-þveigid og hvít-
15. fágad í lambsins blódi. Þess vegna
eru þeir nú hér fyrir hástóli Guds,
og dýrka hann dag og nótt í hans
musteri, og sá sem á veldis-stólnum
16. situr, skal þeirra hlíf vera. Hédan
af skal þá hvørki húngra né þyrsta,
ecki heldur skal sú heita sól eda nock-
urr annar brúna-hiti yfir þá koma
(þeir eru frîir frá ollu, sem ógledi má
17. valda). Því lambid, sem er midt
frammi fyrir veldis-stólnum, skal
vera hyrdir þeirra, og vísa þeim
veg til rennandi vatns-linda, og
Gud mun þerra allann grát af
þeirra augum.



Pridji

# Þridji Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Hegníngar-dómurinn rætist um sídir á Guds frekn forsmánurum, sem þverskallast hafa vid hvørja advorun, og þeir styrkja sjálfir til þeirra fullkomnu eydileggíngar, med innbyrdis ófridi, um leid og útvortis óvinir á þá herja.

1. Villtir upphlaups-menn, og vidsjálir afvega-leidendur vekja herfilegustu flocka-drætti, morgum þúsundum til tjóns.

Jóh. Opinb. 8 Kap. v. 1-13.

Eptir þad opnadi (Lambid) sjøunda innsiglid, (á hinum seinasta og innsta Pergaments-stránga, sem þá raktist sundur), og hljódt vard á himni hér um hálfa 1.
stund (til ad minna á, ad því óttalegra stormvidri væri í vændum). Þá vard 2.
mér litid til þeirra sjø engla, sem standa frammi fyrir Gudi; þeim
bóru géfnar sjø básúnur. En þá kom 3.
þar annar engill, sem hafdi gull-reykélsis-kér í hendi, og stadnæmdist hjá altarinu; mikid reykélsi var honum géfid, ad hann, medan bænir allra hei-

 lagra

lagra gjørduſt, ſkyldi láta þad á gull-
altarid, ſem ſtód fyrir veldis-ſtólnum.
4. Og reykurinn af þeſſu reykélſi upp-
ſteig fyrir Gud frá engilſins hendi,
5. medan bænir heilagra yfirſtódu; þá
tók engillinn reykélſis-kérid, og fyllti
þad med eld af altarinu, og ſnaradi
honum á jordina. Þá gjørdiſt gnýr
mikill og reidar-þrumur og eldíngar
6. og jardſkjálftar. En á medan bjuggu
ſig þeir ſjø englar, ſem ſjø báſúnur
7. høfdu, undir ad þeyta þær. Þá þeytti
hinn fyrſti engill báſúnuna: þá féll
hagl og eldur blódi blandinn á jørd
ofan: þridji hluti trjánna ſvidnadi og
allt græn-greſid brann til øſku (manns-
8. dráp og ſtyrjøld hóſſt í lándinu). Ann-
ar engill þeytti þá lúdur: þá var, ſem
miklu loganda fjalli væri í ſjóinn varp-
ad, og þridji hluti hafſins vard ad
9. blódi; þridji hluti lifandi ſképna í
ſjónum dó; þridji hluti ſkipanna förſt,
10. (ſjó-víkingſkap er framhaldid). Hinn þridji
engill blés í báſúnu, og ſtjarna mikil
(venjuleg kennenda fyrirmindan) logandi,
ſem blis, féll af himni og fleygdiſt yfir
þridja hlut vatns-fallanna og yfir
11. lækina, og heiti ſtjørnunnar var
Mal-

Malurt; þridji hluti vatnanna
vard, sem Malurt, og fjøldi manna dó
af vøtnunum, því þau vóru beisk ord-
in (banvænn villu-madur útdreifir skad-
vænum grundvallar-reglum, og trublar fjølda
manna, sem sneydast allri huggun og end-
urnæringu). Hinn fjórdi engill þeytti 12.
básúnu: þridjúngur sólarinnar og
þridjúngur túnglsins og þridjúngur
stjarnanna skémmist, svo ad þrid-
júngur þeirra verdur formyrkvad-
ur, og daginn brast þridjúng birtu
sinnar, og eins fór um nóttina. (hin
skelfilegasta óregla útbreidist allstadar med-
al hárra og lágra, svo engin von var fram-
ar um bærilegra ástand). En undir 13.
eins og eg sá, heyrdi eg líka ørn fljúga
hvert um loptid, sem skrækti há-støf-
um: vei! vei! vei! yfir innbyggendur
landsins, søkum hinna básúnu-hljóm-
anna, þegar hinir þrír englar enn þá
ega ad básúna (fyrirbodi um þýngri plág-
ur bædi af útvortis og innvortis óvinum).

Jóh. Opinb. 9 Kap. v. 1-11.

Þá blés hin fimti engill í básúnu, og 1.
eg sá stjørnu, sem af himni var til jard-
ar fallin; henni var géfinn lykill ad
brunni undir-djúpsins. Og, sem hún 2.

opnad hafdi undirdjúps-brunñiñ, steig
reykur upp úr brunninum, eins og
reykur úr miklum ofni, svo bædi sólin
og loptid formyrkvaduft af brunn-
3. reyknum. En úr reyknum kómu engi-
sprettur út um landid, og þeim var
géfin som makt og Skorpíónar ann-
4. ars á jördu hafa. Og þeim var sagt:
ad ecki mættu þær merkur-sædinu
granda, né nockurri jurt eda nockru
tré, einúngis mættu þær qvelja þá
menn, sem ecki hefdu þad innsiglid
5. Guds í ennum sér. Þeim var vald
géfid ad qvelja þá í fimm mánudi, en
ecki deyda þá, og sú qvøl, sem þeir ollu,
var, sem qvølin, sem af því hlýtst, þeg-
6. ar Skorpíón stíngur manneskju. Á
sömu dögum munu manneskjurnar
daudans leita (til ad komast hjá þeirra
qvøl) en þó ecki finna hann, þeir munu
fyrir sig kjósa ad mega deyja, en
7. daudinn skal frá þeim flýja. En
engisspretturnar vóru útlits líkar víg-
búnum hestum, á höfdum sér höfdu
þær eins og kórónur, sem úr gulli
virdtust vera, og andliti þeirra vóru
8. eins og manneskju andlit, og þær
höfdu hár, eins og qvenna-hár, og
tenn-

tennur þeirra, vóru svo sem ljóns-
tennur. Herklædi höfdu þær, eins 9.
og járn-herklædi, og gnýrinn af væng-
inn þeirra var svo sem gnýr af vögn-
um, med mörgum hestum fyrir, sem
fara til strids. Þær höfdu hala, sem 10.
Skorpíónar, og brodda á hölunum;
en vald þeirra til ad qvelja mennina
varadi í fimm mánudi. Þær höfdu 11.
einninn höfdíngja yfir sér, engil undir-
djúpsins, nafn hans er á hebresku A-
baddon; á grísku heitir hann Apol-
lyon (sem þydir: spillvirkinn).*)

2.) Voldugir útvortis óvinir vada inn flockum saman, undir eins og ófriki og manndráp drottnar innbyrdis hjá fólkinu, uns eydileggíngin fullkomnast.

Jóh. Opinb. 9 Kap. v. 12-21.

Hid fyrsta vei er aflidid, sjá! tvö vei 12.
eru enn væntanleg héreptir, sjötti 13.
engillinn blés í básúnu: og heyrdi

 roddu

*) Einkanlega sýnist ad í allri þessari fyrirmyndun sé útmáladur óttalegur flockur ræníngja, sem vedur um allt, er rasandi af heipt, og kollvarpar öllu, til ad gjeta framqvæmt sinn vilja, eins og Sydínganna Sagna-skrifari Jósephus segir frá Zelótunum, hverja hann og engi spéttur nefnir.

roddu frá fjórum hornum gull-allt-
arisins, sem stód frammi fyrir Gudi;
14. hún sagdi vid hinn sjøtta engil, sem
básúnuna hafdi: leystú þá fjóra engla,
sem vid fljótid Euphrat bundnir eru!
15. þá vóru þeir fjórir englar leystir, og
vóru vidbúnir, á hvada stundu eda
degi eda mánudi eda ári (sem Drottinn
skipadi) til ad tortýna þridjúngi mañá
16. (í landinu). Þeirra riddara-lid var ad
tølu tíu þúsundsinnum tíu þúsundir:
17. eg heyrdi þess tølu. En í sýninni gaf
mér svo hestana og og riddarana á ad
líta: ad þessir høfdu eld-raud, svart-
blá og brennusteins-lit herklædi; en
høfud hestaña, vóru sem ljóns-høfud,
og úr muñi þeirra gaus eldur og reyk-
18. ur og brennu-steinn. Med þessum
þremur plágum af eldinum, reykn-
um og brennu-steininum, sem gaus
úr munnum þeirra, fórst þridjúngur
mannanna; því máttur hestanna
19. er í munni þeirra og í halanum. Hal-
ar þeirra eru eins og høggormar, á
hvørjum høfud eru, med hvørjum
20. þeir skada gjøra. En hinar mann-
eskjurnar, sem plágur þessar svíptu
ecki lífinu, yfirgáfu þó ecki verk sinna
handa,

handa, svo ad þeir legdu af ad tilbidja vonda anda eda skúrgoda líkneskjur úr gulli og sylfri og kopar og steinum og tré, sem hvørki gátu sied eda heyrt eda gengid; ecki heldur sneruſt 21.
þeir frá mord-girni sinni, né eitur-birlun, eda laus-læti, né þjófnadi þeirra. (hid skélfilegasta eptirdæmi Guds réttvísu hegníngar yfir hinu þverskallada fólki, verkadi litla athugasemd eda betrun hjá hinum odrum af þessari ásguda-dýrkunarfullu og gjörspilltu manna kynqvísl).

Jób. Opinb. 10 Kap. v. 1, 11.

1. Eptir þad sá eg annann voldugann engil koma af himni ofan, umvafinn skýi og regnbogi var um høfud hans, andlit hans var sem sólin, og fætur hans sem eldstólpar. Hann hafdi 2.
samanvafinn bækling í hendi sér, hægra fótinn setti hann á sjóinn og hinn vinstra á jørdina. Sídan kalladi hann sterk- 3.
um rómi, svo sem þá ljón øskrar, og þegar hann kalladi, heyrdust dunur af þeim sjø reidar-þrumum; en þeg- 4.
ar þær sjø reidar-þrumur dunid høfdu, ætladi eg ad taka til ad skrifa; en rødd heyrdi eg af himni, sem sagdi vid mig: innsigla þú þad, sem þær sjø

reidar-þrumur létu heyra (geym þad hjá sjálfum þér), en skrifa þad ecki upp.
5. Þá upphóf engillinn, hvörn eg sá standandi á sjó og jørdu, sína hœgri
6. hønd til himins, og sór vid hann, sem lifir um alla eilífd, vid hann, sem skapadi himininn og hvad í honum finst, sømuleidis jørdina, og hvad á henni er og sjóinn, og hvad í honum er, ad nú skyldi ecki lengri frestur géfast (eydilegging þess gudlausa fólks skal ecki
7. lengur undandragast); en í þeim døgum, sem hinn sjøundi engill lœtur rødd sína heyra, þegar hann fer til ad básúna, skal og Guds heimugleg áqvardan framqvœmast eins og hann hét sínum þjónum Spámønnunum (ad sønn trú skuli ecki framar vid eina Gydinga bundin vera, heldur útbreidast
8. medal allra þjóda). Þá taladi og sú rødd, sem eg heyrdi af himni, aptur til mín og sagdi: fardú burt, og medtak þann litla samanvafda bœkling, sem engillinn heldur á, sá ed stendur á sjó
9. og jørdu. Eg géck þá til engilsins, og bad hann um bœklínginn; hann sagdi vid mig: tak hann og et upp! ad sønnu mun hann valda qveisu qvidi þínum,

en

en gómsætur skal hann þér vera, sem
hunáng (sem sannleikans kennara, mun
þér gèdfeldt verda ad vitna um, hvorsu
Gud uppfyllt hafi sínar ágvardanir, jafnvel
þó fólksins straungu forlög liggi þér þúngt
á gèdi). Þá tók eg vid bæklínginum 10.
af hendi engilsins, og át hann upp,
og í munni var hann sætur, sem hun-
áng, en þegar eg hafdi etid hann upp,
orsakadi hann qveisu í qvidi mínum.
Þá sagdi hann vid mig: þú hlýtur á 11.
ný ad spá fyrir fólki og þjódum og
túngumálum og mörgum Furstum.

Jóh. Opinb. 11 Kap. v. 1-18.

Þá var mér reyr-stafur gèfinn, sem 1.
qvardi. En engillinn stód enn þá og
sagdi: bú þig til, og mæl þad Guds
musteri, ásamt altarinu og þá, sem
þar inni fyrirbidjast. En fráskil hinn 2.
ytsta forgard musterisins, og mæl hann
ecki, því hann var heidíngjunum á
vald gèfinn; þá heilögu borg (Jerú-
salem) munu þeir í fjörutýgi og tvo
mánudi illa útleika. En eg vil þó 3.
fela mínum tveimur vottum á hend-
ur, ad spá (til vidvörunar) í þúsund tvö
hundrud og sextýgi daga, huldum í
secki (til merkis um þeirra þúngbæru hrigd).

4. Þessir eru þau tvø olíu-tré, edur þeir
tveir ljósa-stjakar, sem standa fyrir
Drottni jardarinnar; vilji nockurr
misgá sín vid þá, gỹs eldur út af munn-
um þeirra og gjøreydir óvinum þeirra
(enginn fær motstadid þeirra kroptuga vitnis-
5. burdi), þanninn hlýtur hvørr einn ad
tortýnast, sem lángar til ad gjøra á
6. þeirra hluta. Þeir ega rád á ad byrg-
ja himininn, svo ecki rigni um þeirra
spádóms-daga; þeir hafa og umrád
yfir vøtnunum, ad breyta þeim í blód,
og nær sem þeir vilja, ad slá jørdina
med allshá ttar land-plágum (Drott-
ins hønd skal vera med þeim, svo sem
med Móse og Eliasi fordum daga, til
7. ad typta þá ógudlegu). En þegar þeir
hafa sinn vitnisburd til lykta leidt,
skal dýrid, sem stígur upp frá undir-
djúpinu (flockur frekra ofríkis-manna) á
8. þá herja, og vinna þá og aflífa. Lík
þeirra liggi á strætum hinnar stóru
borgar, sem í spámannlegu máli Só-
dóma og Egypta-land nefnist, í
hvørri þeirra Drottinn einninn er
9. krossfestur. Og á medal fólksins og
ætt-qvíslanna, túngumálanna og þjód-
anna munu þeir vera, sem sjá lík
þeirra

þeirra þannveg liggja, í þrjá daga og hálfann betur; og það skal ecki leyfast að grafa líkami þeirra. 
10. En landsins innbyggendur munu gledjast yfir þeim, og gladvœrir vera, og sendast skeinkingum á; því þessir tveir Spámenn hafa innbúum landsins plága verið. 
11. En eptir þrjá daga og hinn hálfa, kom lífsandi frá Gudi í þá og þeir rísu á fœtur; þá féll ótti mikill yfir þá, sem þá sáu. 
12. Þá heyrdi eg háa röddu af himni, sem við þá sagdi: stígið upp híngað! og þeir fóru upp til himins í einu skýi, og óvinir þeirra sáu þá sjálfa (það, sem þeir tveir vottar svo opt höfðu áminnt Guðs foraktara um, tók nú að uppfyllast, svo hvorr einn mætti berstnilega sjá, að áminning þeirra var Guds egið ráð). 
13. Og á sömu stundu gjördist jarðskjálfti mikill, og tíundi hluti borgarinnar hrapaði niður, og sjö þúsund manna fyrirfórust í jarðskjálftanum (öll frelsis von hverfur þegar nýjar þjáningar ádynja); en þeir, sem eptir vóru, skélfdust, og gáfu Gudi himinsins dýrdina (medkéñdu hans voldugu hönd). 
14. Hið annað vei er afstaðið; sjá! hið þridja vei kémur brádlega

(sem

15. (sem leidir endileggínguna til lykta). Þá
blés hinn sjøundi engill í básúnu:
voldugar raddir heyrdust í himnin-
um, sem søgdu: yfirdrottnan jardar-
innar er ordin vors Drottins og
hans smurda, og hann skal stjórna um
alla eilífd! (Þegar gydínga-dómurinn um-
turnadist, vard sigur kristinndómsins yfir
16. hjátrú og vantrú á jordu ódhultari). En
þeir tuttugu og fjórir Oldúngar, sem
sátu í hásætum sínum frammi fyrir
augliti Guds, féllu fram á sínar á-
17. sjónur tilbádu Gud og søgdu: vér
þøckum þér, Drottinn! hinn al-
máttugi Gud! þú, sem varst og
ert og verdur, ad þú sýnt hefir þitt
mikla vald, og stiptad þitt ríki.
18. Fólkid sár-heiptadist, en hegníng þín
er komin, og mál var komid til ad
láta hina daudu ná rétti sínum, og
útbýta launum medal þinna þénara,
Spámannanna og hinna heilogu
og þeirra, sem óttast þitt nafn,
bædi smárra og stórra og ad um-
turna þeim, sem jordunni umturn-
ad hafa.



I ta

# I^ta Suñudag i Niuvikna-fostu.

## Adal-hugleiding.

Jesús lætur ei af ad innræta sinum tilheyrendum, verdugt og frjóssamt skynbragd á trú og gudsdýrkun.

## Fyrsti Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Gud vill hvervetna dýrkast af øllum, med því ad menn upplypti sálunni til heilagra hugleidínga og eptirlángana, án sansalegs yfirlætis.

1.) Jesús kennir, ad hin sanna dýrkun, sem Gudi þócknist, hvorki sé bundin vid vissann stad, nè tilteknar útvortis æfingar, heldur egi honum ad veitast af hreinu og følskálausu hjarta.

Jóh. Gudsp. 4 Kap. v. 1.26.

1. Þegar nú Herrann (Jesús) vissi, ad Pharisæunum hafdi borist til eyrna, ad menn søgdu: Jesús útvegar sér og skírir fleiri lærisveina enn

2. Jóhannes; jafnvel þó Jesús sjálf-
ur skírdi ecki heldur lærisveinar hans:
3. Þá yfirgaf hann Júdæu, (svo hañ ætti
þá ei upp), og ferdadist aptur til Ga-
4. líleu; en hann vard ad leggja leid sína
5. um Samaría; þá nálgadist hann
þorp eitthvørt í Samaría, sem
Sichar nefndist, í grend vid þad
lands-pláts, sem Jakob gaf Jóseph
syni sínum (1 Mós. b. 33, 19. 20. 48, 22.)
6. Þar var og Jakobs brunnur. En
med því Jesús var ferdlúinn, settist
hann nidur hjá brunninum; þad var
nærri sjøttu stundu (um middegis leiti).
7. Þá kom samversk qvinna, til ad ausa
upp vatn; Jesús sagdi vid hana: géf
8. mér ad drecka! því hans lærisveinar
voru til þorpsins gengnir, til ad kaupa
9. nockud til matar; hin samverska
qvinna sagdi vid hann: hvørsu mátt
þú bidja mig um dryck, þared þú Gyd-
íngur ert, en eg er samversk kona? því
Gydíngar hafa enga umgengni med
Samverskum, (svo hvorki hafa þeir mál-
bragd vid þa, né þyggja neitt af þeirra hendi).
10. Jesús svaradi og sagdi vid hana: ef
ad þú vissir, hvad Gud veitir þér, og
hvørr sá er, sem vid þig sagdi: géf mér
ad

ad drecka! þá mundir sjálf þú bidja
hann og hañ gæfi þér hid lifanda vatn
(uppsprettu vatn, sem í heitum löndum
haldid er hin best lifgandi endurnæríng).
Qvinnan sagdi vid hann: Herra! þú 11.
hefir eckért til ad ná vatninu med, en
brunnurinn er djúpur; hvadan ad
fær þú þá hid lifanda vatn? muntú 12.
meiri vera Jakob fodur vorum, sem
gaf oss brunninn? og sjálfur drack
hann úr honum, børn hans og hyski.
Jesús svaradi og sagdi vid hana: 13.
hvorr, sem dreckur af þessu vatni, hañ
þyrstir þó aptur; en hvorr, sem dreck- 14.
ur af því vatni, sem eg vil géfa honum,
hann skal aldrei framar ad eilífu
þyrsta; því þad vatn, sem eg vil géfa
honum, skal honum ad uppsprettu-
lind verda, sem rennur inn í eilíft líf
(veitir honum eilífa svolun og farsæld);
þá sagdi qvinnan vid hann: Herra! 15.
géf mér þetta vatn, svo mig þyrsti ei né
eg þurfi ad fara híngad til ad ná vatni.
Þá sagdi Jesús vid hana: (til ad leida 16.
þánka hennar frá hinu sansalega til hærri
umþenkíngu) far burt, sæk mann þinn,
og kom híngad aptur! qvinnan svar- 17.
adi honum og sagdi: engann mann á

eg.

eg. Jesús sagdi vid hana: satt er þad;
18. þú segir: eg á engann mann! fimm
menn hefir þú átt, en sá þú hefir nú, er
ecki þinn madur! þad sagdir þú satt.
19. Þá sagdi qvinnan vid hann: Herra!
20. eg sje ad þú ert Spámadur. Vorir
fedur hafa framhaldid andakt sinni
á þessu fjalli (Garisims-fjalli, hvar Sam-
verskir musteri bygt høfdu, í hvørju þeir
dýrkudu Gud, eptir Mósis løgmáli, hvør-
ju nú var búid ad umturna); en þar á
mót segid þér: ad í Jerúsalem sé stad-
urinn, hvar Gud hátídlega dýrkast
21. egi. Jesús sagdi vid hana: qvinna!
trú mér til, þeir koma tímarnir, ad þér
hvørki á fjalli þessu né í Jerúsalem,
munud Fødurnum sína dýrkun færa,
22. (eptir vissum áqvørdudum sidvenjum). Eins
og þér haldid ydar andakt, vitid þér
þó ecki, hvørt svo vera egi (vegna
þess gudlega skipun því vidvíkjandi vantadi),
en eins og vér høldum vora andakt,
vitum vér þó ad svo hæfir (vegna þess
sjálfur Gud bannadi ad offra sér nema á
þeim stad, sem sjálfur hann tiltæki, 5 Mós.
b. 12, 5. 6., sem er musterid í Jerúsalem,
2 Kron. 7, 12-16), og svo kémur frelsi-
id (fyrir Messias) einungis frá Gyding-
um.

um. En sá tími mun koma, og er þeg- 23.
ar fyrir höndum, ad sannir guds-dýrk-
arar, munu tilbidja födurinn í anda
og sannleika (med því ad upplýsta sálu
sinni til heilagra hugleidínga og laungun-
ar eptir hreinum Evangelii lærdómi, án
fórnfæringa edur þesshàttar sida). Gud 24.
er andi (og skeytir því ei sanfalegum lysti-
semdum), því er þad skylda þeirra, sem
hann dýrka vilja (verduglega) ad tilbid-
ja hann í anda og sannleika (med sál-
arinnar þaunkum og eptirlaungunum, sem
samqvæm séu þeim hreina lærdómi, sem
um hann kunngjörist). Þá sagdi qvinn- 25.
an vid hann: eg veit ad Messías kém-
ur, þad er sá (leggur Gudspjallamadurinn
út), sem Kristur nefnist; og þegar
hann kémur, skal hann fræda oss á
öllu. Jesús svaradi henni: og eg, sem 26.
vid þig tala, er nú sá sami.

2.) Jesús sýnir ad erindi hans á jördina,
midi til ad út-breida allstadar hina sönnu trú,
án manngreinar álits, þjódar eda kynferdis.

Jóh. Gudsp. 4 Kap. v. 27-42.

Í sama bili (og Jesús taladi vid hina 27.
samverska) kómu lærisveinar hans, og
þeir undrudust nærsta ad hann hefdi
málbragd haft vid qvinnu þessa; þó

sagdi enginn þeirra: ad hvørju spurd-
ir þú? eda um hvad varst þú ad tala
28. vid hana? Þá skildi qvinnan eptir
fotu sína, géck inn í þorpid og sagdi
29. vid folkid: æ! komid og sjáid hérna
mann, sem sagdi mér allt hvad eg
hefi adhafst! skal hann ecki vera Mes-
30. sías? Þá gengu menn út af þorpinu
31. og héldu á hans fund. Þá bádu
læriſveinarnir hann og sogdu: Meist-
32. ari! neyt þú matar. En Jesús svar-
adi þeim: þann mat hefi eg til nautn-
33. ar, sem þér þeckid ecki. Þá sogdu
læriſveinarnir hvørr vid annann:
mun nockurr hafa fært honum eitt-
34. hvad ad eta? Jesús sagdi vid þá:
minn matur er (mitt yndi og endurnær-
ing) ad framqvæma vilja þess, sem
sendi mig, og afljúka því, sem hann
35. vill gjøra láta. Er ecki svo! ad þér
erud vanir ad segja: fjórir mánudir
eru (frá sádtímanum) þángad til
uppskéru-tíminn kémur (lengi má
bída þángad til menn uppskéra ávoxt ydju-
sinnar; sángt lídur ádur sannleikur fær
framgáng í Samaría); sjáid! eg segi ydr-
ur þaránióti: lítid upp ad eins, og
sjáid yfir akrana, þeir eru þegar hvítir
til

til haust-yrkju! (hid samversko fólk, sem sáist er á ad læra, drífur nú þegar híngad ad, til ad sá uppfrædíngu); hér fær korn- 38.
skurdar-madurinn verd-laun (hans erf- idi er ecki eptirtekjulaust) og hann safn- ar ávextinum til eilífs lífs (ecki til skam- vinnrar heldur eilífrar gledi), svo bædi sádmadurinn og kornskurdar-mad- urinn géti samgladst hvørr ødrum, (hjá fólki þessu skal uppfrædíng lærisvein- anna, þá framlída stundir, ecki ávaxtarlaus verda). Hér á máltækid vid: einn sá- 37.
ir, en annar uppskér. (Jesús lagdi grund- vøllinn til upplýsingar þeirrar, sem sídar- meir fyrirhafnar-lítid fyrir hans lærisveiná þróast átti). Eg útsendi ydur til ad 38.
uppskéra þad, sem þér ecki hafid haft ómak fyrir (ad sá í jordina), adrir hafa ómakid haft, og þér finid verkid búid (hid torveldasta stark, ad sá í jordina, því, sem sídan á med ávexti ad uppskérast, vann sjálfur Jesús: hann innrætti fyrsta grund- vallar sannleikann hinum bæsdu hjørtum, og gjørdi á þann hátt því audveldara fyr- ir lærisveinana ad uppfræda sídarmeir).
En margir samverskir menn í þorp- 39.
inu høfdu þegar lagt trúnad á hann, vegna qvinnunnar vitnisburdar, med því hún stødugleg framdar: hann

sagdi mér allt, hvad eg gjørt hefi.
40. Þegar nú samverskir komu til hans, bádu þeir hann, ad dvelja nockra stund hjá þeim, og hann stadnæmdist þar í
41. tvo daga. Margir fleiri urdu nú
42. sannfærdir af kénníngu hans. Þá søgdu þeir vid qvinnuna: nú trúum vér ecki framar vegna þíns framburdar; því vér høfum nú sjálfir heyrt, og erum komnir ad raun um, ad hann vissulega er Frelsari heimsins, Messías.

# Annar Argángur.

## Høfud-lærdómur.

Sønn trúarbrøgd láta krapt sinn í ljósi, med því ad laga hjartad, og verka þá dygd, sem ecki er í ordum innifalin, heldur vottar sig í sinnislagi og framferdi.

1.). Jesús útmálar þá réttu eginlegleika, sem einkénna hina sønnu dygd, og leidir einninn fyrir sjónir, hvílík farsæld af því hljótist.

Matth. Gudsp. 5 Kap v. 1-20.

1. Þegar Jesús einusinni leit margt fólk umkríngja sig, géck hann uppá fjall nockurt, og þegar hann var þar setstur, kómu hans lærisveinar til hans.

Þá

Þá lauk hann upp sínum munni, 2.
kénndi þeim og sagdi: sælir eru hin- 3.
ir fátæku, í andlegann máta ad skilja
(sem ecki þykjast miklir vera); því himna-
ríkid er þeirra; (þeir eru hæfastir til ad
medtakast í þad nádar-ríki, sem Messias
stiptar) sælir eru þeir, sem kéña sorgar 4.
(yfir brestum þeirra og ófullkomlegleikum).
Því hugsvölun skal þeim veitast. Sæl- 5.
ir eru hógværir, því þeir skulu med
fridi í landinu búa. Sælir eru þeir, 6.
hvörja húngrar og þyrstir (lángar sem
innilegast) eptir réttlætinu (ad finnast
rádvandir og þócknanlegir í Guds ángliti),
því þeir skulu sedjast (og fá laungun
sinni fullnægt). Sælir eru miskunsam- 7.
ir; því þeir skulu miskun hljóta.
Sælir eru hreinhjartadir (óflecfadir af 8.
vondum girndum), því þeir munu Gud
sjá (og komast í náqvæma sameiníngu vid
hann). Sælir eru fridsamir, því þeir 9.
munu Guds born kallast (og hafa hlut-
deild í hans fodur-ást, svo sem honum líkir
ad sinnislagi). Sælir eru þeir, sem of- 10.
sókn mæta fyrir gódann málstad; því
þeirra er himnaríkid (þeir meta mest hina
sælu von um betra líf vegna Messíasar,
hvar trúfestin fer ecki sinna verdlauna á mis).

11. Sælir erud þér (mínir lærisveinar!) þeg-
ar menn spotta ydur og ofsækja, og
tala allsháttar íllt um ydur mín
12. vegna, sé þad og lýgi; gledjist þá og
fagnid, því ydar verdlaun skulu marg-
føld verda á himni. Því þanninn vóru
og Spámennirnir ofsóktir, sem fyrir
13. ydur vóru. Þér erud sallt jardar
(áqvardadir til ad endurbæta menina med
ydar kénningum, eins og salltid bætir
smeck matarins, og ver hann rotnun!)
en dofni salltid, hvørsu á þad þá ad fá
sinn krapt aptur? þá er þad til einkis
nýtt nema ad varpast út og fót-trod-
ast. (svo vidurstyggileair eru sannleiksins
kénnendur, þegar þeir sjálfir ødruvísi brevta,
14. enn þeirra egin kénning út-krefur). Þér
erud ljós heimsins! (áqvardadir til ad
útrýma vanþeckingar-myrkri, med upplýs-
andi undirvísun); sú borg, sem á fjalli
stendur fær ei dulist (ydar minnstu yf-
irsjónir, eru øllum augljósar, sokum þess
þér Kénnendur erud, á hvorra framferdi
15. mark er tekid). Menn qveikja ei held-
ur ljós til ad setja þad undir mælir,
heldur á ljósa-stjakann, og þá skín þad
16. fyrir øllum, sem í húsinu eru. Látid
því ydar ljós lýsa svo fyrir monn-
unum,

unum, ad þeir fái sied góðverk ydar og vegsamad fodur ydar, sem á himnum er (lærisveinarnir hljóta, svo sem kennendur, ad ligaja ecki á gáfum sinum, heldur med hinni mestu kostgjæfni nytsamir vera, og gánga undan odrum med gódu eptirdæmi, án þess ad sækjast þar med eptir eginn losstyr, heldur einúngis Guds dyrd).
Ecki megid þér ætla, ad eg kominn sé 17.
til ad svipta logmálid og Spámenn-
ina gyldi (leggja af Guds ord), ecki kom
eg til ad aftaka, heldur til ad uppfylla
þad (stadfesta ordid og framqvæma þad).
Því eg segi ydur satt og víst: þáng- 18.
ad til himin og jørd forgánga, skal
ecki hinn minnsti bókstafur eda einn
einasti púnktur af logmálinu for-
gánga (af ollu Guds ordi, sem eptir tals-
hætti Gydínga skildist undir þessu), ádur
enn allt fullkomnad verdur, (sem ord-
id útheimtir og áqvardar). Hvorr þess 19.
vegna, sem brýtur eitt einasta af þess-
um minnstu bodordum (vylar ecki fyrir sér ad hlidra sér hjá einni skyldu, sem honum synist í minna lagi árída, jafnvel þó Gud hafi hana bodid), og kénnir
mønnum svo ad breyta, hann skal
minnstur þykja í himnaríki (sær ecki

þá vegsemd, sem sannarlegir limir Mest
siæ nádar-ríkis ega ad-keppast eptir, hvörs
sanna vegsemd innifalinn er í því, ad gæta
vareygdarsamlega alls þess, sem Gud bodid
hefir), en hvörr þad heldur og kénnir,
skal mikill álítast í himnaríki (verdur
fyrir sína hreinskilnu hlýdni, hinn verdug-
20. asti borgari Jesú nádar-ríkis). Því eg
segi ydur fyrir víst, ad ef ydar rád-
vendni tekur Pharísæanna og skrift-
lærdra ecki mikid fram, *) þá komist
þér engannveginn inn í himnaríkid
(svo sem þeir, er reynast ad öllu leiti ó-
hæfir til ad ná borgar-rétti í nádarinnar
ríki, sem Messías kom til ad stipta á jörd-
unni, til dygdar og farsældar eblíngar).

2.) Jesú játendur ega ecki ad láta sér nægja,
ad lofa einúngis nafn hans, heldur hljóta þeir
ad breyta eptir hans lærdómi, og audsýna í
verkunum, ad þeir af öllu hjarta ræki trú sína.
Matth.

*) Hinir lærdu medal Gydínga gjördu mun á hin-
um stærri og smærri Guds bodordum; medal
hinna stærri vóru margar tilskipanir, áhrærandi
útvortis gudsdýrkun, taldar, en harla mikilvægar
skyldur vóru reiknadar med þeim minni, sem ecki
þókti þurfa á sig ad setja. En Jesús fortekur
allann mismun og kjennir, ad öll Guds bodord
egi oss jafn heilög og dýrmæt ad vera.

Matth. Gudsp. 7 Kap. v. 13-29.

Jesús áminnir í fjall-prédikun sinni:
Gángid inn um hid þraungva hlid 13.
(á veginum til farsældarinnar), því vídt
er þad hlid og breidur er vegurinn, sem
til tjónsins leidir, og þeir eru margir,
sem þar um gánga. En þraungt er 14.
hlidid og mjór er vegurinn, sem til lífs-
ins liggur og fáir, sem rata þad *)
Varid ydur á fals-spámønnum, sem 15.



*) Manneskjurnar, sem allar vilja farsælar verda, eru hjer settar fyrir sjónir, sem gángandi tvo vegi, til farsældarinnar musteris: annar er breidur og um hann hægt inn ad komast, og því velja flest-ir hann. En þad er háskaleg villu-gata, sem leid-ir lángt burt frá hinni sønnu farsæld, og ad lyktum til þúsundfaldra eymda; þad er lasta og ódygda vegur, sem gjedjast þegar frá upphafi gjálífum mønnum, vegna þess hann sýnist þeirra sønsum svo yndislegur og lockandi; en lestirnir leida náttúrlegt straff eptir sig, sem ecki verdur hjá komist. Hinn annar vegur er þraungur, og þegar frá øndverdu torveldur yfirferdar, og þess vegna velja fáir hann; en þessi er þó rjetti vegurinn, hann er vegur dygdanna, sem ad sønnu í fyrstu verdur ecki fyrirhafnar-laust genginn, þared vondra girnda áráfir útheimta hardt stríd. En ad lokum verdur hid audsýnda stødugløndi med því yndælli huggun og gledi umbunad.

í sauð-skinns klæðum koma til ydar (hræsnarar, sem saklausir vilja sýnast, og Guði áhángandi, hvors mál-efni þeir eins úngis hafi fyrir augna-mið), en eru þó innvortis glepsandi úlfar (ofundsjákir,
16. ágjarnir og óforlíkanlegir). Af þeirra á- vøxtum (þeirra fyritækium) skulud þér læra að þeckja þá. Verða vínberin samanlesin af þyrnum? eða fíkjur af þistlum? (á vondu tré vex ecki gódur á-
17. vøxtur). Það er þó víst, að sérhvørt gott tré ber gódann ávøxt, og að eckért vondt tré er til, sem ei beri vond-
18. ann ávøxt. Gott tré gétur ecki borið vonda ávexti, ecki heldur gétur vondt
19. tré góða ávexti borið. En sérhvørt tré, sem ecki ber gódann ávøxt verður upphøggvið og kastað í eld (þanninn tapar útvortis virðíng fyrir dygð og trú ollu sínu gyldi, sjáist það ecki í verkum og framferði að hún sé følskalaus og hrein-
20. skilin). Því gétið þér auðveldlega þeckt
21. þá af ávøxtum þeirra. Ecki mun hvørr einn, sem segir við mig: Herra! Herra! (viðurkénnir mitt nafn og lofar mig) innkomast í himnaríkið, heldur sá, sem gjørir vilja míns himneska Føðurs (einúngis þeir, sem kosta kapps um

um ad þócknast Gudi med fásri hlýdni,
eru sannir borgarar í nádar-ríkinu á jordunni,
og hafa grundada von um eilífa farsæld).
Á þeim degi munu margir vid mig 22.
segja: Herra! Herra! höfum vér ecki
spád í þínu nafni (kunngjort þinn lærdóm, og þin vegna hvatt menn til ad meta
hann mikils)? höfum vér ecki útrekid
vonda anda í þínu nafni, og gjört
mörg markverd verk í þínu nafni
(sjálft í öllum vorum fyrirtækjum, til þess
ad útbreida þinn lærdóm, borid þínar skip-
anir fyrir oss, svo sem þínir trúfastir læri-
sveinar). En þá mun eg segja þeim med 23.
ljósum ordum: aldrei hefi eg vid ydur
kannast! (enganveginn þeckti eg ydur
nockru sinni fyrir mína lærisveina) farid
frá mér þér yfirtrodslu-menn! (ógudleg-
ir hræsnarar þurfa einskis stadar, og engra
launa hjá mér ad vænta). Hvørr helst, 24.
sem heyrir þessi mín ord og breytir
eptir þeim, honum vil eg líkja vid for-
sjálann mann, sem byggdi hús sitt á
bergi. En þegar steypi-regn gjørdi 25.
og vatns-flódin komu og vindur geis-
adi, svo þetta hús vard fyrir, féll þad
þó ecki, af því þad var grundvallad á
bergi (í stormi mótlætinganna, og ofbeldis-
somustu ofsóknum, vardveitir sá réttskickadi

Jesú

Jesú vidurkénnari, sem med einlægu hjarta, breytir eptir hans lærdómi, trú sína ó-skérdta, og hans von gétur ecki umturnast).
26. En hvørr hellst, sem heyrir þessi mín ord, og breytir ei eptir þeim, honum má líkja vid óforsjálann mann, sem
27. byggdi hús sitt á sandi. En þegar úr-felli gjørdi og vatns-flódin komu og vindur geisadi, og sama hús vard fyr-ir, hrundi þad, og þess hrun var mikid (á freistíngar-tímanum, þegar mótlæti og ofsóknir bera ad hondum, missir sá, sem ecki þeckir hvad dýrmæt trúarbrogdin eru, vegna þess hann hlýdnast þeim ecki, alla hugprýdi, og gétur, ef svo á stendur, til ad frelsa sína tímanlegu farsæld, ordid
28. opmber trúarbragda smánari). Þá fór svo, þegar Jesús lokid hafdi þessari rædu, ad fólkid undradist nærsta hans
29. lærdóm; því hañ kéñdi þeim, svo sem sá, er gétur géfid ordum sínum sérlegañ krapt, en ecki eins og þeir skriftlærdu, (hvørra kéñslumáti dosiñ var og ávaxtarlaus).

# Þridji Argángur.

## Hofud-lærdómur.

Velmeintri gudrækni, á alvarlegasta á-stundan ad uppfylla skyldu sína eptir

Guds vilja, og honum til þócknunar,
samfara ad vera.

1.) Med sifeldu stodauglyndi, hlýtur hinn trú-
fasti Jesú vidurkennari, síns løglega embættis
ad gæta, eins þó hann leidi á þann hátt marg-
faldar þrautir yfir sig, og þaradauk lída held-
ur órétt enn leitast vid ad hefna sín.

Lúc. Gudsp. 6 Kap. v. 12-31.

I sømu døgum (eptir þad Jesús lækn- 12.
ad hafdi visna manns-hønd á Sabbaths-
degi) bar þad vid, ad hann géck uppá
fjall nockurt til ad bidjast fyrir, og
endti þar út nóttina á bæn til Guds.
En þegar dagur ljómadi, kalladi hann 13.
sína lærisveina fyrir sig, og valdi tólf
af þeim, hvørja hann kjøri til Póst-
ula, nefnilega: Símon, hvørjum 14.
hann gaf auk-nafnid Pétur, og bród-
ur hans Andrés, Jakob og Jóhann-
es, Philippus og Barthólómæus
(hvørr einnin nefndist Nathanael), Mat- 15.
thæus og Thómas, Jakob son Al-
phæi og Símon, sem kalladur var
hinn vandlætíngasami, einnin Júda 16.
Jakobs bródir og Júdas Ischarí-
oth, sem epkirá vard svikari. Síd- 17.
an géck hann med þeim ofan (af fjallinu)
og stadnæmdist á plátsi nockru á mørk-

innni,

inni, hvar flockur hans lærisveina umkríngdi hann, ásamt múga manna úr
18. allri Júdæu og frá Jerúsalem og frá sjáfar-sídunni hjá Tyrus og Sídon, sem komu til ad heyra hann, og til ad læknast af þeirra sóttar-ferlum, einninn þeir, sem qvøldust af óhreinum øndum, hvørjir og svo læknadir
19. urdu. Og hvørr einn kostadi kapps um, ad géta snert hann; vegna þess (eptir því, sem haldid var) kraptur géck út af honum (af hans líkama) og lækn-
20. adi alla. Þá leit hann á lærisveina sína og sagdi: sælir erud þér fátæku! því Guds ríki er ydar: (eckért getur aptrad ydur frá ad verja allri tíd og ástundun til ad útbreida nádar-ríkid, med því þér ofþýngist ecki af umsorgun jardneskra
21. muna). Sælir erud þér, sem nú húngradir verid hljótid (lída neyd vegna sannleikans), því þér skulud vissulega saddir verda (fá endurnæríngu og verdkaup í tækann tíma), sælir erud þér, sem nú gráta verdid (sokum marasskonar offókna), því vissulega mun ad því koma, ad þér hlæid (fáid orsok ad gled-
22. jast því meir, þá tíminn kemur). En framar erud þér sælir, þegar þér mætid hatri

hátri manna søkum Mannsins Son-
ar, og þegar þeir loka ydur úti af
samqvæmi þeirra, smána ydur og
draga út ydar nøfn, svo sem vidbjóds-
leg (á ættartølu spjøldunum). Fagnid á 23.
þeim tíma og verid harla gladværir;
því sjáid! ydar verdlaun í himninum
munu mikil verda, því øldúngis sama
gjørdu fedur þeirra vid Spámennina.
En vei ydur, þér ríku! (þér sjádu Kenn- 24.
endur, sem okrad hafid út ydar lærdómi
til ad safna gulli) því þér hafid þegar
medtekid endurnæríngu ydar (med
þeim áunnu fémunum). Vei ydur, þér 25.
sælkérar! (sem einúngis sækist eptir sæl-
lífi og ófneytslu) því sídar meir mun
ydur húngra (þér munud missa í þeg-
ar verdlaunum útbítt er hinum rádvøndu)
Vei ydur! sem nú erud svo kátir
(sem erud svo gladværir af sansanna lystíngum),
því þér munud vissulega hljóta ad
syrgja og gráta (þegar mótlætid ad høndum
ber, svo sem þeir, er ecki bera skyn á
ad leita annarar hressíngar enn þeirrar
sem sansarnir einir veita). Vei ydur! 26.
þegar allir tala vel um ydur; því svo
gjørdu fedur ydar følsku Spámønn-
unum. En vid ydur, sem heyra vil- 27.
jid,

jid, segi eg: elskid óvini ydar! látid ydur vel farast vid þá, sem hata ydur!
28. árnid þeim góds, sem bidja ydur óbæna, og bidjid fyrir þeim, sem ángra
29. ydur! ef nockurr slær þig á adra kinnina, þá snú og ad honum hinni (heldur enn ad hefna þín siálfur med líkum hætti), og svipti nockurr þig yfirhøfn þinni, (til andvirdis fyrir þad þá ert honum um skylduqur) þá átt þú ecki heldur ad synja honum nær-kyrtilsins (heldur enn ad
30. ega í høggi vid hann). Géf sérhvørjum, sem bidur þig (jafnvel þó synast megi hann vinni ecki til þess, sokum breytni hans vid þig), og hafi nockurr svipt þig eign þinni, kref þess ecki aptur (orsakist út af því kíf):
31. En eins og þér viljid menn breyti vid ydur, eins egid þér og vid þá ad breyta.

2.) Sá gudrækni er stoduglyndur og trúfastur í því ad æfa skyldur sínar vid medbrædur sína, til þess ad sýna med verkunum, ad honum sé annt um ad uppfylla Guds vilja.

Lúc. Gudsp. 6 Kap. v. 32-49.

Framar leiddi Jesús lærisveinunum
32. og fólkinu fyrir sjónir: ef þér elskid einúngis þá, sem ydur elska, hvada þacklæti munud þér fyrir þad skilid ega? því syndarar (vondir menn) elska þá

þá og, sem þá sjálfa elska. Og ef 33.
þér einúngis gjørid þeim gott, sem
gjøra vel vid ydur, hvørra þacka gétid
þér krafist? því jafnvel syndarar gjøra
slíkt hid sama. Og þó þér lánid þeim, 34.
sem þér vonid ad borgi ydur aptur,
hvørr mundi þacka ydur þad? því
syndarar lána einninn syndurum, svo
þeir fái fulla borgun aptur. En elskid 35.
óvini ydar, og gjørid gott, og lánid út,
án þess ad vænta betalíngs; þá munu
ydar verdlaun mikil verda, og þér
munud vera born hins hærsta (gedfeld-
ir hinum himneska fødur svo sem born, honum
lyndis-lik), því hinum illu og óþacklátu
er hañ godur. Verid þess vegna misk- 36.
unsamir, eins og fadir ydar er miskun-
samur. Og dæmid ecki (illgjarnlega um 37.
adra), svo skulud þér ecki heldur (á sama
hátt) dæmdir verda; fordæmid ecki,
svo skulud þér ecki heldur fordæm-
ast; fyrirgéfid, og þá mun ydur
og fyrirgéfast. Géfid, þá skal ydur 38.
endurgjaldast, ríflegum og skéknum
og hristum og kúf-fullum mælir skal
hvolft verda í ydart skaut (hid góda,
sem þér audsýnt hafid, mun ydur af Guds
forsjónar tilhlutun ríkuglega endurgjaldast),

og auk þess mun ydur mælast med
þeim sama mælir, sem þér mælid út
39. med. Eptir þad setti hann þeim
eptirlíkingu fyrir sjónir: hvort mun
einn blindur géta leidbeint ødrum
blindum? munu þeir ecki bádir falla
í gryfjuna? (hinn lastajarni, sem sjálfur
hefir bresti, gjorir sjálfum sér vanvirdu,
med því ad liggja ødrum á hálsi, og yrdi
40. sama á og þeim, hefdi eins ástadid). Læri-
sveininum er ecki fremri lærimeist-
ara sínum, en þegar lærisveininn
er fullnuma, á hann ad vera eins og
hans lærimeistari (þess vegna hlýtur
hinn sanni Jesú lærisveinn ad umbera mein-
41. gjordir med hógværd); en hvørs vegna
er þér [madur!] starsýnt á flísina, sem
er í auga bródur þíns, en géfur ecki
gaum ad bjálkanum í sjálfs þíns auga?
[tekur eptir minnstu yfirsjónum náúnga
þíns, en gleymir þínum eginn miklu stærri
42. lostum]. Eda hvørsu máttú segja vid
bródur þinn: bíd vid, bródir! eg vil
draga út flísina, sem er í auga þínu,
fyrst þú sjálfur sjer ecki bjálkañ í auga
þínu? [þad er ofmikid athugaleysi, ad á-
telja adra, medan manni sjálfum er lángtum
meir enn þeim ábótavant]. Þú, hræsn-
ari!

ari! þú ættir fyrst ad draga bjálkann
útúr auga þínu; eptir þad máttú sjá
um, ad draga út flísina, sem er í auga
bródur þíns. Því þad er ecki gott tré, 43.
sem ber vondann ávøxt, ecki heldur
vondt tré, sem ber gódann ávøxt. Sér- 44.
hvørt tré þeckist af þess eigin ávexti:
af þistlum eru ecki fíkjur samanlesnar,
né vínber plockud úr þyrni-runnunum.
Gódmennid framber gott af gódri 45.
nægt síns hjarta [og lastar þá ecki, held-
ur afsakar sinn náúnga, sem yfirsjest]. Þar-
ámóti framber íllmennid vondt af
vondri nægt hjartans [og lýsir med last-
mælgi sinni vondu sinnislagi sínu], því þad
sem hjartad er fullt af, flýtur út af vør-
unum. Hvørs vegna kallid þér mig; 46.
Herra! Herra! en gjørid þó ecki þad,
sem eg býd? eg vil segja ydur, vid 47.
hvørn eg tek þann saman, sem til mín
kémur og heyrir ord mín og breytir
eptir þeim: hann er líkur þeim manni, 48.
sem byggja vildi sér hús, og lét þess
vegna djúpt grafa, og lagdi grundvøll-
inn á bergi. En þegar megnis vatns-
flód gjørdi, lagdist straumurinn á hid
sama hús, en féck því ecki haggad, því
þad var grundvallad á bergi. Hvørr, 49.

sem þarámóti heyrir það, en breytir ecki eptir því, honum má samlíkja við þann, sem bygdi hús sitt á flatri jørdu grundvallar-laust, en þegar straumurinn lagdist á það, féll það jafnskjótt, og hrundi í grunn að fullu og øllu. [þeckíngin án dygdar og trú án tilfinníngar, fær ei stadist, síst í freistíngum, en verdur øllu heldur að meira tjóni].

# 2an Suñudag í Níuvikna-føstu.

## Adal-hugleiding.

Jesús kénnir hvørsu ydrandi syndarar géti vissir ordið um náð hjá Gudi, og fundið óhultann adgáng til eilífs frelsis.

## Fyrsti Argángur.

### Høfud-lærdómur.

Gud útskúfar ecki þeim syndara, sem ydrast af hjarta, heldur miskunar hon-

num, og veitir honum, af náð sinni, fodurást sína og kjærleika.

1.) Enginn syndari er svo vesæll eda hefir svo afvega gengid, ad Gud sjái ecki aumur á honum, og framqvæmi þad, sem þénanlegt má vera til ad uppvekja hann af syndsamlegu andvaraleysi, svo hann megi frelsis adnjóta.

Lúc. Gudsp. 15 Kap. v. 1-32.

Allir tollheimtu-menn og syndarar 1.
[hrak-menn, sem og Heidíngjarnir þóktu vera í augum Gydínga] héldu sér til Jesú, til ad heyra hann. En Pharísæarar 2.
og skriftlærdir mögludu yfir því, og sögdu: hañ medtekur syndara og setst til bords med þeim [sem eptir þeirrá bræsnisfullu hleypidómum, þókti hvörjum Gydíngi ósæmilegt, ef hann vardveita vildi heilagleik sinn óflekadann]. Þá leiddi hañ 3.
þeim þessa eptirlíkíngu fyrir sjónir, og sagdi: hvörr er sá madur ydar á milli, 4.
sem á hundrad sauda og glatar einum, ad hann ei yfirgéfi þá níutýgi og níu á eydimörku [á heidiñi úti hjá hyrdurunum] og fer ad leita þess, sem vantar, allt þar til hann finnur hann? en þegar 5.
hann hefir hann fundid, leggur hann hinn sama med gledi á herdar sér, og þegar hann kémur heim til sín, kallar

hánn á vini og nágranna, og segir vid
þá: samfagnid mér, því eg fann sand
7. minn, sem horfinn var. Eg segi yd-
ur fyrir víst: ad allteins mun gledi
á himni vera yfir hvørjum einum
syndara, sem ydrast, meiri enn yfir
níutyhgi og níu réttlátum, sem ecki
þurfa yfirbótar vid [svo mjøg elskar sá
gódi himneski fadir manneskjur sínar, ad hañ
lætur sér ecki litlu varda, ef einúngis einn for-
8. tapast, þó øllum hinum sé óhætt]. Elleg-
ar, hvør er sú kona, sem á tíu marks-
peninga, sem ecki qveiki ljós, ef hún
tynir einum marks-peníngi og sópi
húsid, og leiti grandgæfilega uns hún
9. finnur hann aptur? en þegar hún hef-
ir hann fundid, kallar hún á vin-konur
sínar og grann-konur, og segir: sam-
fagnid mér! því marks-peníngiun,
hvørjum eg glatadi, hefi eg aptur
10. fundid. Eg segi ydur fyrir víst: svo
er og føgnudur medal Guds engla
yfir hvørjum einum syndara, sem
ydrast [hvørvetna á himni hefir sú eptir-
laungun yfirhønd, sem sjálfur Gud hefir,
ad mennirnir megi sáluhólpnir verda].
11. Framvegis sagdi hann: madur nock-
12. urr var, sem átti tvo sonu. Sá yngri

sagdi

sagdi vid fødur sinn: Fadir! géf mér
þann hluta fjármunanna, sem mér
ber á sídan! þá skipti hann líka fénu
þeirra á milli. Fánm døgum sídar, 13.
tók ýngri sonurinn eigur sínar saman
og ferdadist burt í fjærlægt land, og
sóadi þar út gótsi sínu med andvara-
lausu liferni. En þegar hann gjør- 14.
eydt hafdi ollu sínu, kom þúng dýr-
tíd í samaland, og hann tók ad skorta.
Þá fór hann burt og gaf sig til borg- 15.
ara nockurs þar í landi; og þessi sendi
hann út á land góts sitt til ad gæta
svína. Þar vildi hann feginn fylla 16.
maga sinn med þeskonar trés-áverti,
sem svínin vóru fódrud med; en eng-
inn gaf honum neitt. Þá tók hann ad 17.
naga sjálfann sig, og sagdi: hvørsu
marga dag-launa-menn heldur þó
fadir minn, sem hafa brauds nægtir?
og eg! eg dey úr húngri. Því vil eg 18.
nú búast til ferdar, og fara á fund fød-
ur míns, og segja vid hann: Fadir!
eg hefi syndgad á móti himninum og
á móti þér! eg vinn framar ecki til ad 19.
nefnast sonur þinn: tak þú mig fyr-
ir daglauna-mann þinn! sídan fór 20.
hann af stad á fund fødur síns. En

medan hann var enn lángt burtu,
kom fadir hans auga á hann, og
hrærdist sárlega miskunar yfir hon-
um, hljóp ad, féll um háls honum og
21. kyssti hann. Þá sagdi sonurinn vid
hann: o Fadir! eg hef syndgad á móti
himninum og á móti þér, og vinn ecki
22. framar til ad nefnast sonur þinn. En
fadirinn sagdi vid þénara sína: kom-
id híngad med bestu føtin og klædid
hañ í þau og dragid hríng á hønd hans
(sem var heidurs-teikn eptir lands-vananum)
23. og skó á fæturnar. Sækid líka ali-
kálfinn og slátrid honum, og látum
24. oss neyta og glada vera; því þessi
sonur miñ var daudur (rétt sem full-
tapadur), en er aptur lifandi ordinn;
hann var týndur, en er nú aptur fund-
inn. Og nú tóku þeir ad gledja sig.
25. A medan var hans eldri sonur úti á
mørkinni; en þegar hann á heimleid
nálgadist húsid, heyrdi hann dans og
26. hljódfæra-slátt; þá lét hann kalla á
einn af þénurunum, og spurdi: hvad
27. þetta þýda ætti? hann svaradi hon-
um: bródir þinn er kominn, og fadir
þiñ lét slátra ali-kálfinum vegna þess
hann fékk hann heilann og hraustann.
Þá

Þá reiddist hann, og vildi ecki inn- 28.
gánga; þess vegna géck fadir hans
út og bad hann. En hann svaradi og 29.
sagdi vid fødur sinn: sjá! eg hefi nú
þjónad þér í mørg ár, og aldrei brotid
á móti bodum þínum, þó hefir þú ald-
rei géfid mér kid, svo eg mætti gladvær
verda med vinum mínum. Þará- 30.
móti, þegar þessi sonur þinn kom, sem
eydt hefir gótsi þínu hjá skjækjum, lœt-
ur þú slátra honum til handa ali-kálf-
inum. Þá svaradi hann honum: 31.
sonur! þú ert ætíd hjá mér og allt,
sem eg á, átt þú líka. En nú ber ad 32.
vera gladvær og fagna, sokum þess,
ad þessi bródir þinn var daudur, en er
aptur lifandi ordinn, og var týndur,
en er nú aptur fundinn.

2.) Sá ydrandi, sem med sáru ángri yfir syndunum, audmýkir sig fyrir Gudi, med innileguſtu laungun eptir hans miskun, finnur opinn veg til frelsis, en þvertámót gabba þeir sjálfa sig med svikulli hyggjun, sem réttlátir vera þykjast.

Lúc. Gudsp. 18 Kap. v. 9-17.

Þá sagdi Jesús og þessa eptirlíkíngu 9.
þeim, sem treystu á sjálfa sig, ad þeir
réttvísir væru, en forsmádu adra:

10. tveir menn gengu upp í musterid, til
ad bidjast fyrir, annar var Pharísæ-
11. ari og hinn Tollheimtumadur. Pha-
ríſæarinn stód affídis sér (hræddur um
ad hann yrdi óhreinn ef einhvorr kjæmi nærri
honum) og bad þanninn: o Gud! eg
þacka þér fyrir þad eg er ecki eins og
hinir mennirnir, eins og ræníngjar,
ránglátir, hórdómsmenn, ellegar eins
12. og þessi tollheimtumadur. Eg fasta
tvisvar í viku, og géld tíund (til must-
13. erisins) af øllum eigum mínum. Þará-
mót stód tollheimtumadurinn lángt
frá, og vildi ecki upphefja sín augu til
himins, heldur bardi sér á brjóst, og
mælti: Gud veri mér syndaranum
14. líknsamur! eg segi ydur fyrir víst:
þessi fór réttlættur (til nádar tekinn)
heim til sín øllu heldur enn hinn; því
hvørr, sem gjørir mikid úr sjálfum sér,
mun lítilæckast, en hvørr, sem líti-
læckar sjálfann sig, mun upphefjast.
15. Þá høfdu menn og úngbørn til hans,
svo ad hann snerti þau (med því ad legg-
ja hendur yfir þau); en þegar lærisvein-
arnir sáu þetta, ávítudu þeir fólkid.
16. Þá kalladi Jesús hina úngu fyrir sig,
og sagdi: látid børnin koma til mín,
og

og meinid þeim þad ecki, þvl Guds rÿki heyrir þvílíkum til (þeirra hreina og saklausa hjartalag, sem fri er frá hofmód, gjörir þau hæfileg til ad verda náðar-rikisins borgarar). Eg segi ydur satt og 17. vÿst; hvörr, sem veitir ecki Guds rÿki vidtöku, eins og barn (med sömu einlægni, og án þess ad hafa nockurt álit á eigin verdskuldun, medtekur gledi-bodskapinn um nád hjá Gudi fyrir Messias), getur ecki komist í þad (getur ecki ordid verdugur borgari nádar-rikisins, Matth. 19, 13-15. Marc. 10, 13-16).

## Annar Argángur.

### Höfud-lærdómur.

Svo ad sorgbitnir syndarar géti haft örugguſtu fullvissu um þeirra synda fyrirgéfníngu, lét Gud sinn einasta Son, géfa sjálfann sig út, til ad lída qvala-fyllstu þjáníngar þeirra vegna, og þeim til fridþægíngar.

1.) Jesús útmálar þann píslar-dauda, sem fyrir honum lægi, svo sem fórnfæríngu fyrir alla syndara, sem Guds rád áqvardad hefdi af kjærleika og medaumkun þeim til endurlausnar, svo framt þeir færdu sér í nyt hans frambodnu nád, sér til sannrar endurbótar, bædi ad sinnislagi og framferdi Jóh.

Jóh. Gudsp. 3 Kap. v. 1-21.

1. Madur nockurr var þar af flocki Pha-
rísæanna, Nicódemus ad nafni, Yf-
irvalds-madur medal Gydinga (einn
Rádgjafi úr því mikla rádi í Jerúsalem),
2. Hann kom á náttar-þeli á Jesú fund,
og sagdi vid hann: Meistari! vér vit-
um, ad þú ert kominn frá Gudi svo sem
lærimeistari; því furduverk þaunr eins
og þú gjørir fær; enginn gjørt nema
3. Gud sé med honum. Jesús svaradi
honum og sagdi: eg segi þér øldúngis
satt og víst: nema svo sé einhvørr fæd-
ist á ný, audnast honum ecki ad sjá
Guds ríki (hann fær ecki hlutdeild í nád-
ar-ríkinu, sem ad Guds vilja stiptast á, fyr-
4. ir Messias, syndurunum til frelsis). Þá
sagdi Nicódemus vid hann: hvørsu
fær nockur manneskja fædst, þegar
hún er gømul ordin? er þad møgu-
legt hún aptur hverfi í módur sinnar
5. líf, og fædist svo? Jesús svaradi: eg
segi þér øldúngis satt og víst: án þess
ad einhvørr fædist af vatni og anda
(sé skírdur og endurnhjadur eda ummindad-
ur á andlegann hátt, svo hann verdi ønnur
og betur lundud manneskja), fær hann ecki
6. innkomist í Guds ríki. Hvad, sem
af

af holdi er fædt, þad er hold (med því ad
fædast líkamlega, verdur manneskjan einúnga-
is sanfaleg), en sérhvad, sem fædt er af
andanum, er andlegt (med hinni and-
legu fædíngu, sem sálunni vidkémur, verdur
madurinn hid fyrsta andlega sinnadur).
Ecki máttú undrast, ad eg sagdi vid 7.
þig: ydur byrjar ad fædast á ný!
(þér Gydíngar ecki sidur enn Heidíngjar).
Vindurinn blæs, hvört hann vill, 8.
og þú heyrir ad sønnu þyt hans, en
veitst þó ecki hvadan hann kémur eda
hvört hann fer; eins er því háttad á-
hrærandi þad, ad sérhvørr (hvört, sem
hann er Gydíngur eda Heidíngi) hlýtur
af andanum ad fædast (hlýtur ad end-
urnýjast, eda umímindast ad sinni og hjarta-
lagi, vilji hann verdugur borgari gjørast í
Messíasar ríki. Þetta skilst þér ecki, Nicó-
demus! ad egi heima hjá Gydíngum, sem
meint er ad rétt hafi til Messías, sokum þess
þeir af náttúrlegri fædíngu eru Abrahams
børn; og þó gétur þad ecki ødruvísi verid,
þeir hljóta ad láta skírast, og þanninn láta
sig skuldbinda til ad ástunda betri þeckíngu
og betra lunderni enn híngad til, egi Messí-
ías ad gjøra þá farsæla). Nicódemus 9.
svaradi honum og sagdi: hvørsu fær
þetta skéd? Jesús svaradi aptur og 10.
sagdi

sagdi vid hann: ertú Lærimeistari í
Israel og ber eckért skyn á þetta?*)
11. eg segi þér øldúngis satt: vér berum
skynbrágd (eg og þeir, sem eg frædi) á
þad vér kéñum, og vér vitnum um þad,
sem vér sjed høfum, en þér trúid þó
12. ecki vorum vitnisburdi. Fyrst þér
trúid ecki þegar eg tala vid ydur um
jardneska hluti (hvad á undan verdur ad
gánga hjá ydur hér á jørdu, ef þér ødlast
viljid sanna farsæld), hvørsu munud þér
þá

*) Nicódemus hèfdi því heldur átt ad skilja þad Jesús bendir til, sem hinir lærdu medal Gýdínga kølludu þad sjálfir nýja fædíngu, þegar Heidíngjar yfirgáfu afgúda-dýrkun og tóku Gydínga-trú. Þeir vóru skírdir, til merkis um þad, ad allar þeirra umlidnu yfirsjónir væru nú afþvegnar og gleymdar. Þeir fengu nýja trú, nýja guds-dýrkun, nýjann forsødur Abraham, nýjar skyldur, nýtt framferdi ad kostgjæfa. Þeir urdu ad øllu leiti adrir menn, svo sem þeir hefdu fædst á ný. En þad skildist Nicódemusi enganveginn, ad þvílík umbreytíng í meiníngum og gudsdýrkun eda ødru framferdi, gæti átt heima hjá sjálfum Gydíngunum, ættu þeir not af Messías ad hafa, því þad stríddi þvertámóti Pharisæanna mikla álíti á ósamjafnanlegum yfirburdum Mósis trúarbrágda; þess vegna bar hann sig heldur ad eigna ordum Jesú þá undarlegu meiníngu: ad líkamleg endurfæding en ecki andleg útheimtist.

þá leggja trúnad á, þó eg kunngjøri ydur hid himneska (hvad Gud í sínu rádi ályktad hefir ad framqvæma sjálfur ofánad, til lausnar syndugum mønnum). Þó hefir 13.
enginn upp til himins farid (frá jørdunni, til ad sækja þeckingu á því til sjálfs Guds); hann einn, sem frá himni fór híngad ofan (hefir af því ad segja, þad er ad skilja:) Mannsins Sonur; sem er á himni (og er í nánustu sameiníngu vid Gud). En eins og Móses 14.
upphóf høggorminn á eydimørku (kopar-orminn á hárri staung, svo sérhvørr Israels madur gæti séd hann, og þegar eitradir høggormar bitu hann, gæti vid sjón þessa uppvakist til ad bidja Gud, med vongódri huggun, um frelsi frá daudanum, eptir hans gefna fyrirheiti, 4 Mós. b. 21, 8. 9.), svó á og Mannsins Sonur (sem var hid himneska, er hann nú kunngjøra vildi) ad verda upphafinn (á kross-tréd), svó 15.
ad hvørr sá, sem trúir á hann (setur trú og traust á hann, ad Gud, hans vegna, vilji taka hinn forabitna til nádar) glatist ecki, heldur ødlist eilíft líf. Því svó 16.
elskadi Gud heiminn (allt mannkynid, og ecki einúngis Gydínga) ad hann útgaf sinn eingétna son (í qvøl og dauda) til þess, ad hvørr sá á hann trydi, glat-

ádist

adist ecki, heldur odladist eilíft líf.
17. Gud sendi ecki son sinn í heiminn til
ad fordæma hann, heldur til þess,
ad heimurinn frelsast mætti hans
18. vegna. Hvorr, sem trúir á hann,
fordæmist ecki, en hvorr, sem ecki
trúir, er þegar dæmdur sakfallinn,
vegna þess hann vildi ecki trúa á
19. nafn Guds eingétna sonar. En þess
vegna verdur áfellis-dómur upp-
sagdur: ad þegar ljósid (sá guddómlegi
sannleiks Kénnari Jesús Kristur) kom í
heiminn, þá elskudu menn eñ fram-
ar myrkrid (hjátrú sina og hleypidóma)
heldur enn ljósid (hinn ljósa sannleika,
sem Jesús kénndi), þvíad þeirra verk
vóru vond (þeir hofdu framid svo margs-
konar gudleysi, sem þeir máttu hlygdast
20. fyrir, en vildu þó ecki afláta). Hvorr,
sem illa breytir, hatar ljósid, og kém-
ur ecki til ljóssins, svo ad ecki verdi
uppvíst um verk hans (sá er verkan
21. vondrar samvitsku); en hvorr, sem rétt
gjorir (og hefir þess vegna góda samvitsku)
kémur fram til ljóssins, svo ad verk
hans megi kunn verda, því þau eru
gjord í Guds augliti.

2.) Til

2.) Til stadfestu um ad Jesús einn, en enginn annar, væri hinn fyrirheitni Messias, vitnadi sjálfur hann fyrir fólkinu, ad hann, sem sá gódi hyrdir, gjæfi sitt líf út fyrir saudina til ad frelsa þá frá tjóni, en tæki líf sitt aptur til innsiglis um þad, ad Gud hefdi sendt hann í þessar mikilvægu erindagjördir.

Jóh. Gudsp. 9. Kap. v. 35-41.

En þegar Jesú barst til eyrna, ad 35.
þeir útrekid hefdu (þann, sem blindur var
fæddur og fengid hafdi sjónina), og hann
þareptir hitti hann, sagdi hann vid
hañ: trúir þú á Guds Son? hañ svar- 36.
adi og sagdi:, hvörr er hañ, Herra! ad
eg megi á hann trúa? þá sagdi Jesús 37.
vid hañ: bædi hefir þú sjed hañ og líka
er hañ sá, sem vid þig talar. Þá sagdi 38.
hann, Herra! eg trúi; og varpadi sér
sídan á ásjónu sína fyrir honum. Þá 39.
sagdi Jesús: eg er í heim þenna kom-
inn, svo sem til ad fella þann dóm, ad
þeir, sem ecki sjá skuli fá sýn (med því
hinir fáfródu, sem ecki hafa mikla þánka um
sjálfa sig, láta feginsamlega fræda sig) og ad
þeir sjáandi skuli blindir verda (því þess-
konar sérvitríngar finna ad öllu, sem þeir sjálf-
ir hafa ei komid upp med, og sockva þess vegna
æ dýpra og dýpra í þeirra hleypidóma). En 40.
þegar þeir Pharísæarar, sem hjá hon-

um vóru, heyrdu þetta, søgdu þeir vid
hann: erum vér þá einninn blindir?
41. Jesús svaradi þeim: ef þér blindir
værud, þá lægi engin sekt á ydur; en
nú segid þér: vér sjáum! þess vegna
erud þér sekir.

Jóh. Gudsp. 10. Kap. v. 1-21.

1. Eg segi ydur øldúngis satt og víst:
hvorr, sem ecki gengur inn um dyrnar í
sauda-húsid, heldur fer annarstadar
2. inn, sá er þiófur og ræníngi, en sá, sem
gengur inn um dyrnar er hyrdir saud-
3. anna, fyrir honum lýkur dyra-vørd-
urinn upp, og saudirnir þeckja hans
raustu: hann kallar med nafni sína
4. egin saudi og leidir þá út. Og þegar
hann á ad leida þessa sína eginn saudi á
hagann, gengur hann undan þeim; en
saudirnir fylgja honum, því þeir heyra
5. hans raustu; þarámóti fylgja þeir
ecki nockrum ókénndum, heldur flýja
hann, af því þeir þeckja ecki rødd hins
6. ókunnuga. Á svo forblómadann hátt
taladi Jesús vid þá, en þeir gripu
ecki hvad þessi hans ord þýda áttu
(jafnvel þó hvorr einn skilji, ad hann vildi
minna þá á, ad þeir ecki breyttu svo sem trú-
fastir Kénnendur vid fólkid, og mættu því
ecki

ecki ætlast til ad þad treysti þeim), því sagdi 7.
Jesús apturvid þá: eg seigi ydur øld-
úngis satt og víst; eg er dyr saudaña!
svo margir, sem undan mér eru inn- 8.
komnir, eru einúngis þjófar og ræn-
íngjar (hinir skristlærdu og Pharisæarnir,
sem af eginn myndugleika gjordust hyrdarar
og Kénnendur fólksins, leitudu einúngis eig-
inn ávinníngs). Eg er dyrnar! hvørr, 9.
sem inn kémur med miñi hjálp, (er af
mér settur til ad vera hyrdir og breytir eptir
því, sem eg fyrirlegg), honum mun vel
vegna, og hann skal gánga út og inn
(stunda kall sitt farsællega) og hagann
finna (handa saudunum). Þjófurinn 10.
kémur ecki til annars enn ad stela,
drepa og eydileggja; eg er kominn
til þess þeir skuli lifa og allsnægtir
hafa. Eg er sá gódi hyrdir (sem Gud 11.
fyrirhét sínu fólki, til ad annast þad og leida,
Jerem 23, 4. 5. Ezech. 34, 23), þessi
godi hyrdir leggur lífid í sølurnar
vegna saudanna; en leigulidiñ, sem 12.
ecki er hyrdir, hvørjum saudirnir vid-
koma ecki, yfirgéfur saudina þegar
hann sier úlfinn koma, og flýr, og
úlfurinn hrífur saudina og tvístrar
þeim; en leigulidinn flýr vegna þess 13.

hann er leigulidi, og ber ecki umhyggju fyrir saudunum (þad gjörir Jesús ei, því hann elskar saudina, svo sem eign sína, og lætur heldur líf sitt enn hann
14. vilji þeir farist). Eg er sá gódi hyrdir, bædi þecki eg mína, og þeckist af mín-
15. um. Eins og fadirinn þeckir mig, (ad eg trúfastur er, og horfa ecki undan yfirhángandi háska), svo þecki eg og fødurinn (og veit hans ród), og géf því
16. mitt líf út fyrir saudina. Eg hefi héradauki adra saudi, sem ecki eru af þessu sauda-húsi (hinar adrar þjódir, sem ecki eiga kyn sitt ad rekja til Abrahams), þá hlýt eg líka híngad ad leida, og þeir munu heyra mína røddu, svo ad ein hjørd og einn hyrdir verdi til (hyrdirinn Messias tekur eins ad sér ad frelsa Heidíngjana og Gydíngana, og leidir þá alla med sinni umønnun til hinnar
17. sønnu farsældar). Vegna þess elskar fadirinn mig, ad eg gef út mitt líf fyrir saudina, þó svo ad eg taki þad aptur;
18. enginn sviptir mig því (mót vilja mínum), en eg gét þad út af sjálfs dádum. Vald hefi eg til ad láta þad, og vald hefi eg til ad taka þad aptur; þvílíkar erindagjørdir hefi eg af fødurnum fengid.

Þá

Þá reis á ný twídrægni medal Gyd- 19.
inga, út af þessari rædu. Margir af 20.
þeim sögdu: hann er djöful-ódur og
galinn; því viljid þér hlusta á hann?
adrir sögdu: einkis ærs manns ord 21.
eru þessi! mun nockurr djöfull gjört
géta augu hinna blindu sjáandi?

# Þridji Argángur.

## Höfud-lærdómur.

Þeir, sem vilja betra sig, hafa fullvissu um syndanna fyrirgéfníngu og sálu-hjálp fyrir trúna á árnadar-manninn, sökum hans pínu og dauda.

1.) Eptir Jesú egin losordum, má sérhvörr ydrandi og trúadur vera fullviss um ad finna, vegna hans, svo sem þess sanna heimsins Lausnara, sem Gud sjálfur kjörid hefir, óhultann adgáng til eilífrar farsældar.

Joh. Gudsp. 6 Kap. v. 28-51.

Þá spurdu þeir hann (menn, sem leit- 28.
udu hann uppi í Kapernaum, eptir þad hann
hafdi mettad þá med fimm braudum og tveim-
ur fiskum); hvad egum vér ad gjöra,
svo vér gétum framqvæmt eitthvad
Gudi þócknanlegt? Jesús svaradi 29.

 þeim

þeim og sagdi: hvad framqvæmast
á Gudi til þócknunar er þetta: ad þér
30. trúid á þann, sem hann útsendi. Þá
søgdu þeir vid hann: en, hvørt teikn
gjørir þú, sem vér sest gétum augu
á, til ad trúa þér? hvørju kémur þú
31. til vegar? fedur vorir átu manna í
eydimørku, eins og skrifad stendur:
hann gaf þeim braud af himni til
32. fædslu (Ps. 78, 24.). En Jesús svar-
adi þeim: eg segi ydur øldúngis satt
og víst: braud af himni hefir Móses
ecki géfid ydur (þvi fólkid át náttúrlegt
manna í eydimørkinni, sem er sætur vøkvi,
er rennur úr vissum trjám á nóttunni, en
storknar þegar sólin kémur upp, 2 Mós. b. 16,
13. 14. En Gud ól onn fyrir med forsjón
sinni, ad hvørn morgun findist svo mikid af
þessu, sem naudsyn útkrafdi, og í því til-liti
er þad af Psálma-skáldinu fyrir sjónir sett,
eptir skálda orda-tiltækjum, svo sem af himni
géfid); en fadir miñ géfur ydur hid rétta
33. braud af himni; því þad er Guds
braud, sem kémur frá himnum ofan,
34. og géfur verøldinni líf. Þá søgdu
þeir vid hann: Herra! géf oss jafn-
35. an þetta braud! Jesús svaradi þeim:
eg er þad braud, sem lífid géfur! hvørt,
sem

sem til mín kémur skal ecki húngur
lída, og hvørr, sem á mig trúir skal
aldrei þorsta lída (hans laungun eptir
sannri farsæld, skal fullkomlega uppfyllast).
En eg hefi þegar leidt ydur fyrir sjón- 36.
ir, ad þér hafid ad sønnu sjed mig
(opinberadann med mínum furdu-verkum,
svo sem þann, sem Gud útsendann hefir)
og þó trúid þér ecki; hvørr sá, sem 37.
fadirinn géfur mér, skal til mín koma
(fadirinn mun vissulega haga því svo, ad
hinir rádvøndu vidurkénni mig og trúi mér),
og enganveginn vil eg gjøra þañ apt-
ur-reka, sem kémur á minn fund;
því eg er frá himnum ofan komiñ, ecki 38.
til ad gjøra minn vilja (gjøra þad mér
lítst, eptir egin áliti), heldur vilja þess,
sem útsendi mig. Og vilji fødursins, 39.
sem sendi mig, er sá, ad eg missi eng-
ann af þeim, sem hann géfur mér,
en á efsta degi mun eg reisa þá upp
aptur frá daudanum (og þess vegna gjøra
þá, ad sálu og líkama til, eilíflega farsæla).
Já, sá er vilji hans, sem mig sendi, ad 40.
hvørr sá, sem soninn sjer (vidurkénnir
ad hann sé sá, sem hann er) og trúir á hañ,
skuli ødlast eilíft líf, og eg mun reisa
hann upp á efsta degi. Þá møgludu 41.

Gydíngar sín á milli yfir honum,
vegna þess hann sagdi: eg er þad
braud, sem kémur af himnum ofan!
42. og þeir søgdu: er þetta ecki Jesús Jó-
sephsson (sem hann almennilega var á-
litinn ad vera), hvørs fodur og módur
vér þeckjum? hvørninn segir hann
þá: eg er af himnum ofan kominn?
43. þess vegna svaradi Jesús þeim og
sagdi: møglid þó ecki svona innbyrd-
44. is! enginn fær til mín komist (med
sannfæríngu og trausti) nema svo sé, ad
fadirinn, sem sendi mig, fái hañ híng-
ad leidt (med ordi sínu og stjórnun); og
þann skal eg þá uppvekja á þeim efsta
45. degi. Skrifad stendur hjá Spámøñ-
unum: þeir skulu allir af Gudi upp-
frædddir vera! (Es. 54, 13. Jer. 31, 33.
34). Vegna þess kémur hvørr sá til
mín, sem heyrir fødurinn, og lærir
46. af honum: ecki þad nockurr hafi þó
fødurinn sjed! þad hefir sá einn, sem
er frá Gudi (Sonurinn Jesús Kristur),
47. hann hefir fødurinn sjed. Eg segi
ydur øldúngis satt og víst: hvørr
48. sem á mig trúir, hefir eiliít líf. Eg
49. er þad braud, sem géfur líf. Fedur
ydar átu manna á eydimørku og dóu
þó.

þó. Hér er þad braud, sem frá 50.
himnum ofan kemur, svo ad menn
neyti þess og deyi ecki. Eg er þad 51.
lífs-fulla braud, sem frá himnum er
ofan komid! eti nockurr af þessu
braudi, skal hann eilífflega lifa; en
þad braud, sem eg vil géfa, er minn
líkami, hvørn eg vil útgéfa, svo ad
heimurinn lifa megi.

2.) Eptir sjálfs Jesú útskíríngu, hefir hann, med pínu sinni og dauda, fært forlíkunar-offur, í hvørju þeir ega hlutdeild ad taka med trú og trausti, sem einúngis hans vegna leita nádar og sáluhjálpar.

Jóh. Gudsp. 6 Kap. v. 52. 71.

Þá reis innbyrdis þráttan milli 52.
Gydínga og þeir søgdu: hvørsu fær 53.
hann géfid oss líkama sinn ad eta? en
Jesús svaradi þeim: eg segi ydur øld-
úngis satt og víst: án þess ad þér fá-
id líkama mannsins Sonar ad eta,
og hans blód ad drecka (fáid hlutdeild í fridþægíngar-offrinu, sem hann framber med dauda sínum á krossinum, eins og menn vid offur-máltídir, sem haldnar vóru med því kjoti, sem afgéck offrinu, tileinkudu sér hlutdeild í þeirri forlíkun, sem skédi, med því ad afljfa offur-dýrid), þá

hafid

54. hafid þér ecki lífid med ydur. Hvørr,
sem etur minn líkama, og dreckur
mitt blód, hefir eilíft líf, og eg vil
55. uppvekja hann á efsta degi; því miñ
líkami er sonn fæda, og mitt blód er
sannarlegur dryckur (ódætt er ad reida
sig uppá fridþægínguna, sem fullkomnast
56. med minni fórnfæríngu). Hvørr, sem et-
ur minn líkama og dreckur mitt
blód, kémst í varanlega sameiníngu
57. vid mig og eg vid hañ. Eins og fad-
irinn sá lifandi, sendi mig, og eg lifi
vegna fødursins, svo skal og sá, sem
mín neytir, lifa vegna mín (sa
krapt og dugnad og heill og farsæld, med
því ad treysta á mig, sem árnadar-mann).
58. Her er braudid, sem frá himnum er
ofan komid! ecki eins og fedur ydar
átu manna í eydimørkinni, og dóu
þó; en hvørr, sem etur þetta braud
59. skal eilíflega lifa. Þetta taladi
hann í samkundunni í Kaperna-
60. uñi, hvar hann kénndi. Þá søgdu
margir af hans lærisveinum, sem
á þetta hlýddu: þad er vandskilin
kénníng! hvørr gétur heyrt á hann!
61. en þegar Jesús vard þess sjálfur
var, ad hans lærisveinar mogl-
udu

udu um þetta, sagdi hann vid þá:
hneixlar ydur þetta? hvad? ef ydur 62.
audnast ad sjá, ad Mannsins Sonur
fer upp þángad, sem hann ádur var
(til himins)? Andinn er sá (hin rétta 63.
meiníng og augnamid þessa míns lærdóms),
sem veitir líf (og farsæld), í því tilliti
fær eckert stodad líkaminn (álitinn
eptir ydar ímindun eingúngis sem sansaleg-
ur líkami), andi og líf eru þau ord,
sem eg vid ydur tala (þau ega and-
lega ad skiljast, og leida þanninn til lífs
og farsældar). En nockrir eru ydar 64.
á milli, sem ecki trúa. Því Jesús
vissi frá øndverdu, hvørjir þeir
vóru, sem ecki trúdu, og hvørr sá
var, sem fjør-rádamadur hans verda
mundi. Framar sagdi hann: þess 65.
vegna sagdi eg ydur, ad enginn fær
til, mín komist nema honum veitist
þad af mínum fødur. Þadan af 66.
sneru margir hans lærisveinar aptur,
og fylgdu honum ecki framar. En 67.
Jesús sagdi vid þá tólf: viljid þér
þá líka burtu fara? Símon Pét- 68.
ur svaradi honum: Herra! til hvørs
egum vér ad fara? þú heldur þá
kénníngu, sem leidir til eilífs lífs.

69. En vér høfum og trúad því og vid-
urkénnt ad þú sért Messías, Son-
70. ur lifanda Guds. Jesús svaradi
þeim: hefi eg ecki kosid ydur tólf
ad tølu? þó er einn medal ydar
71. djøfull! en þetta sagdi hann um
Júdas Ischarioth Símonar-
son, því hann ætladi ad verda
hans fjør-ráda-madur, og vár einn
af þeim tólf.



## Prent-villur.

Bls. 35 lín. 7, ad ad les: ad. Bls. 70 lín. 13, spnrdi les: spurdi. Bls. 132 lín. 22, edeleggíng les: eydileggíng. Bls. 158 lín. 23, Jóhaanniesar les Jóhánnesar. Bls. 212 lín. 14, og og les: og. Bls. 233 milli lín. 1 og 2 innset: Høfud-lærdómur. Bls. 247 lín. 14, Matth. les: Marc. Bls. 358 lín. 13, og og les: og. Bls. 374 lín. 2, ossætja les: ossækja.



